# Stutt og Einfollð Undervisun Um Christenndomenn,

Samanteken epter Fræde-Bokum hinnar Evangelisku Kyrkiu

Af

Mag. Jone Þorkelssyne Vidalin,

Fordum Biskupe Skaalholts Stiftes

(Sællrar Minningar)



Þryckt i Kaupmannahøfn af Johan Jörgen Høpffner, Universitatis Bokþryckiara.
Anno MDCCXXIX.

Joh. 17. v. 3.

Þad er eylijft Lif, ad þeir þeckie þig einn sannan Gud ad vera, og þann þu sender, JEsum Christum.

1 Cor. 12. v. 3.

Eingenn kann JESUM, Drottenn ad kalla, nema fyrer Heilagann Anda.

1 Joh. 3. v. 23.

Þad er Bod hanns, ad vier truum a Nafn hanns Sonar, JEsu Christi, og elskumst innbyrdis, so sem hann hefer skipad oss.

Imprimatur
C. W. Worm.



# Til Lesarans.

Vel talar St. Petur i sins Fyrra Pistels 2.Cap.v.2.3.er hañ seger: So girnest nu, eins og nyfædd Børn, hina hreinu og ofølsudu Miolk, so ad þier efleft af henne, epter þvi þier hafed smackad hvad sætur ad Drottenn er. Eingenn Efe er a þvi, ad Postulenn

enn nefner GUDS Heilagt
Ord, Miolk, i þessum Stad,
og þo hellst hid fyrsta Upphaf
Christelegs Lærdoms; hver
Ordshattur ad Heilagre
Ritningu er altamur: Eg
**baud ydur Miolk og eige
megnann Mat** seger Paul-
us 1 Cor. 3. v. 2. Og er þetta
næsta vel tilfunded; eins og
Børnenn næraſt a Miolkenne,
so næreſt hin Andlega nya
Skepna GUDS, i Christo a
hanns Orde. Børnenn kunna
eige ad lifa an Miolkur; þeim
er og vis Andlegur Daude,
sem eige hefur sitt Fostur af
Guds Orde; Fyrer Guds Ord
erum

erum vier Endurfædder; med Guds Orde verdum vier endurnyader, og af Guds Orde voxum vier til fullkomens Mælers Christi Alldurs, so sem Paulus ad orde kemst Eph. 4. v. 13. J Skijrnenne, og fyrer Guds Ord smøckum vier fyrst hvad sætur ad Drottenn er, þvi þar ødlunst vier Truna, so sem Frelsarenn seger; ad Ungbørnenn true a sig, og ad þvilikra sie Himnarijke; enn nær vier drøgunst a legg, þa verdur oss frammbodenn þesse hreina Miolk i vorum Barna Lærdome,

dome, og þad allra fyrst i hinum Minna Catechismo hins Sæla Lutheri, vorrar Kyrkiu Lærefødur, hver ad sønnu hefur allt þad i sier folged, sem Christeñ madur þarf ad trua sier til Myskunar, og Saluhialpar. Enn fyrer þvi, ad hann er so sem Upphafs stafer Christelegs Lærdoms, Hebr. 5. v. 12. og giørdur til þess, ad Børnenn, strax a Ungmennis Arum, skule nema, og kunna hañ utan ad, þa er hann æred stuttur, og alleina þar fyrer Børnunum i fyrstunne eige so audskilenn, ad þau kuñe ad færa sier i nyt

þa

þa Guds Gafu, so sem þarf, nema hun sie þeim greinelega utløgd; hvar fyrer margur Gudhræddur og Lærdur Madur, hefur skrifad Utskijring yfer þesse Fræde, og eru nockrar þesshattar Bækur utgeingnar a vora Tungu: þar er ein Bok, kølluð Leikmanna Biblia, utgeingenn 1599. er utlagt hefur Sal. Herra Gudbrandur Biskup Hola Stiftes, (sællrar Minningar) hver ed vel utskijrer Innehalld þessa Catechismi, og oska eg ad su Bok mætte aptur þryckiast, þvi hun er hin nytsamlegasta ein

)( 4 fyrer

fyrer sig, til þeckingar Christ-
enndomsens. Þar er Enchi-
ridion edur Handbok þeirra
Lærdu Manna D. Davidis
Chytræi, og D. Martini Chem-
nicii, og svo utløgd af Herra
Gudbrande, prentud ad
Holum 1600. Su Bok er a-
giæt, enn þo leingre enn
so, ad þeir kunne ad nema,
sem annadhvert eru onæmer,
edur ei fa tom til ad yd ka sig
storum i Bokalestre, so sem
eru þeir, ed hliota ad vinna
fyrer sinu, og añarra Braude.
Þar er og so hinn Store Cate-
chismus, er vier so køllum, eiñ-
enn epter Utleggingu Herra
Gud=

Gudbrands, ad eg meina; enn su Bok er æred laung, og valla þienanleg, nema þeim sem hafa godar Stunder: Enn af þessum þrem Bokum, og þeim Formalum, er þeim fylgia, er audsært, hvad mikla Astundan, ad sa Gudsmadur hefur haft til ad efla Christenndomenn i Lande voru. Til eru og so Høfudgreiner Christelegrar Truar, er ut hefur lagt Sal. Sr. Jon Arason Profastur i Isafiardar Syslu; þad er god Bok, enn nockud laung, so sem hinar. Ecke veit eg hvert hier eru adrar þesshattar Bækur so merkelegar.

Nu

Nu fyrer þvi, ad þessar Bækur eru ad mestuleite urgengnar, þa hefe eg samanteked þeña litla Bækling, er eg kalla Underviisun um Christeñdomenn, og leitast vid i hønum, epter þeirre Nad, sem GUD hefur mier gefed, ad utskijra, med greinelegum og skilianlegum Ordum, þa Hlute, sem i hinum Minna Lutheri Catechismo kiender eru, og þangad eiga ad heimfæraft. Hversu mier hafe þad tekest, læt eg ødrum epter um ad dæma; hitt vitnar Samvitska min, ad eg hefi þad eige betur kunnad. Eg villde, ad sonnu, hafa laat ut hinn Stærra Lutheri Catechismum, þvi eingenn er betre, og eige øllu leingre Bok enn þesse, enn i hønum er sumt þad, sem sierilage vidkemur Þyskalande, og so þeim Tijmum, er sa GUDs Madur lifde a; þvi syndest mier radlegra, ad

ad fylgia honum, og ødrum vorrar Kyrkiu Fræde-Bokum, þad nærsta eg kunne, helldurenn ad leggia hann ut Ord fyrer Ord. Meige nu þesse Bæklingur heita þess verdur, ad hann kunni ad hialpa til, ad leggia einn Stein i Christs-Kyrkiu hier i Lande, þa vil eg hafa umboded øllum Forelldrum-Huss-bændum, og sierhverium, sem ann-adhvert eiga Bornum, edur fa-frodum Hiuum til ad segia, og svara GUDe fyrer Saler þeirra, og ecke annad betra hafa, ad þeir brijne hann fyrer þeim, sem GUD hefur þeim tiltruad: þvi eg vona, ad hver sem hann les med athygle, þa mune hann, ad samverkanda Nad Heil. Anda, so mikium Skilninge na i sinum Saluhialpar efnum, sem hon-um næger, ef hann þar fyrer utan astundar godar Kenningar, bæde heimuglegar, og openberlegar.

So

So bid eg ydur nu/ad endingu/Christin-
er menn/ fyrer Myskunar-Idur Guds
vors/ og JEsu blessudu Unders/ hafed
Myskunseme med Salum ydar/
Barna ydar/ og Hiua / so ad eige
kome hier/ nie þau/ i þann Kvalastad/
hvadan eingen er Endurlausn; Ja/
og gratbæne ydur med St. Pals Ord-
um/ er hann skrifar 2. Cor. 5. v. 20.
Og svo hlioda: Vier erum Sende-
bodar fra Christo, og so sem
ad GUd beidde ydur fyrer
oss, þa bidium vier i Christi
Nafne, forlijkist vid GUD,
þvi hann hefur giort hann
ad Synd fyrer oss, sem ecke
visse af Synd, so vier yrd-
um Guds Rettlæte i honum;
enn eingenn er annar Vegur til ad for-
lijkast vid GUd/ helldurenn ad þeckia
hann Sannann Gud ad vera/ og þann
er hann sende/ JEsum Christum; hvad
vier

þier kunnum eige ad odlast fyrer utan greinelegann Skilning vors Barna Lærdoms. Þar fyrer / ef þier elsked ydar Saluhialp / og ef ydur svijda þær Illgiørdernar / er hinn Saklausa Guds Son kvaled hafa / þegar hann bar vorar Synder uppa Galgann ; þa læred ad þeckia Gud og hanns Christ / og lifed þar epter i Elskunne til hanns / og innbyrdes Kiærleika hver vid annann / og giøred verduga Avøxtu Iдranenne. Enn GUD / Fader vor allra / sa ed alla Hlute kann ysirfliotanlegar ad giøra / enn min syndug Tunga kann fyrer ad mæla / hann styrke ydur i øllu godu Verke og sier þægelegu / sinu dyrdarfulla Nafne / til Lofs og Heidurs / enn øllum oss til Salar og Lijfs nota! þess oskar af alhuga

Ydar Þienare og Broder
i Christo /
J. WIDALIN.

Skaalhollte þann 20. Martii
1718.

(NB. Þeſſ mun Leſarenn giæta, ad þeir Latinſku Bokſtafer, em ſtanda innan i þeſſu Teikne ( ) hia Ritningarinnar Atrides-greinum (ſem optaſt eru þrycktar med nockud ſtærra Letre) eiga eige ad leſaſt i Huſſ-leſtre, helldur viſa þeir til Citatianna, ſem ſianda fyrer nedana Spatiunne, enn ei inne i Bokenne, ſo þær eige tefie Leſarann; og kann hver einn, ſem þad þoknaſt, epter þeirra tilviſun, ad finna þa ſomu Grein i Ritningunne, er hver fyrer ſig tilviſar.)





J. N. J.

# Sannur Christenndomur.

## Hvad er Christendomurinn?

HAnn er riett og sonn tru a einn GUd, sem skapad hefur Himinn og Jord, su ed kroptug sie til frammkvæmdar þeirra hluta, sem GUd hefur bodid, og til ad fordast þa hlute, er hann bannad hefur, og so til ad giora mannenn Saaluholpin fyrer JEsu Christi Forþienustu.

## Hvilikur er GUD?

Hann er i sinne veru eingum Lijkur, þvi hann er ollum ædre og meire, so sem hann sialfur segir; Hverium vilied þier samlikia mig, edur jafna vid mig, edur samannbera vid mig, ad vid skylldum liker vera.(a) GuD er einn Ande.(b) Eylijfur almattugur, alvitur, i ollum stodum Naalægur; Einginn Madur kann þad ad hugsa, edur mæla, hvilikur hann sie, og hann verdur best med þeim Ordum

A utmaa-

(a) Esa. 46. v. 5. (b) Joh. 4. v. 24.

utmaaladur, sem under eins medkienna vorn vanmaatt og faavitsku til ad utskira hanns veru; sem er: ad hann er ogripanligur, Omælanligur, Oendanligur, Osynligur, og øllum allra Eingla og manna skilninge til fulls ovransakanligur. (c)

Er þesse GUd nema einn?

Hann er alleinasta einn i Verunne.

Hvar fyrer leggur þu þetta ord til, i Verunne?

Þvi hann er þrennur i Personunum.

Hveriar eru þær Personur?

GUd Fader, GUd Sonur og GUd Heilagur Andi.

Hverninn maa eg þvi trua, ad GUd sie bæde þrennur og þo eigi nema Einn?

Pad getur eigi syndugs manns skilningur gripid, samt eigum vier þvi ad trua, ef vier vilium Guds børn kallast: Þvi hann hefur siaalfann sig a þenna haatt opennberad, sem sidar skal sagt verda i Utleggingu Truargreinanna sem hier aa eptersylgia.

Hvers vegna hefur GUd sig openberad?

Til þess ad meddeila mannenum þeckingu sinnar Giæsku, og sitt Riettlæte: Giædskuna til ad elska sig, enn Riettlætid til ad oottast sig; enn hverttveggia til at trua aa sig til Saluhiaalpar. Hvad

(c) 1 Cor. 2. v. 11.

Hvad er Madurenn?

Saa fyrste madur var ein Skyniande Skepna, sam sett af Saal og Likama, af Gude i ondverdu skopud epter hans mynd fullkomliga Heiløg og Riettlaat, og hinum bestu kostum og atgiørfi buen; hverium hann fieck i hendur Raad og Stioorn yfer øllum Skepnum under Himnenum, fiaalfum sier til Lofs og Dyrdar, enn mannenum til ædstu farsælldar nota.

Hvad er þad Skyniande?

Þad er fullur Raads og Skilnings, saa ed hefur vitsmune aa ad þeckia GUd, og so allar Skepnur sem GUd hafdi skapad, og þeirra edle og verkaner, og þvilikur var Madurenn i fyrstunne; Hann þeckti GUD sinn Skapara merkelega, og so alla Naatturuna fullkomliga, þvi gaf hann og øllum Dyrum Nafn; an efa, epter sierhvers edle; þviad GUd sem þau siaalfur skapad hafde, hann liet þad Nafn halldast er Madurenn gaf; hann þeckti og ad Konann var Bein af hans Beinum og Holld af hans Hollde: Gaf henne þvi Nafn þar eptir, ad hun skylldi **Karlinna** kallast. (d) Þvi er audvit ad, ad hann hefur grant þeckt annara hluta Naatturu.



(d) Gen. 2. v. 23.

Af hveriu er Mannsens Likame giordur?

Adam hinn fyrste Madur var af Molldu giordur: So seger Moises. Og Gud giordi Manninn af Molldu jardarennar, (e) enn Konan er skøpud af Mannsens Rifbeine. (f)

Af hveriu er Saalen skøpud?

Af eingu; þvi Ritningenn seger: Gud blies lifandi Anda i Mannsens Naser. (g) Hvad talad er ad sonnu eptir manligum plagsid, enn aa þo eigi so adskiliast, so sem þegar Madur blæs sinum Anda fra sier, helldur talar hier so um, þviad Saalen er einn Ande, og aa so adskiliast, ad Gud hafi hana tilreidt og Mannenum inngefid, eige af nockrum ødrum hlut, eins og likama Mannsens, helldur af eingu, eins og einglana, sem og eru Andar. Þvi er Saalen ecke samrar veru med likamanum, edur nockrum ødrum þeim hlut, sem er þreifanligur og syniligur, og hun þeckest eigi nema af sinum Utriettingum.

Hvad er þad þu sagder ad Madurenn være skapadur epter Guds Mynd?

Guds Mynd, epter hverre Madurenn skapadur er, er eigi innefalinn i utvortis alite, þvi Gud er einn Ande, og hefur eige Holld nie Bein, er eigi helldur syniligur nie þrei-

(e) Gen. 2. v. 7. (f) Gen. 2. v. 22. (g) Gen. 2. v. 7.

þreifanlegur nockrum manni, helldur er ſu Guds Mynd innifalinn i þeſſu epterfylgiande. 1. J Algiætre þeckingu Guds og allrar Skepnu, ſem Gud hafde ſo daſamlega ſkapad, ſo ſem aadur er ſagt. 2. Er hun innefalin i Rettlæti og Heilagleika Viliianns, þvi Maduren var ſo ſkapadur, ad hann kunne ad vera fri fyrer allre Synd, og þurfti eckert illt ad girnaſt; þvi **Gud ſkapadi Mannenn Rettan** (h) ſeger Salomon, og þar var eingen tilhneiging til hins illa, hvar fyrer þau þurftu ad ſkammaſt ſin; þvi ſeger Ritningenn (i) **Þau voru bæde naken, og ſkømmuduſt ſin eige**, þvi var og likamenn ad ſinu leite hluttakare þeſſarar Guds Myndar i Heilagleikanum; þvi hvad, ſem Gud heimter af endurfæddum Manne epter falled, þad ſama hefur hinum fyrſta Manne vered med ſkapad; Enn Paulus bydur (k) ad **vier ſkulum lia vora limu, ſo ſem vopn Rettlætteſins, Gudi**, og til þienara Rettlæteſins, til Helgunar: Sokum þeſſarar Guds Myndar var Madurenn odaudlegur ſkaptur, og i hans Skapnade og likamans Edle og haattum var eingenn orſøk til Daud-



(h) Eccleſ. 7. v. 29. (i) Gen. 2. v. 25. (k) Rom. 6. v. 13.

ans, edur nockurs Motgangs, so leinge sem hann hiellt þessari Guds Mynd; Enn þo var hann so skapadur, ad hann kunne ad deya, ef hann syndgade. Hvad audsied er af þvi fyrsta Bodorde, er Gud gaf hønum, og so hliodar. (l) **A hverium dege sem þu etur af averte Skilningstriesens gods og ills, skalltu Dauda deya.** Hier af fylgde þad valld sem Gud gaf Mannenum yfer ollum Skepnum under Himnenum, so seger GUD (m) **legged Jordena under ydur, og drottned yfer Fiskum Siafarens, og Fuglum Loptsens, og yfer øllum Villudyrum sem skrida a Jordunne, og eg hefe gefed yckur øll grøsenn og Eikurnar;** þar ad auke sette hann Mannen i hinn fagra Alldenngard Eden, hvern Gud hafde sialfur prydt med allra handa Kostulegum Blomstrum, og Avertum, ad hann skyllde yrkia hann; ecke med mædu nie erfide, þvi su plaaga var ecke enn þaa løgd a Mannenn; helldur sier til epterlætis, og yndælis, og gaf hønum eckert Bodord ad lifa epter, neina þad eina, ad hann skyllde ecke neyta af Averte Skilningstrie-

(l) Gen. 2. v. 17. (m) Gen. 1. v. 28. 29.

triesins gods og ills, til ad syna þar med sina hlydne- og undergefne vid GUD sinn Skapara.

Mier skilst ad Maduren hafe ei leinge hallded þessare Guds Mynd, enn hvad var til þess, ad hann misste hana?

Þad skede fyrer slægdarfulla Diosulsens Aeggian, hvor ed i einum Hoggorme talade vid vora fyrstu Moodur Evu, og ried henne ad eta af þeim forbodna Averte, enn hun tælde Mann sinn þar til, og er þau þann-ig hofdu broted GUDs Bodord, toputu þau þessare dyrdlegu GUDs Mynd, og til merkis þar um, þaa formerktu þau strax, er þau hofdu syndgad, ad þau voru nakenn, skyldu sier med sykinblodum, og foldu sig fyrer Gude; af þessu formyrkvadest Skilning-urenn, so ad holldlegur madur skoniar ecke hvad Guds Anda er, (n) og Viliann vard Gude fraahverfur og til alls ills hneigd-ur, so ad GUD seger (o) ad Mannsens Paankar sieu vonder i fraa upphafe; hann meinar, upphafe Syndafallsens, einn eige Skapnad-arens. Fyrer þessa Synd voru þau Adam og Eva utrekenn af Alldenngardenum, i hvern GUD hafde sett þau, og Jordenne var bol-vad fyrer Syndarennar Skulld; þyrna og

 Þistla

(n) 1. Cor. 2. v. 14. (o) Gen. 6. v. 5.

Þiſtla ſkyllde hun vera, og Madurenn ſkyllde med erfide ſig af henne næra, alla ſina Lijfdaga; enn konunne var ſier i läge uppáálagt, ad hun ſkyllde fæda ſin Börn med Harmkvælum, og under Woonda ſins vallde ſkyllde hun vera, og hann ſkyllde vera hennar Herra; i einu Orde ad ſegia: aller Sinkdomar, Hungur, Drepſott, Striid og Styriolld, Saaran, Jllvidre, og allt þad Andſtreymeer oſſ mæter hier i heime, þad er aavoxtur þeſſarar fyrſtu Syndar, og ad ſidurſtu Daudenn; ecke einaſta hinn timannlege, ſem er adſkilnadur Saalar og Likama, helldur og hinn eylife, og þeſſvegna höfum vier hann, aſamt med uppruna ſyndenne, i arf teked epter vora fyrſtu Foreldra, ſoſem Paulus vottar: (p) Lika ſem Syndenn er fyrer einn Mann innkomen i Heimenn, og fyrer Syndena Dauden, einnen med ſama hætte er Daudenn til allra Manna i gegnum geingenn, i hverium (Manne) aller Syndgudu.

Hvad er þad Eylifur Dauđe?

Þad eru oendanlegar Þiſler, ſem alldrei þriota, hveriar og epter Daudan eru ætladar øllum Vantruudum, og ogudlegum med Dioflenum, og øllum hans Arum, ſo ſem

Endur

(p) Rom. 5. v. 12.

Endurlausnarenn vottar. (q) hvar ad vera munOp ogTannagnistran;um hveriar visser Drottenn talar fyrer munn, Esaiæ(r) Og eir þeir (Utvalder) ganga ut, munu þeir sia hræ þeirra Manna, sem mig ha-fa yfergefed, þvi þeirra Ormur mun alldrey deya, og þeirra Elldur skal ecke sløckna, og þeir skulu verda And-stygd øllu hollde.

Hvilikur er Diøfullenn?

Hann vari fyrstunne einn dyrdlegur Eing-ell skapadur af GUde i sønnum Heilagleika, enn hann syndgade visvitande, þar hann var þo so veglegur giør, og vardveitte ecke sinn uppruna, helldur yfergaf sitt Heimile, asamt ødrum Einglum, er med hønum Syndgudu; þar fyrer hefur GUd ecke þyrmt þeim, helldur bun-ded þa med myrkranna hleckium, og steypt þeim til Helvitis, ad þeir þar vardveitter verde til Domsens. (s) Sidan er hann GUds svarenn ovinur, og so Mannanna, leggiande allt Kapp a ad draga sem flesta fra GUde, med þvi ad svikia Man-



(q) Matth. 25. v. 41. (r) Esa. 66. v. 24. (s) 2. Pet. 2. v. 4. Jud. v. 6.

Mannskepnuna til ad trua honum ecke, edur a hann, og briota hanns Bodord.

Attu aller Menn ad deya fyrer þessa eina Synd, hins fyrsta Manns?

Ad sonnu attu þeir; þvi aller syndgudu i honum (t) ecke ad sonnu fyrer þann Giern ing er hann giorde, þvi þar fyrer attu þau alleina ad deya, Adam og Eva, enn fyrer þvi þau gatu syndug Born, eins og þau voru, so sem þar stendur (u) **Og Adam gat Son epter sinne Mynd**, þa hlaut þad allt ad verda holld, sem af holldenu fædt er, þad er Syndugt, sem komed er af Syndugum, so vier ættum nu ad deya fyrer vorar eigenn Synder, sem frammkoma af uppruna Syndenne, er vier erft hofum, hvor og er Dauda verd i sialfre sier, nema GUD hefde af omælanlegri myskun sinne bætt vort raad aptur ad nyu.

Med hveriu mote hefur hann þad giort?

Þad giorde hann fyrst, strax efter Falled, þegar hann tok Mannkyned aptur i satt med þvi fyrsta Evangelio, edur nadar Bodskap, ad Kvinnunnar Sæde skyllde i sundurmeria Hoggormsens Hofud, (x) þad er, ad GUds Eingetenn Sonur skyllde samteingiast mannlegu hollde, og fædast af Kvinnunne

(t) Rom. 5. (u) Gen. 5. v. 3. (x) Gen. 3. v. 15.

unne, og nidurbriota i þvi sama hollde Hoggormsens, þad er Diofulsens, verk, enn frelsa Mannkyned af hans Vallde, og betala med sinne Pinu og Dauda, þad sem i holldenu syndgad verdur. Fyrer þetta GUds Fyrerheit eru aller þeir holpner vordner, sem trudu a Christum, þann er koma aatte, og uppa hanns tilkomande Dauda, a medann Synden var en þa **under Guds Þolenmœde**, so sem Paulus adkvedur; (y) enn vier fyrer hans Pinu og Dauda, er hann allgreidu lided hefur, sem sidan lifad høfum, med hverium hann hefur utvegad oss þau Medol er oss gagna til Saluhialparennar; um allt þetta mun eg hier epter greinelegar tala.

Hefur Madurenn alldeilis mist þessa Guds Mynd, er þu talader um?

Nei, ecke ad ollu leite, so miked er Mannenum epterlated, ad hann getur þeckt, ad GUd er til, þvi seger Paulus (z) **Hanns osyneleger hluter, allt fra Skøpun Veralldarennar, af verkunum athugader, verda i gegnumsiener, so sem er hanns eylifur Kraptur, og Guddomur.** Hann getur og viliad og

(y) Rom. 3. v. 26. (z) Rom. 1. v. 20.

og Stundad þaa hlute ad nockruleite, sem goder eru, og fordast hina vondu; hvad vier siaum jafn vel a heidnum mønnum sem marger hafa talad Skynsamlega um GUD og godar Dygder, og ydkad þær med mikille Kostgiæfne; Enn þo er þesse Þecking ecke nog til Saaluhialpar, helldur er hun nockurskonar Leidarviser til hinnar sønnu Guds þeckingar, hveria sialfur GUD hefur ossopennberad, og verkar þad, ad Madurenn kann ad lifa farsællega annars Heims.

Hvad er Saaluhialpenn? Edur hvad er þad annars Heims?

Eg hefe adur sagt þier ad Mannsens Nattura er af tveim hlutum samsett, sem er Likamenn, hvern vier siaum, og Saalenn hveria vier ecke siaum, enn finnum hennar verkaner, þvi vier Hurum, Raadslegum og sammanberum in vorum þaunkum þa hlute, er fyrer oss bera, edur vier heyrum fra sagt. Likamenn deyr þegar Saalenn skilst vid hann, þar til hann samteingest henne aptur i uppriisunne. Nu uppaa þad hun skule niota kunna eylifrar Sælu hia Gude, þa hun burtfer af Likamanum, og so um eylifar allder, (hvad ed kallast annars Heims, hvar i Saaluhiaalpenn og folgen er) þa hefur Gud opennberad Mannenum

sinn

sinn Vilia, an hvers Madurenn ej kann holpenn ad verda; likamenn skal og somu vist hafa epter uppriśuna.

Hvar edur med hveriu mote hefur Gud opennberad Sig?

Þad hefur hann fyrst giort med Skopun allra hluta, er vier siaum fyrer augum vorum, so sem eru; Sol og Tungl, og annar himinsins Her, sem hefur sinn oumbreittann gang, Ar ut, og Ar inn, fra fyrstu skopun Veralldar allt til þessa dags, Jordenn sem a vissum Timum ber sinn avøxt, og folnar aptur, Siorenn sem fellur fra Jordunne og aptur til hennar, tvisvar a deige og nottu, og vex og minkar med Smaastraum og Storstraum, tvisvar a hverium Maanude; ja sialfur Madurenn sem so daasamlega myndast i Modurlife, og so furdanlega þadan utleidest, vex sidan og þroast ad alldre og vitsku. Allra hellst Saalen sem so mikla hlute uppþeinkir, og kann ad ødlast, ef ecke fullkomna, samt miog agiæta þeckingu þessara hluta. Þegar ein Manneskia nu ihugar hvad kostulegt allt þetta er, og under eins, ad eingenn hlutur hefur siaalfann sig giort, edur skapad, þa sier hun og augliosl ega þecker, ad þar er ein odaudleg vera, an upphafs og enda, sem allt þetta hefur giort, og þvi stiornar,

(hveria

(hveria vier GUD kollum) hvar fyrer eingenn Þiod hefur ſu vered i Heimenum, ſem ecke hafe dyrkad Gud med einhveriu moti. Og ſokum þeſſ ad vier ſiaum bæde GudsSpeki, hannsMaatt, og hannsGiæſku i øllum þeſſum hlutum, þa hafa vitrer menn, jafnvel a medal heidenna þioda, alyktad, ad Gud være alvitur, Allmattugur, og alls gods uppſprettu brunnur, eins og eg ſie ad einn er vitur, þvi hann kann ad giora þad adrer ei kunna; ad einn er Sterkur, af þvi hann kann miklu ad lypta, einn er Godur, af þvi hann gefur þa hlute, ſem mig ſkoda, og mier agiætir þykia: Og þeſſer hluter hafa uppvaked, jafnvel i ſumra Heidingia hiortum, ſtora undranum Guds Speke, og elſku til hanns giæſku og godgirni; Kallaſt þvi þeſſe ihugan, **Guds naatturleg Þecking**, hveria aller menn hafa meiga, ſem her um hura nenna, og heil vita eru: Og þetta eru þær Leifar GUds Myndar i Mannenum, er eg fyrer ſkommu talade um.

Er þeſſe þecking GUds nog til ad na þeirre Sælu epter Lifed, ſem þu ſtrax umgatſt?

Eige er hun nog i Siaalfre ſier, helldur er hun leidarviſer til annarar langtum fullkomnare ſem adur er ſagt.

Seg mier þa, Hver er ſu Onnur?

Pad er ſu ſem GUd hefur opennberad oſſ Heilagre Ritningu.

Hvad er þad Heiløg Ritning?

Pad er GUds Ord, hvert ed ritad er af Moiſe, og af Spaamønnunum i Gamla Teſtamentenu; enn af Gudſpiallamønnunum og Poſtulunum i þvi Nya, kennande oſſ GUds ſanna þeckingu og hans retta Dyrkun, bæde i trunne og verkunum, oſſ til eylifrar Saluhiaalpar.

Hvad er þetta Gamla og Nya Teſtamented?

Pad er 1. tvenſlags Sattmaale. Gamla Teſtamented er Sattmaale ſa, er GUd giørde vid Fedurnar a þeim døgum, uppa Chriſtum okomenn; Enn Nya Teſtamented er ſa Sattmaale, er hann giort hefur vid oſſ uppa Chriſtum i holldenu auglyſtann. 2. Eru þad tvenner Timar, ſem Chriſtner Menn ſo kalla; Hinn fyrre er fra upphafe Veralldarennar, allt til þeſſ GUds Sonur opennberadeſt i holdenu; Hinn ſidare hoſſt a hanns Hierviſtardøgum, og ſtendur enn nu yfer, og varir til Enda Veralldar. 3. So nefnaſt og almennelega Partar Ritningarennar, þad eru þær Bækur ſem ſkrifadar eru a hvers Teſtamentis Tima fyrer ſig.

Hver var Moiſes?

Hann var einn Madur, ſem var Medalgan-

gangari mille GUds og Manna; hann bar Folksens Naudsyniar framm fyrer GUd, og opennberade þvi hanns Vilia; honum feck GUd i hendur Logmaaled, þad eru þau tiu GUds Laga Bodord, sem menn eiga ad læra, og epter þeim ad lifa.

Hvad hefur nu þesse Sanna GUds þecking framm yfer hina, sein þu aadan umtalader?

Margt er þad; Eg kann eige ad þeckia af Natturunne ad Gud sie einn i þrenningu, og þrennur i Einingu; og eige ad hann sie so Rettlaatur, ad hann kunne ecke ad fyrergefa Syndernar, nema fyrer fullnogann Betaling; Ecke ad hann sie so Myskunsamur ad hann hafe sendt sinn Eingetenn Son i Heimen til ad betala fyrer Syndernar; edur ad skynia neitt um Christ edur hans Forþienustu; Ecke þecke eg helldur af Natturunnar Kroptum Embætte Heilags Anda; edur kann ad skynia neitt um Mannsens Endurgetning, og Endurnyung; edur um krapt, og nyt sieme Sacramentanna, og ei feinge eg þetta ad vita, nema GUd hefde mier þad i Ritningunne opennberad, enn eg þarf þo hier i uppfræddur ad vera, ef eg skal Saaluholpenn verda, og med GUde eyliflega lifa.

Hvar fyrer hefur GUd þannen openberad sig Mannenum?

Til ad bæta oss aptur, þad vier hofdum

i Adams Falle a mis fared, ad so mikiu leite sem oss nægia kynne til Saluhialpar, ef vier hanns Naad, og Velgiorninga ecke forsomum, og til þess ad vier skylldum hann lofa og dyrka; fyrst hier timanlega i hanns Naadar Rike, og sidan a Himnum eyliflega i hanns Dyrdar Rike.

Hvar fæ eg þetta ad læra?

I Utskyring Truar Greinanna sem eru utdregnar af H. Ritningu.

Hvilik er su Guddomsens Dyrkun sem vier eigum ad veita honum hier i Life?

Pad er su Pionusta sem Madurenn a Gude ad audsyna, bæde i þvi, ad lofa hann og prisa, þacka honum, heidra hann og elska framm yfer alla hlute, fyrer allt pad gott hann giort hefur Mannkyninu; so og i þvi, ad trua ollu, sem hann hefur um sig edur sinn Vilia opinberad i Ritningunne, og ad setia allt sitt Traust til hanns, og ad giora þa goda Hlute, sem hann hefur boded, enn fordast pad hann bannad hefur.

Hvar hefur Gud boded þessa Goda Hlute og bannad hina Vondu?

Fyrst hefur hann pad skipad og bannad i allra Manna Hiortum: þar aller menn af Naatturunnar Liose kunna ad nockru leite ad greina gott fra illu, og illt fra godu, so sem St. Pall seger. (a) Ad Heid-



(a) Rom. 2. v. 14. 15.

ingiarner sem eige hafa Løgmaled, giøre þo af Naatturunne hvad Løgmalsens er, hvar med þeir syne Løgmalsens Verk ad vera skrifad i sinu Hiarta; Enn allra hellst og fullkomlegast hefur hann opennberad sinn Vilia i sinu Heilaga Logmale, sem hann utgaf a Fiallinu Sina i Eydemørkunne, epter þad hann hafde utleidt Israels Sonu af Egyptalande fyrer Hend sins Pienara Moisis.

Hvad hefur þetta Løgmal inne ad hallda?

Þad hefur inne ad hallda þau **Till Bodord**, sem þu lært hefur i Frædunum, og kallast **Ord** (b) til hverra allt þad gott heimfæra ma, sem Gud hefur skipad, og allt þad illt, sem hann bannad hefur.

Þvi hefur GUd boded þad Goda, enn bannad ad giøra þad Jlla?

Þvi hann er sialfur godur, og alls gods Høfundur og Uppspretta, enn þad vonda er hønum gagnstædelegt; þvi vill hann ad Madurenn (sem i øndverdu var epter Guds Mynd skapadur til ad þiona hønum i Rettlæti og Heilagleika) ad hann verde sier sem likastur i ollum sinum Hugrunum, Ordum og Giordum.

Fyrst

(b) Devt. 4. v. 13.

Fyrst GUds Sonur hefur bætt fyrer Syndena, þvi þarf þa ad lifa epter þessum Guds Tiu Bodordum?

Þviad Guds Sonur hefur broted Afl Syndarennar, og afmaad hennar Straff, enn eige Lögmaled, **Hann er komenn til ad uppfylla Lögmaled, enn eige ad uppleysa þad, edur onytt giøra.** (c) Gud sa ad Madurenn gat ecke hid minnsta af Løgmalenu fullkomlega uppfyllt, epter þad hann var fallenn; þvi sende hann Sonenn til ad uppfylla þad vor vegna, samt vill hann þo ad vier skulum Løgmalens hlyduger vera i øllu þvi vier getum.

Med hveriu mote afhendte GUd Moisi þetta Løgmal?

Hann feck honum þad skrifad a Tveimur Steintøblum.

Hvad mørg voru a Þeirre Fyrre?

Þar um hafa menn eckert vist, ridur og a eingu ad vita þad, alleina sokum þess ad vor Endurlausnare seger, ad allt Løgmaled og Spamennerner sie innefaled i þessum Bodordum; (d) **Elska skalltu Drottenn Gud þinn af øllu Hiarta þinu, og af allre Sndu þinne, og af øllu Hugskote þinu, og þinn Naunga sem sialf-**

 ann

(c) Matth. 5. v. 17. (d) Matth. 22. v. 37.

ann þig. Þaſegia menn ad þau Bodord-
enn ſem ahræra Guds Dyrd hafe vered a
þeirre Fyrre, enn hin ſem Naungans Elſku
ſnerta, a hinne Sidare.

Hvad mørg eru þa hver um ſig?

Þau ſem Guds Dyrd ſierdeilis ahræra,
eru alleina Þriu, enn hin Siø.

Villtu ſegia mier Utſkyring Bodordanna?

Eg vil ad ſønnu, enn þo ſkalltu athuga
fyrſt þeſſar epterfylgiande Reglur, ef þu villt
rett ſkilia, og þier i nyt færa Guds Tiu Laga
Bodord.

1. Bodordenn eiga eige ſo ad ſkiliaſt, ſo
ſem ecke ſie meira i þeim boded nie bannad,
enn þad ſyneſt ad vera i fyrſta alite; helldur
epter þvi, ſem beviſad verdur af Helagri Ritn-
ingu ad þau eige ad ſkiliaſt, og ſo ſem Gud
hefur þau ſialfur utlagt i ſinu H. Orde.

2. Þar ſem nockur Hlutur er ſkipadur i
einu Bodorde, þa ſkilſt þar under, ad þad
bannad ſie, ſem þeim hinum ſama gagnſtæde-
legt er, og þar ſem eitt er bannad, þa er
þad under eins ſkipad, ſem þar er þvert a
mote: til dæmes; J Fiorda Bodordenu er
ſkipad ad heidra Fødur og Modur; þvi er þar
under eins bannad, ad van heidra þau: og
i þvi Fimta er bannad ad vega Mann; þvi
er þar einnen boded, ad hialpa honum til
Lifſens, ef a liggur.

3. Pad ber skynsamlega ad adgreina i Bodordunum, sem ad ollum Mønnum vidkemur, so sem er: (1) Allt þad er af Nattúrunne er opennbert ollum. (2) þad sem af Christo, og hanns Postulum er i Nya Testamenteſins Bokum itrekad, og ollum boded, fra hinu, sem sier i lage vidkom Israels Folki. (3) Hotaner Løgmalsens eiga ad skiliast med þvi Fororde, ad þær endelega skule framkoma, nema Syndarenn idrest; þvi þott ad Løgmaled utheimte fullkomna Hlydne, (e) þa er þo þess Bølvan burttekenn af þeim sem idrast og trua a Christum. (f)

(5) Fyrerheit Løgmalsens a med þvi Skilorde ad utleggia, ad Madurenn, fyrer hvern Guds Sonur hefur Løgmaled uppfyllt, sie þo alltid skyldugur Krossenn ad lida; þvi Syndarenn hefur hann forþienad, og langtum meira enn Gud leggur honum uppa, jafnvel þeim er hann elskar, til ad temia Holldsens Girnder, so ad Truan a Christi Forþienustu, sem hia Guds børnum er i stadenn fyrer Løgmalsens Uppfylling, hun elfest þess meir, og ad hann verde Saaluholpenn fyrer Truna, sem vegna Holldsens Veikleika, getur eige orded fyrer Løgmaled. (g)



(e) Gal. 3. v. 13. (f) Rom. 8. v. 1. (g) Rom. 8. v. 3.

Ad þessu vil eg giœta, enn þo maa eg fyrst spyria Hvad merkia þesse ord, Hotaner Løgmalsins, Fyrerheit løgmalsins?

**Hotaner Løgmalsens** er þad Straff, sem Gud hefur hotad þeim sem Løgmaled eige hallda; so sem þetta. (h) **Bølvadur sie sa sem ecke helldur allt þad sem skrifad stendur i Løgmalsens Bok, ad hann giore þad. Fyrerheit Løgmalsens** er allt þad sem Gud hefur fyrerheitid þeim sem Løgmaled fullkomlega hallda, so sem þetta: hver sem þetta gierer, hann skal lifa þar i, og annad þvilikt.

Hvad merker þetta ord ad lifa? Margur lifer leinge, mun þad koma af þvi ad hann helldur Løgmaled?

Langt er fra þvi; helldur kemur þad af Myskun Guds, og Þolenmœde, sem vill draga Syndarann til Idranar og sinnar Þeckingar, ad hann holpenn verdi: og þott hann viti, ad sumer verde ei þessarar sinnar nadar niotande, sekum þeirra Ofvermodsku, og Hirduleyses, þa samt frammbydur hann þeim Naadena, so ad þeir hafe einga Afsokun, enn ad hans verde Dyrdenn: Enn þetta ord, ad **Lifa**, merkir allra handa Farsœlld, bæde timanlega og eylifa, sem sidar mun sagt verda. Seg

(h) Devt. 27. v. 26.

Seg mier nu þesse Tiu Guds Bodord og þeirra Utskyring?

Þad vil eg giøra, enn giæt ad þvi sem eg strax sagde. Les hid Fyrsta Bodord.

Eg er Drottenn GUD þinn, þu skallt eigi hafa annarlega Gude fyrer mier.

Þu hefur sagt mier ad nockrulei te hvilikiur GUD sie, enn hvad er þetta, ad hafa annarlega Gude?

Eg hefe ad sennu; Þo attu ad merkia þad i þessu Bodordi, ad GUD setur þad allra fyrst af Bodordunum, til þess ad syna øllum Mønnum ad hann hafe Valld til ad bioda, bæde þad sem i þessu Bodorde er skipad og bannad, so vel sem i øllum hinum, sem a epterfylgia; þvi ef hann er Gud, sem øllu stiornar bæde a Himne og Jordu, og bædeMannenn og alla adra Hlute giørt hefur, þa er audvitad, ad hann hefur miklu meira Valld til ad skipa hverium einum þad hañ vill, helldur enn nockur veralldlegur Hofdingie edur Konungur hafa kann, og þad valld er þeir hafa, þad hafa þeir alleina af honum.

Þetta skilst mier, enn seg mier nu hitt, hvad er ad hafa annarlega Gude?

Fyrst byriar ad athuga hvad þetta ord merke, ad hafa. Menn kalla ad hafa

einn Hlut, er menn hallda a, bruka edur geima; so a þetta Ord ecke adskiliast i þessum stad, þvi Gud er obreifanlegur, og osynilegur, verdur þvi ecke geimdur edur innelokadur i nockurre Hirdslu edur Herberge, edur med Hend hafdur, eins og likamleger hluter; helldur merker þetta Ord, **ad hafa**, i þessu Bodorde, eckert annad enn ad hafa eitthvad i Hiartanu, hveriu Mannsens Hugur treyster aavallt, truer a þad, vonar a þad, og vænter sier þar af Hiaalpar og Adstodar, hvad sem aliggur, og alls annars gods, bæde i Medlæte og Motgange, i Life og Dauda. **Enn annarleger Guder** voru fordum dags. 1. Allur Himensens Her, Sol, Tungl, og adrar Stiornur; item ferfætt Villudyr, er menn hofdu gagn af, epter hverium Heidner menn smidudu Skurgod sin og Likneskiur; So og voru þad Bilæte Daudra manna, Konunga og Landshofdingia, þeir ed megtuger voru, og brutu adra under sig; so sem voru hia oss **Þor** og **Odinn**; hveria þeirra Epterkomendur, fyrer Tilteiging Andskotans, giordu ad Gudum, til ad hræda þar med einfallt Mannkyn, sem ei visse af hinum sanna Gude, og stod af þessu ecke alllitell Otte, þvi þeir meintu, ad þeir væru

Godanna

Godanna Syner, er feingu monnum slikt til Atrunadar; So og voru þeir dyrkader, so sem Guder, epter Daudann, sem upp hofdu fundedMenter ogKunsterMoñum til gagns og Nota, edur Skemtunar; so sem: Skaalldskap, Hliodfære, Læknisdoma, Saadverk, Hagleik, og annad þvilikt; Item Kvikinde Jardarennar, jafnvel hin audvirdeleguſtu, hver ed Heidner menn dyrkudu. Um allt þetta talar Paulus, (i) segiande; þeir hafa snued Dyrd oforgeingelegs Guds i Bilætis Liking forgeingelegs Manns, og Fugla og Fiska, og ferfætlinga; og skommu sidar seger hann; Ad þeir hafe umbreitt Guds Sannleika i Lyge, og gofgad og dyrkad Skepnuna fram hia Skaparanum.
2. Er þad allt þad, er Menn tilleggia þann Heidur og Virdingu er Gude alleina somer; so sem þegar þeir ottast Mennena eins, edur framar, enn Gud, og hlyda þeim i þvi sem GUD hefur bannad, edur treysta nockrum hlut jafnframt honum, hvert helldur þad eru Eigner, Valld, Metord, Afl edur Vitska, edur hvad annad, sem menn hafa Traust a. 3. Er þad allt þad sem Menn þacka fyrer medtekna Velgiorninga, jafnt



(i) Rom. 1. v. 23. v. 25.

Gude, edur framar honum: so sem; ef nockur giorer oss gott, þa skundum vier ad þocknast honum aptur (sem ad sennu a ad vera) enn Gude gialld meinn litlar Þacker þar fyrer, edur kostgiæfa ad lifa epter hans Bodordum (hvar med honum verdur best þackad) og nockrer þacka sialfum sier, og sinum Atburdum og Skynseme, Laan sitt og Lucku, þad er allt, ad hafa annarlega Gude: Þvi hvad hellst sem vier gott hliotum, hvert þad kemur fra ödrum mönnum, edur vier sialfer kostum votu Erfide edur Ahyggiu þar til, þa kemur þad allt i fyrstunne fra Gude; og a honum þar fyrer ad gialldahinar mestu Þacker, annars ovirdum vier hann og höfum annarlega Gude.

4. Eru annarleger Guder, allt þad er Madur elskar, so miked edur framar helldur enn GUD, hvert þad eru Mennerner lifande edur dauder; edur eru þad adrar hanns Skepnur, Gots og Peningar, og sier hvad annad, sem GUD hefur oss gefed til nota, jafnvel vort eiged Lif; Þvi menn eru skyllduger ad laata þad, helldur enn ad giora visvitande þad sem Gud hefur bannad, annars syndga menn a mote þessu Bodorde; þvi seger Christur (k)

Ef

(k) Luc. 14. v. 26.

Ef nockur kemur til min og hatar (*) ecke Fodur sinn og Modur, og Konu sina og Brædur sina, og Systur, og jafnvel sitt eige dLif, hann kann ecke minn Lære sveinn ad vera. Enn hin vesta Afgudadyrkun er ad elska Holldsens Girnder, Synder og Leste, og liggia i þeim a mote Samvitskunne.

(*) ad hata merker hier (epter Ords-hætte Ritning-arenn-ar) ad elska minna conf. Matth. 10. v. 37.

I þessu Bodorde er bannad ad hafa annarlega Gude, enn hvad er nu boded i þvi?

I þvi er boded 1. ad Þeckia Gud, ad so miklu leite, sem hann hefur opennberad sig i sinu Orde, og til Saaluhiaalpar ma nægia; hveria Þecking menn fa i hans heilaga Orde, og sa sem þad forsomar hann brytur þetta Bodord. 2. Ad Trua a hann og setia allt sitt Trunadar traust til hans Maattar og Giæsku, ad hann bæde vilie og gete veitt oss allt hid goda, enn serdeilis Fyrergefning Syndanna og eylist Lif. 3. Eiga menn ad Elska hann langt framm yfer alla adra hlute. 4. Eig-

um

um vier ad Vona a hann, og vænta Hialp-
ar og adstodar af honum, og alls gods,
hverſu ovænlega ſem ahorfeſt. 5. Eigum
vier ad Ottaſt hann, þad er, ad hrædaſt
fyrer ad ſtyggia hann visvitande, med þvi
ad giora nockurt af þvi, ſem hann bannad
hefur, og ad læra ad þeckia hanns Vilia,
ſo vier eige ſieum ſialfer orſök i þvi, ad vier
giorum ovitande, þad ſem hann hefur fyr-
er boded. 6. Eigum vier ad Audmykia oſſ
fyrer honum, og reikna oſſ minna enn einkis
verda i hanns Auglite, ſem er ſo Heilagur
Volldugur og Rettlatur, og þo ſo Myſkun-
ſamur og Naadugur. 7. Eigum vier
þolenmodlega ad lijda allt hvad hann a
oſſ leggur, vitande ad vier hofum þad med
vorum Syndum forþienad, og jafnvel þott
vier megum fyrer Sakleyſe lijda illt af vond-
um Monnum, ſamt eigum vier þad med
Polenmæde ad umbera; þvi Gud a frialſt
ad typta oſſ þar med, fyrer adrar vorar
Synder, edur ad temia vort gialifa Holld,
og leida oſſ til Idranar þar med.

Hvad er Vonen? mier ſyneſt þad vera hid ſama
og Truen?

Lijkar eru þær ad ſonnu; enn þo eige
aldeilis hid ſama. 1. Truen er fyrre, og
getur af ſier Vonena. 2. Truen med-
tekur

tekur alleina Christum, fyrer hvern vier hliotum allt hid goda, og ber hanns Forþienustu framm fyrer Guds Hasæte; hun forlikar oss vid Gud, og afrekar oss hanns Naad; Enn Vonen bijdur epter þvi goda, sem afrekad er, og Gud hefur lofad truudum, og bidur um þad med fullu Trauste. 3. Truen er sier i lage um þa hlute, sem nærverande eru; so sem um Guds Naad og Fyrergefning syndanna. Vonen bijdur epter þvi sem okomed er; so sem er eylift Lif.

Er eckert bannad i þessu Bodorde, nema þad sem þu fyrer skommu upptalder?

Allt er þad innefaled, ad sonnu, i þvi, sem adur er sagt, enn þo eru þessar Synder sierdeilis a mote þessu Bodorde. 1. Gudleysa þeirra er segia; Par er eingenn Gud. (1) 2. Þeirra er segia, ad hann eckert hirde um Verolldena, edur Haattalag daudlegra Manna. 3. Skurdgoda dyrkun, er var hia Heidingium, þeir ed tilbadu Afgude sina, sem adur er sagt. 4. Er þad Galldur og Folkynge þeirra, er særa og tilbidia Andskotann, bruka þar til Ristingar og okienda Stafe, og hafa Trunad þar a. 5. Rangar Meiningar um GUD, og Villu lærdomar, nær menn trua edur kienna annad um

(1) Ps. 14. v. 1.

um Gud og hanns Veru, Ord og Sacramenta, enn hann hefur opennberad, og þad sem ej sambydur hinum retta Ordsens Skilninge, edur og um hanns Stiornan i sinu Nadar Rike. 6. Þad er og a mote þessu Bodorde, nær menn hafa Oftraust a Gude, i þeim hlutum, er hann ei hefur lofad sinne Naad og Adstod; so sem ad voga sier i Lifs Haaska, ad þarflausu; þad er ad freista Drottens: Edur og ad liggia i einhverre vitanlegre Synd a mote Samvitskunne, hverju lijtel sem hun syneſt i vorum Augum, enn ætla þo ad GUd mune vera sier Naadugur; þad er ad ovirda GUd, og ætla, ad hann ecke sie eins vel Rettlatur og Myskunsamur. 7. Er þad Hræsne þeirra, er lataſt þiona Gude, hafa hanns Ord i Munne, lata sia sig i Kyrkiunne, og segiaſt trua a hann, enn þeinkia þo allt annad, lifa eingannvegenn epter hanns Orde, og þo þeir lateſt lifa, til ad firra sig Vijtum fyrer Monnum, þo er þad ecke af Hiarta, ecke af Elskunne til Guds, nie Kiærleikanum til Naungangs.

Er þar nockur ed sege, ad GUd sie ei til?

Liklegt være, ad sa være eingenn; þo seger David: (m) Hinn Ogudlege seger i Hiarta sinu, Þar er eingenn Gud. Þar fyrer,

(m) Ps. 14. v. 1. & Ps. 53. v. 1.

fyrer mun þvi ei neita meiga, ad slijker GUdlauser Skaglkar sieu til; velldur þad þvi, ad þeir gefa sier eingar Stunder, fyrer Holldsens Gialijfe, til ad þeinkia um GUds undarleg Verk, og alviijsa Radstøfun, bædi i Natturu Hlutanna, er menn daglega sia fyrer augum sier, so og i Mannanna Efnum, sem vier optlega meigum berlega þreifa a; enn þad þyker þeim yndællt, ad eingenn skule GUd vera; edur og, ad hann ei hirde um forgeingelega Hlute, og þar sie eingenn Hegnare vondra Verka, so ad þeir lifa meige epter Villd sinne.

Hier stendur: Þu skallt eige hafa annarlega GUde, eins og talad sie vid einn?

Þad er til þess giort, ad eige einasta aller almennelega, helldur og sierhver einn vite, ad hann sie skylldugur sierhvert eitt af þessum Bodordum ad hallda; Eigi einasta Gydinga Folk, helldur sierhver Adams Nidie; þvi seger Postulenn: (n) ad Gud hafe innelukt allt under Ohlydnenne, þad er, under Þeckingu Ohlydnennar, sem kemur af Logmalenu.

Hvar fyrer fylger þesse grein sierhveriu Bodorde; vier eigum ad ottast og elska GUd?

Hun minner oss a Skyllduvora vid hvert Bod-

(n) Rom. 11. v. 32.

Bodord. Vorrar Kyrkiu Lærefader, Lutherus seger fyrst, Vier, þar sem Gud seger, þu, til ad syna, ad þetta sie ei boded ein hverium einum, helldur ellum. Þar næst seger hann: **Vier eigum**; þad er til ad syna oss, ad vier sieum Skylduger hier til vier eigum, þo ecke getum vier. Gllds Vilie og hans Løgmal er oumbreitanlegt; Hanns Rettlæte litur ecke epter þvi sem vier getum, helldur epter þvi sem vier erum skyllduger ad giora, og epter þvi, sem Madurenn gat hallded, þegar hann var af Gllde fyrst skapadur i Rettlæte og Heilagleika. **Ad ottast**; þetta Ord gagnar til þess, ad nær oss sierhvert Bodord i Hug kemur, edur eitt hvert þad sem i þvi er bannad, þa skulum vier hrædast og skelfast vid ad styggia soddann ognarlega Hatign, med þvi, ad drygia þad, sem hann bannad hefur, þvert a mot Samvitskunne. Og i ødrulage, nær vier reynum og prófum sialfa oss, og finnum ad vier hefum margfalldlega broted a mote sama Bodorde, ja og mote ellum, ad vier þa skelfunst fyrer hanns Reide, hveria vier forþienad hofum, og aangrunst i Hiartanu, lærum ad audmykia oss, og bidia um Fyrergefning Syndanna, med harmþrunginum og sundurknosudum Anda: Þetta a ecke

ad verá neinn Prælsótte, so sem þegar einu Prææll strykur fra sinum Herra, þvi hann oftast straffed; helldur Sonarlegur, sa ed verke hia oss þad sem adur er sagt, og ad hrædast ad syndga framar, ad ei missum vier GUds Nad, og verdum aldeiles utskufader. Ad elska Gud: Eckert er kostulegra til ad hallda GUds Bodord, enn Elskan til hanns; þvi hvern sem madur elskar, þann varast hann ad styggia, og vier þolum alla hlute fyrer þa er vier af Hiarta unnum; og þott ad allt þad, er vier megnum ad giora epter GUds Bodordum sie ofullkomed, þa verdur allt gilldara, nær þad frammkemur af Elskunne til hanns, og fullkomnast fyrer Truna, sem ad Elskunne jafnan fylger. Hier ad auke minner þetta Ord oss a hanns Guddomlega Elsku, hanns Giæsku, hanns Þolenmæde yfer oss syndugum Ormum, so vier af þeirre sijfelldre Jhugan drøgunst, jafnvel nauduger, til ad elska hann, og fordast ad giora þad honum misliikar: Og þessarra Orsaka vegna, sem nu hefe eg sagt, þa fylger þesse Grein hveriu Bodorde i Christelegum Frædum; Og þetta er hid ædsta og mesta Bodord i Løgmalenu; og so sem þad er fyrst i Tølunne, so hanga og øll hin af þvi; þviad allt

C        hvad

hvad i þeim er boded edur bannad, þad eig-
um vier fyrer GUds saker ad giora, og la-
ta ogiort, so ad ef nockur heidrar Fodur og
Modur, lifer hreinferduglega i Ordum og
Verkum, og annad þvilikt, enn elskar þo
ecke GUd nie ottast; hann, saa same kann
ecke Gude ad þocknast, og hefur broted þetta
Bodord, þott hann øll hin hallded giæte,
og so øll hin, fyrst hann eige þetta helldur;
ecke einasta þessvegna, ad sa sem helldur allt
Løgmaled, enn brytur eitt Bodorded, hann
verdur sekur i ollum, so sem Jacob vottar,
(p) helldur og hins, ad Otte og Elska Drott-
ens a ad ganga i gegnum øll Bodordenn,
þad er, ad hvad vier giorum edur ogiort
latum, þa sie Ottenn og Elskan Orsøk þar til.

Seg mier Utskyring hins Annars Bodordsins.

Þu skallt eige leggia Nafn Drott-
ens GUds Þins vid hiegoma. So
sem GUd hefur i fyrsta Bodordenu Skipad,
ad ottast sig og elska (hvad alleina verdur
giort med Hiartanu) So hefur hann og i þvi
Odru boded, hvernenn Madurenn skule
heidra sig med Munnenum og Tungunne.

Hvad merker þetta Ord, GUds Nafn?

Þad er allt þad sem um Gud verdur kiendt
af hanns Heilaga Orde. 1. Merker þad
hanns

(p) Cap. 2. v. 10.

hanns Guddomlega Veru, sem er Ein; og hanns Personur, sem eru þriar. 2. Hanns Eiginnlegleika, so sem eru: hans Giæska, hanns Rettlæte, hanns Almætte, hanns Alvitska, og annad þvilikt. 3. Eru þad hanns Verk; so sem Skopunarennar, Stiornarennar; ad hann rædur og styrer ollum Hlutum, bæde a Himne og Jordu: Vardveitsla og Vidur halld allra hluta; ad hañ ollum hlutum vid magt helldur, bæde a Himne og Jordu, ad þeir ecke eydeleggiast edur forganga. 4. Endurlausnar og Helgunarverked: hvar um sijdar talad vredur i Utleggingu Truar greinanna: Eckert af þessu a ad leggia vid nockurn Hiegoma.

Hvad er þad, ad leggia vid Hiegoma?

Þad er, ad hafa þad i Munne, nær Madur talar um hiegomlega Hlute, a hverium lijted edur eckert rijdur, þvi þa bruka menn GUds Nafn, so sem einkis verdann hlut, og mote þvi syndga aller þeir, ed i daglegu tale nefna GUD til annars, enn ad tilbidia hann, lofa og dyrka, og ad sveria þa Eida, sem naudsynleger eru, jafnvel þott sanner være.

Er þetta ſo mikil Synd?

Ad viſu er þad ein hropleg Synd; þviad GUds Nafn er hinn veglegaſte Hlutur, er huxaſt kann, þvi eigum vier ecke ad taka oſſ þad i Munn, nema med ſtærſtu Virdingu; ſo ad jafnvel þeir ſem lataſt tilbidia GUd, edur ſyngia hønum Lof, enn giøra þad ecke af Hiarta, þeir vanbruka GUds Nafn; og þeſſu Bodorde fylger ein ſtraung Hotan i Løgmalenu, ſem ecke er innfærd i Frædenn.

Hvernenn er þeſſe Hotan?

Hun er þannen. Þvi Gud mun ei hallda þann ſaklauſann, ſem hans Nafn brukar hjegomlega. (q)

Er þeſſe Hotan ſo ſtraung?

Ad viſu er hun; þvi hvern þann ſem Gud ecke helldur Saklauſann, þann helldur hann Sekann; enn ſa ed hann Sekann helldur, hann er ſekur Helvitis Elldsins.

Er þa eckert annad fyrerboded i þeſſu Bodorde?

Margt er þar i annad fyrer boded; enn Gud hefur teked til hins minnſta, ſem er, ad leggia ſitt Nafn vid Hiegoma, og lagt þar Straff vid, til ad ſyna hverſu vidurſtyggelegar ad ſieu adrar Gudlaſtaner, i hanns Auglite, og þo ad øll Bodordabrot vinne til Fordæmingar, þa fylger eingum

hinum

(q) Exod. 20. v. 7.

hinum Boðorðunum nein utþryckeleg Hotan, nema þessu; bæde þessvegna, að syna hverju storar að sieu i hanns Auglite þær synder, sem mote þvi drygdar eru; hins og annars, að menn virda það so lijtels að vanbruka Guds Nafn, þessvegna að það er so almennt, og valla nockur Synd tijdare medal mannanna.

Hvad er þa fleira bannad i þessu Boðorde?

J þessu Boðorde er bønnud utþryckelega øll Vanbrukun Guds Nafns; enn þar underfelst: 1. Galldur og fiolkynge; það er, nær Madur brukar Guds Ord, Heilaga Psalma, edur Ord Ritningarennar til að dyrka Satan med, og blanda þvi vid heimskulegar Runer og Ristingar. 2. Er það allrahanda Gudlæstun, sem skedur med Tungunne, annad hvert, að menn lasta Gud, edur tala illa, og med Ohplenunmæde, um hanns Stiornan, edur Tilhlutan; Enn ecke sijdst nær menn kenna edur tala ranglega um hanns veru, edur Personur Guddomsens; so og um hanns Eiginnlegleika: Giædskuna, Rettlæted, Almætted og ann-að þvilijkt. 3. Eru hier bannader onaudsynleger Eidar, jafnvel þott Madur satt sege, og eiga menn ecke einasta, að varast að sveria vid Guds Veru, og Guddomsins

Persónur, helldur og vid hanns Eiginnleg-
leika; so Madur maa alldeilis ecke sveria;
so sannarlega sem Gud er Godur,
Rettlatur, Almattugur; jafnvel þott
hann satt sege; Eige helldur vid hanns
Verk; til Dæmes: so sem Gud hefur
skapad mig. So sem eg er Christenn
Madur; þvi þad snerter Skøpunar,
Endurlausnar, og Helgunar Verked, og
vid eingann hlut sem Gud hefur skapad, þvi
hvad sem Madur sver vid, og vill stadfesta
Sannleikan þar med, þad giører hann ad
Gude: Þvi Gud hefur boded (r) ad sveria vid
sitt Nafn, þar sem sveria byriar: þvi
stendur þad fast, sem Christur sagde vid
Lærésveinana; (s) Þier skulud oll-
dungis ecke sveria, enn ydar Ræda
sie Ja og Nej. 4. Eru þad Formælingar,
og illar Fyrerbæner fyrer sialfum sier, edur
ødrum, hvert helldur Menn bidia þess illa
af Gude sialfum; edur og ad hann leise
Andskotanum edur illum Mønnum ad straffa
nockurn, og med hveriu mote, sem Madur
bidur sialfum sier edur ødrum Olucku nock-
urrar; Enn hier eru frateknar þær Formæl-
ingar, er alleina frammkoma af Vandlætenu
vegna

(r) Devt. 6. v. 13. (s) Matt. 5. 34. 37.

vegna Guds, og hanns Nafns; so sem nær menn bidia ad Gud straffe Ovine sinnar Christelegrar Kyrkiu: so sem lesa maa sumstadar ad Guds Menn hafe giort, bæde i Gamla og Nya Testamentenu. Þo skal Madur vakta sig vel, ad i slijkum Formælingum eckert frammkome af Heiptrækne, edur Hefndargirne, fyrer sialfann sig; miklu helldur bidia, ad Gud vilie umsnua þeim til Sannleikans Vidurkenningar. 5. Bænræktarleysed, nær menn forsoma ad akalla Gud, til bidia hann, lofa og vegsama og þacka honum; þvi allt þetta skilst under Bænenne. 6. Vanþacklæte vid GUD, nær menn berlega vanþacka honum hanns Gafur, tillegia þær sialfum sier, edur ødrum, med Sialfhælne edur fanytu Hrose a ødrum. 7. Ad jaata ecke og medkenna Gud og sanna Tru, nær sem þerf giørest; edur og ad jata annad med Munnenum, enn Madur þeinker, fyrer Otta edur Avinnings saker. 8. J sidarsta Mata, er þad, ad liuga edur svijkia vid Guds Nafn, hvert ad er stor Synd i sialfu sier, enn verdur miklu stærre, þegar Guds Nafn er brukad þartil. Hier eiga og heima Ranger Eidar.

Hveriar Dygder eru bodnar i þessu Bodorde?
Þad er audsied af þvi sem bañad er; eñ þo eru

þessar hinar hellstu. 1. Ad Akalla Gud; ecke einasta þegar oss sier i lage eitthvad aliggur, helldur ydduglega. 2. Ad Vidurkenna Guds Nafn, og Tru sina fyrer hverium Manne, nær Þörf gioreft, og sasnvel þott menn ætti ad leggia Liifed þar ofan a, so sem Guds Pislarvottar giordu. 3. Ad giora Gude Packer ydduglega fyrer sina Velgiorninga, andlega og likamlega. 4. Hin Fiorda Dygd sem bodenn er, i þessu Bodorde, er ecke einasta, ad hallda þad fyrer hiñ stærsta Glæp ad sveria ranglega, helldur og ad hallda fastlega sinn Eid, sem menn hafa Gude svared.

Þu sagder fyrer skommu, ad menn ætte alldeilis ecke ad sveria, eru þa einger Eidar leifeleger?

Ad visu eru þar nockrer: Fyrst eru þad aller þeir Eidar sem einn Domare leggur einum rettvisslega uppa, til ad stadfesta Sannleikann og reka Lygena til baka. J Annann Mata eru þad þeir Eidar, sem Yfervallded leggur sinum Undersaatum uppa, so sem þegar menn sveria Konungenum Hollustu, edur nær Prestar og Yfervallds menn sveria sina Embættes Eida: aller þesser Eidar eru leifeleger; þvi med þeim verdur GUD dyrdkadur.

Med

Med hverju mote verdur Gud med þeim Dyrdkad-
ur?

Fyrst med þvi, ad þar menn taka hann til Vitnes ad Søgn sinne, þa jata menn hann Alvitrann, ad hann vite þad sem eingenn kann ad vita; og so Rettlatann, ad hann mune þa ecke ohegnda lata, er sveria ranglega vid hanns Nafn; og her ad auke duga soddan Eidar til ad frammfylgia Rettenum og Sannleikanum, enn reka Lygena til baka; til ad fella hinn Sakada, enn frelsa hinn Saklausa; til ad giora Ender a Prætum, og til ad koma Saattum a mille Manna, ef rettelega er hier med høndlad, hvad allt þienar til Guds Dyrdar; þvi bannar og Drotteñ ad sveria vid Nafn añarlegra Guda (t) Enn hiner sidare Eidarner eru til þess, ad hallda Mønnum til ad efna sitt Heit, so, nær þeir verda freistader af einhverre Synd, sem er a mote þvi, þa minner Eidurenn þa ad hrædast ad styggia GUD, vid hvern þeir svared hafa.

Legg mier ut hid þridia Bodorded?

Minstu ad helga Hvilldardagenn Drottens GUDs Þins. Hier er fyrst ad athuga þetta Ord, Minstu, hvert ecke er forgefens sett hier, þvi 1. heyrer Minned



(t) Exod. 23. v. 13.

til Salunne, og hinum innra Mannenum; verdur þvi synt hier med, ad GUD heimter ecke einasta af oss Utvortes Pionustuna, helldur langtum meir þa sem Innre er i Hiartanu. 2. Ad þad sie Orsok til allra Synda og Lasta, ad gleima GUDs Dyrkan, og afrækia hanns Ord. 3. Til ad kienna, ad vier eigum ecke fyrer hvern mun ad lata þetta undanfalla, þvi þad er so sem nockurskonar sierdeilis Skattur, sa ed GUD hefur skiled sier af Mannsens Salu og Likama, og fylger þetta Ord einasta þessu Bodorde. 1. Vegna þess, ad þetta Efne er so haaleitt, og omissande fyrer Mannenn, ad hann aan þess (þad er aan GUDs Orda Heyrnar) kann ecke holpenn ad verda; og þessvegna er þetta Bodord optar enn hvert annad itrekad i Ritningunne. 2. Af þvi, ad GUD hefur fyrersied, ad hin ytre Pionustugiord munde hia allmorgum verda blondud med Hræsne og Utvortis Skine, þvi brukast hier þetta Ord, til ad syna ad Helgun Hvilldardagsens ei sie folgenn i Ydiuleyse, Klæda skiptum, edur Utvortis Ceremonium; helldur i þvi, ad minnast á Guds Dasemder, Velgiorninga og Kiærleika til Mañsens, sem og adra Hlute, er þiena til Saaluhialparennar. 3. Sokum Illsku og Tomlætis vors Hiarta, sem

þyng-

þyngest af Sorgum þessarar Næringar, enn lætur sier so lijtt umhugad vera, ad þeinkia a sina Helgan, er, ad sonnu ætte daglega ad ske, med Jdran og Yferbot, enn þo hvad mest a þessum dege, hvar fyrer oss boded er ad hvilast af ødru Erfide, so vier faum þetta þess betur giort.

Hvad merker hier ad Helga?

Pad er, ad hallda Heilagann. Þesse Dagur er ecke i sialfum sier heilagare enn annar Dagur, enn hann verdur oss heilagur, nær vier helgum oss sialfa a hønum, og brukum hann til ad þiona Gude, og verka vora Saluhialp, hvad ed skiedur: 1. Med þvi ad hvilast af veniulegu Erfide. 2. Ecke ad bruka þenna Dag til eintomes Ydiuleyses, helldur til ad heyra Guds Ord og læra þad, ecke einasta i Kyrkiunne, helldur bæde fyrer og epter Þionustugiordena; Fyrer hana med bænum til Guds, ad hann vilie gefa oss Eptertekt sinna heilogu Orda, sannarlegt Angur og Trega fyrer Synder vorar, (hvar til naudsynlegt er ad rannsaka sitt Liferne a fyrer farande Viku) ad hann vilie stadfesta i oss Truna, Kiærleikann, og Þolennmædena, og med þvilíku Hugarfare aa Madur ad ganga til Kyrkiu; Epter Þionustuna, ad prisa Gud med Psalmum og Lofsaungum,

edur

edur i annan maata med Lestre Guds Orda. Enn fierdeilis ætte þesse Time ad brukast til ad uppfræda hina ungu og faafrodu i sinum Cristelegum Lærdome; og hiner, sem faafroder eru, jafnvel þott gamler sieu, eiga ad bruka hann til ad læra af þeim sem betur vita: þesse a ad vera vor Ydia a Helgum Døgum: Þvi fylger þesse Grein hinu Þridia Bodordenu: þad er Hvilldardagur fyrer GUD þinn; hvar af sia maa ad hann a ad bruka til þeirrar Ydni, sem Gude þocknast.

Hvad er Hvilldar Dagurenn?

Þad er hia oss (sem lifum a Nya Testamenteŝins Døgum) Sunnudagurenn, edur hiñ Fyrste Dagur Vikunnar: J Gamla Testamentenu var þad hiñ Siounde Dagur; þvi GUD hvijldest a hinum Siounda Dege af Skøpunar Verkenu, þad er, hann hætte ad skapa alla Hluti; þvi skipade hann þann sama Dag heilagann ad hallda.

Þvi er þesse Umbreiting giord, ad sa Fyrste Dagur Vikunnar, er nu heilagur halldenn?

Hier byriar ad athuga, ad um þenna Dag er tvennt ad hugleida; sem er nockud þad, er vidkemur Sida Løgmalenu, og nockud þad sem Kyrkiu Løg Gydinga snerter. Sida Løgmalenu vidkemur þad, ad hallda einhvern Dag i Vikunne helgann; þad er audsied af hinne fyrstu Stiptan Hvilldar-

dagsens,

dagsens, ad GUD hefur þad skiled sier; So og ad vinna eckert Verk, sem Madur maa vel an vera a þessum Dege, so þionustu giørdenn og ønnur Guds Dyrkan eigi hindrest: Kyrkiu Løgunum tilheyrer þad, ad hallda þenna Hvilldardag a vissum Dege, sem var hinn Siøunde; (u) sem og ad vinna aldeilis eckert Verk a hønum, (x) og jafnvel eige ad matreida, þvi þad attu Gydingar ad giøra Dagenn fyrer: Þesse Kyrkiuløg hefur Endurlausnarenn JESUS afmad, so ad vier Christner Menn erum eigi bundner vid þau, og þvi hafa Postularnir, edur og hiner fyrstu Christelegrar Kyrkiu Forstiorar utvaled hinn Fyrsta Dag Vikunnar, i stadenn hins Siøunda, i Minning Upprisu Drottens JESU; þvi hann reis upp a sama Dege: (y) So og hefur jafnan vered leifelegt hallded i Christnenne ad matreida, ad gefa Fienade sitt Fodur, og annad þvilijkt, sem heyrer til daglegs Adbunadar a þessum dege.

Ma þa eckert Verk vinna a þessum Døgum, utan þetta og annad þvilikt?

Eckert an stor Naudsynia: Leifelegt er ad draga upp Gripe þa ed falla i Pitt edur Fen; hvad Endurlausnarenn ecke lastar a Gydingum

(u) Exod. 20. v. 10. (x) Devt. 5. v. 14. (y) Joh. 20. v. 1.

ingum, (z) Soog ef stor Naudsyn tildregur ad biarga Lifsnæringu sinne, med hveriu mote sem vera kann. undann eru skilen sma Handtøk sem ej reiknast fyrer Vinnu.

Hvad er framar skipad i þessu Bodorde?

I þessu Bodorde er skipad 1. ad hallda helga Hvilldardagana, sem adur er sagt, og þad med hinne mestu Virdingu, bæde i Gudrækne Andans, og so i Hegdun Likamans, med allre Audmykt og Sidseme. 2. Alla adra helga Daga, Hatijder og Bænadaga, epter þvi sem Christenn Yfervølld hafa boded, þvi GUd hefur skipad Yfervalldenu ad hlyda, og a þad allra hellst ad giøra i þeim hlutum, sem GUds Dyrkan, og vora Saluhialp ahræra. 3. Ad heyra GUds Ord og ydka þad, kenna þad ødrum, og læra, nær sem vier faum Tomstund, og Hendtugleika þar til, og hafa þad i hinne mestu Virdingu, þvi þad er GUds Ord og ecke Manna; yfervega þad med ossyduglega, og astunda ad laga vorn Lifnad þar epter. 4. Ad kenna GUds Ord hreint og klart med allre Kostgiæfne, handtera Sacramentenn rettelega, og astunda ad god Skickan og Framferde halldest i Sofnudunum. þetta tilheyrer sierilage Prestunum, og ødrum sem

(z) Luc. 14. v. 5.

sem i GUds Stad eru setter, hverium ein-
um epter Skylldu sins Embættis.

Hveriar Synder eru bannadar i þessu Bodorde?

1. Allt Hneixle, med hveriu Lærdomurenn
spillest og Sacramentenn vanhelgast; so
sem Vanrækt GUds Orda, og ad tala litel-
fierlega edur minkunarlega þar um, og eige
sidst ad utleggia þad ranglega, ad hæda ad
Sacramentunum, og virda þau lijtels, og
hallda fyrer almennelegann Hlut. 2. Ad
hata edur forsma helgar Tider, og GUds
Ords Þienara, allrahellst nær þeir straffa
Syndena, og ad hlyda ecke þeirra Gudræ-
kelegum Aminningum. 3. Lioter Leiker, og
ogudleg Skemtan; Item Erfide, þad sem
vel ma an vera: Dryckiusvall, Lauslæte,
og annad þvilikt Gialise Heimsens, sem
hvad (mest þvi verr) tidkad er a helgum dog-
um, þar GUD hefur þo bannad (a) ad
giora þad oss lyster a sinum helgum Deige.

Hvad er sierdeilis athuga verdt i hinu

Fiorda Bodordenu?

**Heidra skalltu Fodur þinn og Modur, so þu verder Langlifur a Jordunne.**

Hid Fiorda Bodorded er fyrst i hinne Sid-
are Bodorda toblunne, hver ed talar um
Skylldu

(a) Es. 58. v. 13.

Skylldu vora vid Naunganñ; og so sem hid Fyrsta Bodorded gengur undan badum hinum i þeirre Fyrre, sokum þess; ad a þvi ridur mest allra; þvi þad snerter Guds Veru, og Alldoinsens Personur, og hanns Æru; so verdur og þetta fyrst sett af ollum hinne Sidare; þvi þad sem i þvi er boded, er mest verdt, næst Guds Dyrkun, og er, so ad segia, med vissu mote Not til alls þess, sem boded verdur i hinum, sem sidar seger.

Hvad er þad ad heidra Foreldrana?

Þad er ad veita Foreldrunum allskonar Virdingu, Elsku, Pionustu, Hlydne, Undergefne, Adstod, Godgirnd og Þolenmæde, so sem Syrach bydur; (b) ad heidra Foreldrana med Orde, verke og Þolenmæde; Og þetta ecke alleina med utvortis Hegdan og Atlotum, helldur og af Hiartanu.

Syn mier ad i þessu Orde, Heidra skalltu, sie og boded ad Elska.

Þad er audvitad af þvi, ad Gud heimter af Mannenum, ecke einasta utvortes Hlydnena i Bodordunum, helldur miklu framar þa sem innvortes er, so sem adur er sagt: Nu verdur eingenn heidradur i Hiartanu, nema þar fylge Elskan med; þvi margann þann hata menn, sem menn þo

(b) Syrach. 3. v. 8. 9.

þo heidra med utvortes Hegdan, og Syrach skipar ad heidra Forelldrana med Polennmæde, hver ad hefur sinn Bustad i Hiartanu, og kann alldrei ad vera an Elskunnar.

Hvi skal Madur heidra einn meir enn annann?

Pad a ad giora 1. Fyrer Guds saker; Aller erum vier ad sennu jafner i GUDS Auglite, epter Natturunne; enn fyrer þvi ad GUD hefur sumum af oss meddeilt nockra Likijng sinnar Tignar, og hefur boded oss hana ad virda og heidra; þa eigum vier hanns Skipan i þvi ad hlyda, so sem allt odru. 2. Hviad GUD verdur hvad mest Dyrdkadur med þessum Heidre, og þad værst þeirre Dyrdkan, sem hann hefur sialfum sier skiled, þvi hann hefur sett þessa i sinn Stad a Jordunne: so ad allt hvad i hinum Bodordunum skipad er, þad er minna verdt enn þetta, bæde þessvegna, ad Gud verdur sier i lage hier med Dyrkadur, sem adur er sagt; hins og annars, ad saa sem hlyder godum Forelldrum, og godre Valldstiorn, hann kostar Kapps um ad giora þad sem i hinum Bodordunum er skipad; Og þvi sagde eg fyrer skommu, ad þad være med vissu mote Not til þess sem i þeim boded er. 3. Hviad þad er i sialfu sier rettvijst og sambydur Natturunne, þar

eckert er rettvijara, enn ad lauua þeim godu, sem ojj gott giera, og giert hafa ad fyrra bragde; Enn eingenn er slikur Velgiorningur, sem Forelldranna vid Bornenn, af hverium þau hafa Sal og Likama, þad er allann Mannlegann Skapnad, og þar ad auke Fot og Fostur i sinum Barndome, nær þau gatu einga Biorg sier veitt, og vidlijkt maa segia um adra, þa sem eru oss setter i Fodur stad, sem sijdar seger. 4. Þvi þad er gagnsamlegt fyrer hvern einn, eige einungis þessvegna ad þad aflar godrar Samvitsku; og sa sem heidrar Fodur og Modur, hann maa hins sama kresia af sinum Bornum med þess stærra Rette; helldur og hinns, ad þetta Bodord hefur Fyrerheit: So þu verder langlifur a Jordunne, hvert eg num sidar utskyra. 5. Sokum þeirrar Skadseme, sem Ohlydnen velldur, þvi væru aller jafner, og eingenn ødrum undergefenn i Heimenum, þa kynne Verølldenn ecke ad standast, helldur være hvers manns Hønd a mote ødrum, og hver eydelegde annann.

Eiga menn fleire ad heidra enn Forelldrana?
Ad visu eiga Menn.

Hvérier eru þeir?
Þad er Valldstiettenn, Kienne fedurner, bæde

bæde i Kyrkiunum, sem eru Prestarner; og i Skolunum, sem eru Skolameistararner; so og eru þad Husbændur. Fiarhallds og Forsvars menn, og adrer sem eru i Forelldra stad setter: Konungenum a hinn mesta Heidur ad syna næst Gude, þvi hann er hanns Umbodsmadur a Jordunne; og nærst honum, þeim sem hann hefur sett til Yfervallda, epter þvi sem hann hefur skipad hvern einn ad heidra og virda: Prestunum a og ad syna mikenn Heidur; þvi vier erum þeim eigi minna skyllduger enn Forelldrunum, nær þeir giora sitt Embætte kostgiæfelega, og þeir uppfostra Saler vorar til eilifs Lifs a Guds Orde, og vaka yfer þeim; þvi seger Pall (c): Þeir Olldungar sem vel forstanda skulu halldast tvefallds Heidurs verduger, einka mest fyrer þeirra erfide.

Hvar fyrer verdur alleina geted um Forelldrana i þessu Bodorde, fyrst þar eru so marger sem menn eiga ad heidra?

Þad er þessvegna, ad Hiuskapar stiettenn er so sem Upphaf alls Mannlegs Vallds af Gude innsett; er þvi so sem moder annara Stietta; Enn þesser, sem eg fyrer skommu upptalde, eru i Heilagre Ritningu Fedur kallad-



(c) 1. Tim. 5. v. 17.

kallader, og Gud hefur boded ad heidra þa og virda.

A ad hlyda þessum ollum i ollu þvi sem þeir bioda.

Ad sonnu a þeim ad hlyda, i ollu þvi, sem þeir oss bioda i Guds Stad, og epter hanns Orde og Bodordum, enn eingann veigenn i þvi sem hann bannad hefur, og fyrr eiga menn Lijfed ad lata, enn ad giora i þvilikum Hlutum nockurs Manns Skipan.

A Madur ad heidra Ogudlega Forelldra, og Yfervolld, og þa sem giora Monnum allann Oriett?

Ad visu er þad skylldugt ad giora; þvi menn eiga ecke ad lijta til þeirra Haattalags, edur þess Oriettar, er vier lijdum af þeim, helldur til Guds Personu, hvers umbod þeir a hende hafa, og til hanns Bodords, er hann gefed hefur hier um, þvi hann hefur eingann frateked, og hann giorer oss alldrei oriett, hversu miked sem hann lætur oss af odrum lijda, enn ecke a þeim ad hlyda i þvi sem ogudlegt er, so sem eg hefe adur sagt.

Ma þa eige klaga Yfervallded, edur Kiennemennena, ef þeir giora Orett?

Konungurenn hefur eingann Domara, nema GUD; yfer honum ma aldeilis ecke klaga; alla adra ma klaga; þvi þar til eru

Logenn

Logenn skipud, sem eins eru fyrer Undergefna og Yferbodna; enn þetta a þo ad ske med allre Virdingu, og an Haturs og Reide.

Þu taladar um GUds Ords Þienara i Þridia Bordordenu, hvernenn verdur þeira þa geted i þessu?

Eigi er þetta um Skop framm, helldur til ad syna ad GUds Ords Þienara byriar ad heidra, bæde epter hinne Fyrre og Sidare Bodorda toblunne; Eingannveigen i þeirre veru, ad þeim byrie i nockurn mata Gudleg-ann Heidur ad syna, helldur a þa ad virda epter Þridia Bodordenu, þessvegna, ad þeir fremia hina almennelegu Þionustu gierd; hveria ef madur skal i mikille Virdingu og Heidre hafa, þa er þad vijst, ad þann byrjar ad heidra sem hana fremur; Enn epter Fiorda Bodordenu a þeim Virding ad veitast, af þvi þeir eru Andleger Fedur Salna vorra.

Eru Forelldrarner og Yfervallded undergefnum um eckert Skylduger?

Vijst eru þeir.

Hvad eru Forelldrarner Bornunum skylduger um, edur Husbændurner sijnum Þienurum?

Forelldrarner eru skylduger ad veita Bornunum Fot og Fæde, og alla þa Þionustu og Umsorgun, er þau Lijkamans vegna vid þurfa. J annann mata eigaþeir

ad ala enn fyrer Salum þeirra, færa þau til Heilagrar Skijrnar, uppala þau sidann i Otta Drottens, kenna þeim þeirra Christenndom, og hallda þeim til Gudrækelegs og sidsamlegs Lifernes. J Þridia lage ad setia þau annadhvert til Menta, edur kienna þeim, edur lata kienna, eitthvert ærlegt Handverk, edur Erfide, er þau kunna ad næra sig af. Og i Fiorda mata, um framm allt, ad ganga undan þeim, med godu Epterdæme. Hid sama eru Fiarhallds og Forsvars menn skyllduger sijnum Fosturbornum.

Hver er Yfervalldsens Skyllda vid Undersatana?

1. A Yfervallded ad vanda sitt Embætte med allre Ahyggiu og Kostgiæfne, bæde i þvi, ad hafa Vitsmunne a Rettenum, og ødru þvi sem tilheyrer Landsens Stiornan. 2. Ad giora Rett hverium Manni, og straffa hina vondu, enn forsvara hina godu (d). 3. Ad lata sier umhugad verá, ad Christeleg Tru og Guds Dyrkan obreitt vidhalldest, og sae Frammgang, so og ad stunda Landsens Gagn, og Almugans Velferd med Rad og Dad. (4) Ad ganga fyrer ødrum med godu Epterdæmi.

Hvad

(d) Rom: 13. v. 4.

Hvad eru Prestarner Skyllduger sinum Soknarbornum?

Peir eiga ad kenna GUds Ord hreint og klart, og handtera Sacramentenn epter Christi eigenn Innsetningu. 2. Eiga þeir ad kostgiæfa ad þeckia Hattalag sinna Tilheyrenda, og haga Kenningunne þar epter, bæde utann Kyrkiu og innan; so þeir straffe hinn Hardsvirada, aminne hinn Hirdulausa, leidrette hinn Fafroda, og hugge hinn Angrada og Sturlada, og gefa sier hverium einum af Guds Hiuum, þad honum ber i rettann Tima (e). 3. Ad þeir eingann mann take til Alltaresins Sacramentis, visvitande, sem þess overdugur er, so ei giöre þeir sig seka i hanns Doms afelle. 4. Ad þeir eingann utelyke þar fra, sem þess er verdugur, sokum Haturs, edur nockurs annars eigens Tilgangs, 5. Ad þeir pryde Kenninguna med Gudrækelegum og lastvorum Lifnade.

Hvad eru Hussbændurner Pienurunum Skylldugar um?

Peir eiga 1. Ad veita þeim ærlega Forsorgun til Fata og Matar. 2. giallda þeim afdrattarlaust sin Laun (f). 3. gefa þeim Stunder til ad ydka sig i sinum Christenndome, hallda þeim þar til og aminna þa

 til

(e) Luc. 12. v. 42. (f) Devt. 24. v. 14.

til Gudrækelegs Framferdes. 4. Eige ad þyngia þeim med ofmiklu Erfide, eige helldur ad leifa þeim ad leggaſt i Omenniſku og Ydiuleyſe. 5. Ad vera þeirra Fyrermyndani Lifnadenum: Og af þeſſu ſem nu hefe eg ſagt um Skylldu Yferbodenna og Undergefenna, er audſært hvad boded og bannad er i þeſſu Bodorde.

Hvad merkia langer Lifdager, ſem GUd heiter þeim er hallda þetta Bodord?

Langer Lifdagar merkia allskonar Fullſælu og Velgeingne.

Hvar af verdur þad ſyut ad þetta Ord merke ſo?

Fyrſt þar af, ad þegar GUd heiter Fedrunum i Gamla Teſtamentenu laungum Lifdøgum þa heiter hann þeim under eins Fridi og Roſemi (g) Enn þott hinn Rettlate deye ſnemma, þa er hann i Ro, ſeger hiñ Viſe (h). J Odrulage þeſſvegna, ad St. Paall leggur þad ſo ut (i) er hann ſeger; Ad þier vel vegne, og þu ſiert Langlifur a Jordunne. Þeſſer og ad giæta, ad langt Lif fyrer utan Velgeingne er Straff, meir enn Velgiorningur, og þvi er audvitad, ad nær GUd heiter laungum Lifdogum, þa heiter hann Velgeingnenne med. Nu

(g) Gen. 15. v. 15. Devt. 5. v. 16. (h) Cap. 4. v. 7.
(i) Eph. 6. v. 3.

Nu verda þeir ej aller Langlifer, og lidur eige helldur vel, þott leinge Life, sem heidra Forelldrana edur Yferbodna.

Þad er fyrst ad athuga ad eingenn helldur þetta Bodord ad fullu, og þvi giorer Gud eingum oriett, þo hann kalle hann burt arla Alldur sins, edur legge henum Motgang uppa, ef hann leinge lifer; Enn langer Lifdagar, kallast med þrennu mote. 1. Þegar einn hefur lifad so leinge, ad hann oskar sier eige leingra Lifs, og girnest ad leysast hiedan og vera med Christo, sem er miklu betra, eins og Paulus (k) 2. Þegar Lijferned er heidarlegt, þo eige sie þad margra Ara, og ad þetta Ord, langer Lijfdagar, hafe so skiled vered af frodum Mønnum i Gamla Testamentenu, kunnum vier ad sia af Ordum hins Visa (l) er hann seger. Ellenn er heidarleg, ei su sem leinge lifer, edur Arafiølldann hefur, enn Visdomurenn er Hærur Mannanna og oflekkad Liferne er sa rette Alldurdomur. 3. Iþridia mata, eru þad langer lifdagar med allskonar Farsælld: Nu þott af þvi bere optlega fyrer Guds Børnum, þa veitest



(k) Phil. 1. v. 23. (l) Cap. 4. v. 8.

eft þeim þo hitt, sem adur er aminst; Enn Gud a frialst ad utvelia fyrer sin Børn hvad hann vill; og þad er vist hann utvelur þad, sem þeim er fyrer bestu (m).

Hvad er athuga verdt i hinu Fimta Bodordenu?

# Eige skalltu Mann vega.

Hier er eige einasta fyrerboded ad taka Lifed af Naunganum, helldur og 1. Ad reidast hønum, og allra hellst ad ala Hatur til hanns i Hiartanu; þvi so seger Johannes i sinum fyrsta Pistle (n) Sierhver sa sem hatar sinn Brodur, hann er Manndrapare. 2. Ad gefa hønum vond Ord af reidum Hug; edur Smanaryrde; so og ad leggia nockrum Rad til ad liflata nockurn edur meida. 3. Ad giora hønum i Nockurn mata Skada, edur Meidsle a sinum Likama. 4. Ad sturla edur hryggia hann i nockurn Mata. 5. Ad syna a sier Reidesvip af Alvøru. 6. Ad faa ødrum i hendur Efne edur Medøl til ad giøra Nau-unganum Mein a Salu edur Life, edur sampyckia þad.

Hvad er skipad i þessu Bodorde;

1. Hugprydenn; sem þar i er folgenn ad Madur sie otraudur til ad voga sier, og life sinu fyrer Naungans og Fødurlandsens Vel-

(m) Rom. 8. 28. (n) Cap. 3. v. 15.

Velferd ef aliggur; þvi seger Johannes i sinum Fyrsta Pistle (o): Þvi eigum vier ad leggia vort Lif ut fyrer Brædurnar. 2. Hogværdenn, ad Madur sie Þidlyndur, og eige Reidegiarn. 3. Riettvisenn, ad Madur meide eige sinn Naunga. 4. Myskunsemenn, ad hann hialpe hönum i øllum hans Lifsnaudsynium med Rad og Dad, med Fiemunum vorum og øllum Atburdum, er hanns Life hialpa kunna. 5. Mannudlegleike og Godlynde. 6. Milldenn, ad Madur vægie þeim, sem oss hafa a moti broted. 7. Vandlæted i sinu Embætte, ad ei þyrme Madur þeim, sem Gud bydur ad straffa. 8. Astundan Samlyndesins.

Ma eingann Mann slaa i Hel?

Deyda ma þa, sem af Yfervalldenu eru til Dauda dæmder fyrer sin Afbrot; einenn Ovine sina ibardøgum, til ad forsvara Fødurlanded; so og þann sem ætlar ad vinna a nockrum, ef hann sær ecke ødruvise undankommest (hvad menn kalla Naudveriu); þvi ecke er nockur skylldugur ad elska einn meira enn sialfann sig: Moisis Løgmaal leifer ad drepa Þiof þann er brytst inn i annars Hus a nottu (p).

(o) Cap. 3. v. 16. (p) Exod. 22. v. 2.

Er

Er oll Reide oleifeleg?

Reidast ma Yfervallded Lostum og Glæpum, og heim er þa drygia; So og maa hver Madur reidast af Vandlætingu vegna Guds, nær hans Nafn, Ord, edur Sacramenta eru lostud edur ovirdt: Enn oll Reide, er frammkemur fyrer þann oriett sem giordur er vorre eigen Personu, hun er Synd a mote þessu Bodorde, so sem Lausnarenn seger (q): Hver hann reidest Brodur sinum, hann er Raads sekur.

Legg mier ut hid Siotta Bodorded.

## Þu skallt eige Hordom drygia.

J þessu Bodorde er eige einasta fyrer boded holldlegt Samræde med annars Manns Egtakvinnu, helldur og 1. er giptum Manne bannad ad leggiast med nockurre ogiptre. 2. Er ogiptum Personum bannad ad fremia Saurlifnad sin a mille. 3. Eru hier bannader sauruger Þankar, Ord og Tillit, edur annad Latæde, med hveriu menn annad hvert auglysa Þanka Hiartans, edur koma odrum til saurugrar Girndar; Um þetta talar Christus (r) segiande: Hver hann litur eina Konu til ad girnast hana, hann hefur allareidu drygt Hor med

(q) Matth. 5. v. 22. (r) Matth. 5. v. 28.

med henne i sinu Hiarta. 4. Oll Orsøk til lauslætes; so sem otierlegur Selskapur og Umgeingne, Dryckiuskapur; þvi þar af kemur lausllatt Liferne seger Postulenn (s); So og allur lauslætis Buningur og Klædaburdur. 5. Og i einu Orde ad segia; hier er fyrer bodenn allur Ohreinleiki, hveriu Nafne sem heiter, hvar med ad Madurenn saurgadur verdur.

Syn mier ad þad sie eins mikil Synd ad Madurenn take framm hia Konunne, so sem Konan framm hia Mannenum?

Þad er audvitad; þvi hann hefur eins vel lofad henni Trygd, so sem hun honum; þvi seger Paulus (t), ad Madurenn eige ecke Balld sins eigenn Likama, helldur Konan; Og hia Matthæum (u) seger Endurlausnarenn, Ad hver sem litur eina Konu, til ad girnast hana, hann hafe allareidu drygt Hor med henne i sinu Hiarta; Hvar þetta Ord, Kona, merker ecke einasta gipta Konu, helldur og ogipta, so sem audsied er af Textanum, og hia Matth. (x) seger Frelsarenn, Ad i Upphafe (y) hafe so sett vered

(s) Eph. 5. v. 18. (t) 1 Cor. 7. v. 4. (u) Cap. 5. 28. (x) Cap. 19. v. 4. 5. (y) Gen. 2. v. 24.

vered af Guldi, ad þau tvø (Kallmadur og Kona) skylldu eitt Holld vera; til hverrar Gudś Skickunar hann visar Phariſæunum; Enn ef þau tvø skulu eitt Holld vera, þa er audvitad ad Mannenum eige leifest ad hafa nockra Konu framm hia sinne Egtakvinnu; þvi take hann adra, þa verdur hann og eitt Holld med henne, og so mørgum, sem hann tekur fram hia Konunne; þvi Paulus seger (z) vited þeir eige, ad hann er samlagar sig Skiækunne, hann er eitt Holld med henni; þar fyrer hefur sa, sem þad giører, einsrofed Guds Skickan (sem adur var umgeted) so sem Konan, su er samlagar sig ødrum. Syn mier ad Lauslætis Ord og Atvik sieu og fyrerbodenn?

Þad syna þau Ord Endurlausnarans, er eg strax umgat af Matt. 5. Cap. hvar bæde Hiartad og Augunn hafa eige meira Frelse.

Hvad er skipad i þessu Bodorde?

1. Hreinlifid, bæde i Hionabandenu, og fyrer utann þad. 2. Sparsemenn, Ad Madur hallde sier fra øllu þvi, er hann kann ad hvetia til Losta og Lauslætis. 3. Hrein

(z) 1 Cor. 6. v. 16.

Hrein og følskalaus Elska Hionanna a mille, og ad hvert virde annad, epter þvi sem vera byriar, hvad ef menn astunda kostgiæfelega, þa er sidur hætt vid, ad þau bregde Tru sina hvert vid annad.

Lat mig heyra Utskyring yfer hid
Siounda Bodorded.

## Þu skallt eige stela.

Þiofnadur er med mergu mote 1. Er þad ad taka fra sinum Naunga med Launung hans Eigu, hveriu Nafne sem heiter. 2. Er þad ad taka þær fra honum med Vallde, an Doms og Laga, og þad jafnvel, þott hann eige oss so mikla Skulld ad giallda, sem þvi svarar, er vier tokum. 3. Er þad ad svikia annann i Kaupum og Solum med falsadre Voru, Vigt edur Mæler, med hveriu mote sem þad skedur; edur og ad setia Voruna ofdyrt, annadhvert þessvegna, ad Kaupandenn neydest til ad kaupa þad; edur ad hann hefur ecke vit a hvad hann kauper; edur ad hann girnest þad so miøg; þad er vondur Þiofnadur; þvi þad er ad selia Naunganum annadhvert sina Neyd, Girnd, edur Favitsku. 4. Ad taka meire Skatta og Skylldur, helldurenn Yfervallded hefur boded. 5. Ad lana Fie sitt til Okurs, og taka orettvisann Avext þar af;

Og

Og ad byggia Lend sin med ofmikille Leigu; og grafast epter Arfe undan ødrum; edur locka Giafer af nockrum. 6. Ad hallda inne vitanlegum Skulldum, og vilia þær eige giallda. 7. Ad sækia einhvern um þa Skulld, sem golden er; edur um einhvern þann hlut, er madur veit, ad hann hefur eingann Rett til, þott hann kunne þvi ad na med einhveriu Yfervarpe. 8. Ad giora einn þurfande a einhvern Hatt, so hann neydest til ad kaupa af oss; til dæmes: Eg veit ad einn er naustaddur um einn Hlut, og kaupe eg hann allann upp, til þess ad selia honum aptur, so dyrt, sem eg vil. 9. Ad svikia þionustu Folk um sin Laun, edur luka þau med Tregdum, og Rangsleitne; Item ad svellta þad og bua illa ad þvi, sier til Abata. 10. Ef nockur svikur i sinu Handverke, smidar otrutt, og tekur þo fullt verd a, edur falsar verkefned a einhvern hatt. 11. Ef einn Þienare er odyggur i sinne Vinnu, enn tekur þo full Laun. 12. Ef hann fer illa med þad, sem honum er i hendur feinged, og hagar þvi eige, sem best hann ma, med rettu, Hussbondanum til Gagns. 13. Ef hann selur Eigur Husbondans sier til Abata þo Husbondenn hafe eingann skada þar af. 14. Ad giora eige Fatækum gott; edur

edur gefa þeim so lijked, ad þeir sieu lítiir
nær, ef madur hefur af ad leggia; þvi sa
stelur af þvi, sem GUd hefur boded Fatæk-
um ad gefa; Og i einu Orde ad segia: ad
giora Naunganum Skada a Eigum sinum,
med einhveriu mote, leynelega edur op-
inberlega. 15. Ad Stela merker hier
og allt Ohof, og onaudsynlega Eydslu Fi-
ar sins, so menn eige hafe ad gefa hinum
Þurftuga; edur neydist sialfur til ad stela.
16. Ad giora sig ad Olmusu Mønnum, sem
þo eige retter ølmusu menn eru. 17. Oþack-
læte, i þvi ad vilia eige umbuna þeim sem
oss hafa gott giort. 18. Ad hialpa edur
styrkia til nockurs af þessu; edur samþyck-
ia og hrosa þeim er slikt giora. 19. Ad
hindra Naungann i einhverri mata sier til
Abata; edur segia honum osatt til ad Fe-
fletta hann; so sem ef einn seger einhvern
hlut eige vera ad fa nema hia sier, til ad
selia hann þess dyrara.

Hvad er skipad i þessu Bodorde?

1. Rettvise i Kaupum og Solum, og i
allre Vidhøndlan. 2. Orlæte vid þa sem
vidþurfa, og sierdeilis Fatæka. 3. Spar-
semen, so menn þess betur kunne ødrum
ad hialpa, og giora ønnur Kiærleiks Verk,
Christelegri Kyrkiu, og Fodurlandenu til

nota. 4. Ad vera þaklatur vid þa sem oss hafa gott giort. 5. Ad styrkia Naungann, jafnvel med nockrum Skada vorum, til þess ad hanns Formegan kunne ad aukast og eflast. 6. Ad lana giarnan þeim ed vidþarf og kresia þess eige aptur, a medan Nauganns Lif edur Naudsyn vidliggur; þvi seger GUd (a) Ef þu tekur i Pant þins Naunga Klæde, þa skalltu sa hønum þad aptur, adurenn Solenn nidurgeingur, þvi þad er hanns einasta Skyla; þad er Fat hanns til ad hylia sinar fætur, i hveriu hann liggia ætte; Annars mun eg bænheyra hann þegar hann kallar til min, þvi eg em Nadugur.

Er aldeilis oleifelegt ad stela?

Leifelegt er ad taka Mat sier til Næringar, um sinn, vegna hungurs, þo skal hann þvi lysa, er þad giorer, ef hønum er þad ohætt, og er þad ecke Þiofnadur rett kalladur; so er og hvad annad, ef Lijfs Naudsyn vidliggur: Allur annar þiofnadur er o-leifelegur.

Hvad er ad hugleida i hinu Attunda Bodordenu?

Þu

(a) Exod. 22. v. 26, 27.

Þu skallt eige bera falskann Vitnisburd a mote þinum Naunga.

J þessu Bodorde er bønnud øll Vanbrukun Tungunnar og Hiartans, Naunganum til Vanrÿktis edur Skada: Fyrst øll Lyge; annadhvert vid Naungann, edur a mote hønum; hvad ed skiedur 1. J Lagarettenum; þegar einhver vitnar Lyge a mote Naunganum, edur med hønum, odrum til Falls: Þegar nockur þeiger yfer Sannleikanum, og vill hann eigi jata hinum saklausa til Frelses; þegar einn Domare feller ranganu Dom yfer einhvern; spiller Vitnum hans og Søgnum med Løgleysu; skytur malenu a frest ad þarflausu, þeim sem vanhalldenn er til Meins og Ohrodurs, og i hvern Mata, sem hann tradkar Malum edur spiller, annadhvert med openberum Orietté, edur med Yfervarpe Laga og Rettinda. 2. Skedur þad i Kyrkiu standenu: nær Guds Ords Þienarar liuga þad er þeir kenna ranglega; hræsna fyrer ødrum, edur liggia a Sannleikanum; Jtem nær þeirra Kenningar verda rangfærdar; edur ad goder og vandlater Kennemenn verda lastader, og kallader Siervitrer og Oroasamer, af þvi þeir straffa Synder og Leste. 3. J Almenne-

legu Liferne og Frammferde: þegar Giorningar, Sætter og Samar eru eige halldner edur ranglega utlagder: Þegar menn annadhvert liuga berlega, edur dylia Sannleikann, þar hann a ad segia, a mote Samvitskunne, hvert helldur þad skedur af Asetninge, til ad skada Naungann; edur af Lausmælge, ad einn er buenn til ad liuga ødrum til þocknunar; edur hann hefur vaned sig a ad segia osatt, og hefur sialfur gaman þar af; edur og hann lygur sier til Frægdar; hvad optlega er ødrum til Nidurdreps, enn til Spotts sialfum hønum, er þad giører.

I annan Mata er hier fyrer boded, ad vier ecke opennberum þad leynt a ad vera, edur giørum Naungann uppvisann. 1. Ad segia fra þvi sem oss er tiltruad, og eige þarf ad segia, edur stilla til þess a einhvern hatt, ad adrer faae þad ad vita. 2. Ad segia til eins þeim, sem ossæker hann, edur a annan hatt ad gefa Visbending edur Vitneskiu um hann. I þridia lage ad baktala Naungann, sem er i þvi innefaled: þegar einhver uthropar þad sem einhverium a verdur, lasta hann og hæda þar fyrer, og leggia Dom þar a; sem er, ad falla inn i Guds og Valldstiettarennar Embætte, hver alleina a ad dæma um Afbrot Manna. I Fiordu grein ad ofrægia Naungann; þad skedur;

nær menn hallmæla honum; leggia hans Afersion ut a hinn versta Veg; giora liited ur hans Mannkostum; edur þeigia þar um nær til verdur talad. Hier a heima hitt skadlega Forvitnis Synd, sem þo er fyrer einga Synd halldenn af morgum: nær menn hnysa um annarra Häge, til ad vera þad ut aptur; hafa sina Utsendara alla vegna þar til; standa a Hlere (sem menn kalla) og bruka adra til þess, ad forvitnast um Naungann, eru Spuruler, locka upp ur Einfolldum, þad sem leynt a ad vera, lata sier þykia vænt þar um, og vilia giarna heyra þvilikt, og teigia hina þar med til ad liuga. Allar þessar Odygder eru bannadar i hinu Attunda Bodordenu; Og eru eige einasta Ordenn fyrer bodenn, helldur og oll Atvik, Bendingar og Latæde Lijkamans, sem Naunganum horfer til Nidurdreps og Sneysu, og gefa af sier illann Grun um hann.

Hvad er skipad i þessu Bodorde?

1. Sannsoglin, bæde fyrer Rettenum, i Rettargangenum, og i daglegu Frammferde. 2. Hreinlyndet, ad madur tale eige þvert um Hug sinn, edur drage af ad segia Naunganum til sinna Lyta, nær þad skedur i Tima, og med allre Hogværd. 3. Ad vera buenn til ad forsvara Naung-



ann.

ann, nær honum verdur oriett tilgiort, edur talad. 4. Ad geima þad vel sem leynt a ad vera. 5. Ad vera Faordur um onaud synlega Hlute. 6. Ad vera Sidsamur i Ordum sinum. 7. Ad tala og meina vel um Naungann; hvert hid sidara Paulus seger um Kiærleikann, ad hann þeinke ecke illt. 8. Ad vier hylium hanns Breste, affsokum þa, og færum alla Hlute til betra vegar, enn holldum hans Dygdum og Mannkostum a lopt, og vilium ei heyra honum alasad, helldur straffa þa ed þad giora.

Ma alldrei dylia Sannleikann?

Ad visu ma þad; so sem nær madur dyl- ur þad leynt a ad vera, Lyte Naungans, edur ef madur leyner nockrum, edur misseg- er fyrer þeim sem offsæker hann; so sem þegar Michol Dotter Sauls sagde sinn Egta- mann David siukann, fyrer þeim er sokt- u epter hanns Life (b); Edur Jonathan, er hann sagde David hefde bedeð Orlofs ad reisa til Bethlehem (c). So og leifest ad misfegia sier til Fridar, nær einn er offokt- ur fyrer Sakleyse; so sem David er hann sagde Achimelec, ad hann være sendur af Konungenum (d) og i ødrum slikum Til- fellum. Ma

(b) 1. Sam. 19. (c) 1. Sam. 20. v. 25. (d) 1 Sam. 21

Ma aldeilis ecke seigia Osatt?

Eingannveigen; nema þad sie til ad frelsa sitt Lijfedur Velferd, edur og Naungans, fra Orette og Ossoknum vondra Manna, so sem eg strax sagde; þvi nær madur seger odruvise enn er, fyrer soddan Orsøk, þa heiter þad eige Lyge, med rettu.

Ma ecke liuga ad Gamne sier, þad sem Naungan um er eige til Ohroburs?

Aldeilis ecke; þvi Sannleikurenn er so dyrmætur Hlutur, ad Menn eiga ecke ad hafa til Skemtunar þad hønum er gagnstædt; og sa sem temur sier ad liuga, sier til Gamans, hann lærer þar af ad liuga af Alvøru skadlega Lyge; Enn madur a ecke einasta ad varast Syndena, helldur og alla Orsøk til hennar: Enn Dickter Skalldanna og Æfenntir koma hier eige vid; þad selur eingenn fyrer Sannleika.

Er þad Synd, ef madur lygur Ovitande?

Ad sonnu er þad Synd; og sierdeilis ef nokrum er sneidt þar i; nema einn hafe so vel rannsakad einn Hlut, ad hann kunne þad eige betur ad vita, og truer þvi sialfur; þvi madur a eckert ad segia fyrer vist, þad hann eige veit fyrer vist, hvert satt er edur eige.

Ma eingenn Leyndarmal opennbera Syndlaust?

Til eru þau Leyndarmal, sem skylldt er

ad openbera: so sem Drottens svik, Landrad, Mord og Manndrap, og ennur Obota Mal; So og ef einhver truer einum fyrer, ad hann hafe asett ad giora ødrum Skada, þa byriar ad afletia hann þvi, i miesta mata; enn skipist hann eige vid eins Fortolur, þa er rettvist ad koma upp um hann; og i ødrum þvilikum Tilfellum ma riufa Leyndarmal: þad er og rett, ad vara sinn Vin vid otruum Pienurum; þo skal madur dylia Persónuna, ef þad maa ske honum ad skadlausu.

Seg mier nockud af þvi Niunda og Tiunda Bodordenu.

Eige skalltu girnast hus Naunga þins. Þu skallt eige girnast hans eigenn Kvinnu, eige Þion nie Þionustu Kvinnu, eige Uxa nie Asna, og eckert þad hann a.

Eru þetta Tvo Bodord, edur Eitt?

Þvi spyr þu so?

Þviad i badum er Girnden fyrerboden?

Þau eru Tvo; þvi seger Moises (e) ad Gud hafe skipad Israels Sonum ad vardveita þau Tiu Ord, edur Bodord; Enn þau verda eige Tiu, nema þesse Bodord sieu Tvo, og eige Eitt.



(e) Devt. 4. v. 13.

Jí hverin mismuna þau þa?

Hier byriar fyrst ad athuga ad Girnden er med Tvennu mote: Fyrst su sem framkemur af Vilia og asettu Rade; þvere madur samþycker, elur hana i Hiartanu, og hefur fullann Asetning til ad frammkvæma hana, ef hann giæte; þesse Girnd er fyrerboden i øllum hinum Atta Bodordunum; Enn hin Onnur er su, sem kviknar ad Ovilia Mannsens i Hiartanu; vid hvere eingenn syndugur Madur fær giort, ad hun ecke hreife sier; jafnvel þott þeir eige samþyckest henne, sem leidast af GUDS Anda, og dempa hana, adurenn hun naer ad verda ad einne verkande Girnd i Hiartanu.

Syn mier af Guds Orde ad su Girnd, sem þu fyrst umtalader, sie bonnud i þeim Atta Bodordunum?

Pad vottar Moises, fyrst um hina Fyrre Bodorda Tobluna, er hann seger (f): Elska skalltu Drottenn Gud þinn af ollu Hiarta þinu, og af øllum Mætte þinum; Enn um hina Sidare seger hann (g): Elska skalltu Naunga þinn, so sem sialfann þig: Og Endurlausnarenn hia Mattheum seger (h): Ad

E 5

(f) Devt. 6. v. 5. (g) Levit. 19. v. 18.
(h) Cap. 22. v. 40.

Ad af þessum Tveimur Bodordum hange allt Løgmaled og Spamennerner.

Hvernenn kann eg ad sia af þessum Greinum, ad Girnden sie fyrerboden i þessum Atta Bodordum?

Pad skedur med þvi mote: ad þu veitst, ad sa sem elskar GUD og Naunganm af Hiarta, hann girnest eckert þad, sem Gude edur Naunganum er a mote: Og er audsied ad þesse Tvø Bodord ganga i gegnum øll hin; i hverium þeir Hluter eru bodner og bannader, sem med Ordunum, Verkunum, og utvortes Hegdunenne frammkvæmdet verda. Jafnann mata seger St. Pall (i) Holdled girnest i mote Andanum, og Andenn i mote Holldenu: Og strax þar epter upptelur hann hver ad sieu Holldsens Verk, er frammkoma af Girndenne; hver øll eru a mote þeim Atta Bodordum; sem eru þesse: Hordomur, Saurlife, Ohreinleike, Lausung, Skurdgoda dyrdkun, Fiolkynge, Fiandskapur, Þrætur, Kappgirne, Reide, Þrattaner, Sundurþyckia, Flock-

(i) Gal. 5. v. 17. & 19.

Flockadrattur, Ofund, Manndrap, Ofdryckia, Ofneytsla, og þessum likt; Og med þessum Ordum, þessum likt, meinar hann, an efa, hin önnur Bodorda brotenn, sem eige eru hier upptalenn.

Eige sie eg enn nu hvernenn þesse Tvö Bodord eru adgreind sin a mille.

Eg sagde fyrer skömmu, ad su Önnur Girnden yrde ad Ovilia Mannsens i Hiartanu; hun er og Tvefolld: Hin Fyrre er Uppruna Spillingen, pad er su Vanart, er oss fylger af Adam, og kallast hinn gamle Adam og Holld i Nya Testamentesins Bokum, um hveria St. Pall talar (k) segiande: Enn ef eg giore þad eg eige vil, þa giore eg þad eige (hann meinar Nya Mannenn, sem epter Gude er skapadur) helldur su Synd sem i mier byr. Hin Sidare eru þær Fyrstu Hræringar, sem af Uppruna Syndenne kvikna i Hiartanu, jafnvel þott Madurenn eige sambyckest þeim, edur gefe þeim Rum: Um badar talar Paulus (l) segiande: Hollded girnest i mote Andanum, og Andenn i mote Holldenu: Holld-

(k) Rom. 7. v. 20. (l) Gal. 5. v. 17.

Hollded er Upprunа Synden, edur Vänarten til ad girnast hid illa: enn þetta Ord, ad girnast, utmalar oss hinar Fyrstu Hræringar, sem af henne frammkoma: vid hverugu þessu getur syndugur Madur giort; þvi seger Paulus strax her epter, So ad þier giored þad þier eige vilied: Og hverttveggia þetta er eige einasta innefaled i þvi, ad langa i þad illa, so sem orded almennelega hliodar, ad girnast; helldur merker þad einnenn Vidbiod og Leida a hinu Goda: þvi sa sem girnest þad eina, hann hefur Vidbiod a þvi odru.

Ei sie eg enn nu Mismunenn?

Marger af vorrar Kirkiu Lærefedrum hallda so her um, ad i hinu Niunda Bodordenu sie bonnud hin Fyrsta Hræring Girndarennar, sem kviknar i Hiartanu, þott hun naae þar eingre Rot, edur Stadfestu; enn sialf Uppruna Synden sie bonnud i þvi Tiunda.

þu sagder fyrer skommu, ad eingenn Syndugur Madur feinge vid þessum Girndum giort, til hvers gagnar þa ad banna þær?

Þad gagnar til þess, ad vita, ad jafnvel þott vier giordum allt hvad vier ættum ad giora, þa værum vier þo onyter Þionar; og þurfum ad bidia GUD um Fyrergefning

jafn-

jafnvel a Uppruna Syndenne, og hinum Fyrstu Hræringum, sem af henne kvikna; þvi þær vinna til timanlegs og eilijfs Dauda, nema G::d þær fyrergefe; þad vottar David (m) Gack eige i Dom vid Præl þinn, þvi annars er eingenn lifande Manna fyrer þier Rettlatur: Og þetta eru þær Girnder er Paulus so miøg yferklagar (n) Og Guds Løgmal (sem eckert er annad enn Openberan hans allra helgasta Vilia og Rettlætes) þad bydur oss, hvernenn vier eiguim ad vera; enn giører ei rad fyrer þvi hvernenn vier getum vered.

Eg skil enn nu eige fullkomlega ad Uppruna Syndenn sie bonnud i þvi Tiunda Bodordenu, og hennar fyrste Avøxtur i þvi Niunda?

Pad jatar þu þo, ad þetta hverttveggia sie Synd; og so kallar Paulus Uppruna Syndena (o) og vidar i sama Pistle; og fyrst þad er Synd, þa verdur hun i einhveriu af Bodordunum ad vera bønnud; enn nu er þad eige i hinum Atta; þvi er þad i þessum Tveimur, og eige badar i badum; þvi þad eru Tvø Bodord, sem adur er synt, helldur sin i hveriu.

Hvar fyrer er Uppruna Synden sidarst fyrerbodenn, þar mier skilst þo ad hun sie Rotallra annarra?

Pad hefur hinn alvitre GUD viisslega giørt,

(m) Ps. 143. (n) Rom. 7. (o) Rom. 7.

giert, so sem allt annad, ad hann hefur lated sitt H. Logmal byria a þeim Hlutum, sem menn vel þeckia meiga, ad nockruleiti, af Natturunnar liose Synd ad vera, og færer oss þannenn til þeirrar Þeckingar a Syndeñe, sem eige er af Natturunne opennber; so sem er þesse Girnd, sem bønnud er i þessum Tveimur sidurstu Bodordum; hveria Paulus segest (p) eige munde hafa þeckt, hefde Logmaled ei sagt; **Þu skallt ecke girnast;** Og er audvitad, ad hann sem var uppfræddur i Logmalenu fra Barndome, og epter Logmalenu ostraffanlegur (q), hann talar eige þessum Ordum um þa Girnd, er Madurenn samþycker, og nad hefur fullum Verte og Þroska i Hiartanu (hver jafnvel af Heidingium er fordæmd) helldur um þessa, sem fyrer skommu er umtalad. Enn Jacob Postule, þegar hann (r) talar um hvernenn Synden gengur, so sem nockurskonar Troppugang, i Mannsens syndumspilltre Natturu, tekur hann til a Rotenne, sem er Uppruna Synden, segiande: **Sier hver einn verdur freistadur, þegar hann verdur af sinne eigen Girnd (þad er Uppruna Syndenne) afvega leiddur,**

(p) Rom. 7. v. 7. (q) Philip. 3. v. 6. seq.
(r) Cap. 1. v. 14. 15.

ur, og lockadur; Sidan nær Girnden er frioffsöm orden (þad er nær Synden fyrst lifnar) fæder hun Syndena (þad eru vondar Huraner Ord og Giorder) enn nær Syndenn er drygd, getur hun Daudann; hver ad er Verdlaun Syndarennar sem Paulus seger (r).

Er þa eckert annad fyrerboded i þessum Bodordum, enn þesse Girnd?

Eckert þad sem eige sie adur fyrerboded; þvi um Eigenn-Kvinnu Naungans talar i hinu Siotta Bodordenu, enn um Eigur i hinu Sioúnda.

Þvi er teked til þessa, helldur enn hvers annars i þessum Bodordum?

Þviad Girnden fester sig hvad mest a þessum hlutum; Enn under Girndarennar Nafne a eige einasta ad skiliast Epterlaungun til hins Jlla helldur og Leide og Vidbiodur a hinu Goda; sem adur er sagt; bæde Uppruna Synden sialf, og allur Vanmattur bæde i Skiningenum og Vilianum; so og allar Syndsamlegar Hræringar og raung Jnnfell i Hiartanu: So hier er ecke einasta fyrerboded: þu skallt eige þvilik Jnnfell edur

ur

(s) Rom. 6. 23.

ur Hræringar hafa, i Niunda Bodordenu, helldur og þu skallt eige vera hneigdur til þvilikz, i þvi Tiunda; hvar af menn sia, ad allur Heimurenn er sakfallenn fyrer Gude, sem Paulus Vottar (t), og aller Heilager þurfa ad bidia hann um Kvittun Syndanna: (u): Og þessa Girnd, Vidbiod edur Vanskilning finnum vier hia oss i ollum Bodordunum, sem brytst upp i Hiarta voru, ad þeim naudugum sem Gud ottast; til Dæmes ad taka:

I Hinne Fyrre Toblunne raung Jmfollum GUds Veru, hans Stiornan og Rettvise, er og fundest hafa hia Heilogum, sem sia ma af Jobs Bok; Nær Manne flygur i Hug ad elska eitt hvad framar enn GUd; Vangiætslan a hanns Virdingu, og Leide a GUds Orde um Stund: I hinne Sidare, Bradræde vid Foreldrana i Hiartanu, þott eige sie þad af Grædsku; Hinn Fyrste Neiste Neidennar er Hefndargirnen, og i Syndunum mote Attunda Bodordenu er Girnd til ad fella edur ofrægia Naungann, og er soddan oteliande; hvert einn GUd hræddur Madur kann miklu betur ad finna i Samvitsku sinne, nær hann rannsakar hana itarlega; helldur enn þad verde med Ordum utmal-

(t) Rom. 3. 19. (u) Ps. 32. v. 6.

útmalad; Enn ef vier finnum ad þetta er Synd; þa er audvitad, ad Spilling Nattur-unnar er og Synd, af hverre hitt kviknar; og verdur þetta (ad sönnu) allt dempad fyrer Andans Krapt hia Guds Bornum, jafnvel þott Hollded fae a stundum yferhönd; Enn þott þad fae eige, þa er eingenn so Heilagur, ad þetta ecke gagne honum til ad audmykia sig daglega fyrer Gude; og ad bidia um Kvittun Syndanna; So og ad taka sier vara jafnvel fyrer hinum minsta Innblæstre Satans; og Holldsens Pijlum; og til ad varast Heimenn, ad ei gefe hann honum Orsök ad koma sier til ad girnast hid illa: So og skulu þeir vita, er optlega lata Holldsens Girnder vid sig rada, ad þad duger þeim ecke, ad þeir hafa nog til ad idrast fyrer, annad enn þessar Smæ Synder (er Heimurenn so kallar) nema þeir idrest þessa med, og angre þad, ad þeir eru so under Syndena seldér; þvi þad er alltid nogu stort i Guds Auglite, sem forþienar eilifann Dauda.

Ad eins ma eg enn spyria, hver er minn Naunge?

Þad eru aller Menn, vonder og goder, Viner og Oviner, og a hverium gott ad giöra, epter þvi sem honum best hagar: Giöred gott hverium Manne, einna

mest þeim sem eru af Truarenar Heimkynne, seger St. Pall (y); þar er eingenn undannskilenn.

A þa ad giøra Mismun a þessu?

Ad sønnu: þeim eiga menn mest gott ad giøra, sem oss eru mest vandabundner, og þeim sem naudstadder eru; þvi þeir eru oss hvad skilldaster fyrer Guds Saker; Þvi sa ed giefur Fatækum, hann lanar Drottne, seger hinn vise Salomon (z).

A eg þeim gott ad giøra, sem eg veit ad GUD hatar?

Ad visu attu; i øllu þvi sem hønum er ecke a moti; þvi svo giører hann: hann giører øllum allt þad gott sem ei er a mote hanns Rettlæti; Enn hann vill þu siert Myskunsamur, eins og hann er Myskunsamur, (a) hann lætur sina Sól upprenna yfer Rettlata og Ranglata, og rigna yfer goda og vonda (b) þad er, jafnvel yfer ovine sina, og giører þeim margt fleira gott, so hann med Rikdome sinnar Þolennmæde drage þa til Idrunar. (c)

Þu

(y) Gal. 6. v. 10. (z) Prov. 19. v. 17. (a) Luc. 6. 36. (b) Matth. 5. v. 45. (c) Røm. 2. 4.

Þu ſagder, ad marger af vorrar Kyrkiu Lærendum hefdu þenna Skilning um Adgreining þeſſarra Bodorda, ſem þu hefur ſagt; enn eru þar nockrer ſem ødruvis meina?

Til eru þeir, ſem meina, ad þeſſe Bodord eige ad ſkiptaſt epter þeim Hlutum, ſem i þeim eru fyrer bodner; So ad i hinu Niunda Bodordenu ſie bannad ad girnaſt Gots og Garda, og adra Dauda Hlute; Enn i þvi Tiunda Eigennkvinnu, Þionuſtu folk, og Kvikfenad; Hverrar Meiningar Lutherus ſyneſt og vered hafa; Enn hverutvegger eru þo i þvi ſamþycker, ad bæde UpprunaSynden, og hinar Fyrſtu Hræringar Girndarennar, ſieu i þeſſum Bodordum fyrerbodnar, og lender þad i ſama Stad.

Seg mier Utſkyring yfer þau Ord er fylgia Bodordunum af Exod. 20. Cap.

Eg er Drottenn Gud þinn, Sterkur Vandlætare, vitiande Ranglætis Fedranna a Sonunum, i Pridiu og Fiordu Ættkviſl þeirra, ſem mig hata, enn giørande Myſkunſeme i Þuſund lidu þeim, ſem mig elſka, og min Bodord vardveita.

Þeſſe Hotan Guds og Fyrerheit fylgia

i þeim 20. Cap. Exodi hinu Fyrsta Bodordenu, hvert ad er Grundvøllur allra hinna; þvi sa sem Gud ottast og elskar af øllu Hiarta, hønum veiter liett ad hallda hin ønnur Bodordenn; Enn Lutherus hefur sett þau allra seinast, til ad syna þar med, ad þau eige ad heimfærast til allra Bodordanna; þvi þau 1. eiga ad aminna oss til ad hallda Bodordenn af fremsta Megne, og ættu ad vera oss jafnan fyrer Augum, so sem eitt Minnes teikn um Guds stranga Rettlæte yfer þeim sem hans Bodord forsma, og so um hans Giædsku, mote þeim, er hann ottast; 2. Hvi ad þesse stranga Hotun hlyder ollum þeim til, er briota Guds Bodord. 3. Hvi Fyrerheited tilheyrer øllum þeim, er Gud elska, og hans Bodord vardveita, so sem hier stendur.

Hvad er framar athuga verdt i þessare Grein?

Eg er Jehova þinn Gud, stendur i Textanum. Þetta Ord, Jehovah, giorer 1. Greinarmun a mille hins sanna Guds og annarra, sem so eru kallader, þott ei sieu þeir Guder, þvi þad er hans eigenlegt Nafn, so sem hann hefur þad i Ritningunne opennberad, og ma eingre Skepnu tilleggiast. 2. Utskyrer þad hans Hatign; þvi þad merker þann sem var, og þann sem er, og þann sem vera mun, þad er, hann

sem

sem er an Upphafs, og Enda; fra einne Eilifd til annarar. 3. Þesse Ord, Þinn GUD, eiga ad minna oss a, ad hann ecke einasta sie Gud, þad er, einn Herra yfer øllum hlutum, helldur og þar hann seger Þinn Gud, ad hann sie sierhvers eins GUD, og hafe allt Valld til ad Straffa hvern einn sem honum mote brytur, og vilie hverium einum Myskuna sem hann ottast. Sterkur Vandlætare: Hier brukar Ritningen þad Ord, sem tidkast um einn Mann sem elskar datt sina Eigenn konu; enn vandlæter med grimmum Hefndar Hug, ef hun samlagast ødrum Manne: So er þa Meiningen i þessum Ordum: Eg kann ecke ad lida, ad nockur sie tekenn framm hia mier, og vil þess magnlega hefna, ef nockur þad giorer. Vitiande Ranglætis Fedranna a Sonunum i Pridiu og Fiordu Ættkvisl, þeirra sem mig hata: Hier eiga ad skiliast ecke einungis Natturleger Fedur, helldur og þeir sem eiga ad vera Fodurlandsens Fedur; hverra Synder ad GUD optlega straffad hefur a Epterkomurunum, sem hafa fylgt þeirra Fotsporum; Og vegna þess ad Gud hefur med þerum Ordum vitnad (d)

(d) Ezech. 18. v. 17.

Ad Sonurenn skule ei bera Fodursens Synder, þa a þetta adskiliast um þa Ridia, sem ad breita epter Illsku Forelldranna; edur samsinna henne; edur hafa styrkt þa i ogudlegu Athæfe; edur ei vilia rietta og bæta þad Forelldrarner oriett giort hafa: Og þott ad þeir liide þannen fyrer sinar Synder, þa liida þeir og fyrer, Forelldranna Illsku: 1. Þviad fleire Orsaker enn ein, kunna ad vera til eins Hlutar. 2 Þvi ad Straffed verdur hardara þar fyrer, nær Mæling Syndanna verdur uppfylld(e) Ad hata Gud, er ad forsmaa hanns Bodord, og Setninga, treysta a sialfann sig, edur nockurn Mannlegann Krapt. Ad vitia, merker hier ad straffa, og er þad hier adgiætande, ad hier er ei meint nema timanlegt Straff; þvi eingenn verdur fyrer annars Synder til Helvitis dæmdur; Annars er hier af audsied, hversu miøg ad Gude mislikar Synden, ad hann vill ecke gleima ad straffa hana a Børnum og Barna Børnum; hvad og er ein skelfeleg Hotan, og mætte minna oss a, ad bua vel i Veg fyrer Børn vor, hver margur elskar eins og sialfann sig; so ad Chrysostomus helldur, ad Cham, Syne Noa, hafe þad þyngra fallsed,

(e) Matth. 23. v. 35. 36.

ed, ad hanns Syne Chanaan var Bølvad, helldur enn þott hønum hefde sialfum bølvad vered.

Þu seger ad Gud ecke hefne Forelldranna Synda a Børnunum, nema þau gange i þeirra Fotspor, edur samþyckest þeim, edur sieu samrada i Syndenne, hvar fyrer skedur þad þa ad Ogudlegra Forelldra Gudhræddum Børnum lijdur optlega illa?

Þegar Gud leggur Gudhræddum Børnum ogudrækenna Forelldra nockurn Motgang uppa, þa er þad ecki Straff fyrer Synder Forelldranna, meir enn þegar godra Forelldra Gudhrædd Børn verda øgud af Gude; helldur er þad fødurleg Hyrting Guds, sem jafnan verdur þeim til hins besta sem ad Gud ottast.

Hvad er þetta: giørande Myskunseme i Þusund Lidu, þeim sem mig ottast, og mün Bodord vardveita? ef þad eru forþient Laun huna' sem vardveita Guds Bodord, hvernen er þad þa af Myskunseme?

Þott ad þetta Fyrerheit fylge Løgmalenu, og þott þad syneſt ad vera her sett i gegn þeim Hotunum, sem þeim tilheyra er ecke hallda Løgmaled, þa er þad þo ecke af Løgmalenu, helldur af Evangelio; þvi so seger Paulus (f) um Rettlæte Abrahams, hver



(d) Rom. 4, & Rom. 11. v. 6.

hver ed var syndugur Madur eins og ad=
rer: Ef þad er af Verkunum, þa er þad
eige af Nadenne; og aptur seger hann (g),
ad þar sie eige Lögmal til sem ad lifge: So
er þa eingen Myskunseme epter Lögmal=
enu, og þvi er þetta Nadar-Fyrer heit; Enn
være þad af Lögmalenu, þa være þad
oss onytt, þvi eingenn kann Lögmaled upp
ad fylla. Hotaner Lögmalsens na alltid
sinum Frammgange og Asetninge a öllum
þeim sem briota GUds Bodord, og eige
trua a Christum, sem Lögmaled hefur veg=
na allra Manna uppfyllt. Fyrerheited i
sama mata a þeim sem a hann trua, þess=
vegna, ad hann hefur þad uppfyllt; Enn
sökum þess ad Christur er oss gefenn af Nad
GUds og Myskun, þa er þad Fyrerheit ogso
af Myskunn alleina, sem a hönum, og i
hans Forþienustu er grundvallad: og þad
sem her seger, ad GUd vilie vera Mysk=
unsamur i Þusund Lidu, þeim sem
hann elska, og hanns Bodord vard=
veita, þad a eige so ad skiliast, ad GUd
vilie myskuna þeim fyrer þad, ad þeir vard=
veita hanns Bodord, þvi þad giörer eingenn
til fulls; helldur þeim sem hann elska, og
vardveita hanns Bodord, alleina vegna Guds
Fyrerheita, og eige af Verdskulldan; þvi

(g) Gal. 3. v. 21.

elska kann madur GUd af Hiarta, þottecke gete hann fyrer Veikleika Holldsens Lögmalenu Fullnustu giört, enn vardveiter þo so miked af Bodordunum, sem hann frekast megnar, enn þad sem abrestur, þad bætest fyrer Christi Forþienustu; þvi þeir sem a hann trua, eru eige under Lögmalenu, þad er under Lögmalsens Bölvan.

Ef þeir eru eige under Lögmalenu sem trua a Christum, þurfa þeir þa ad lifa epter Lögmalenu?

Ad visu eiga þeir epter Lögmalenu ad lifa; þvi Christur kom eige i Heimenn, til ad upleysa edur afmaa Lögmaled, helldur til ad uppfylla þad (h). Enn fyrer þvi ad þeir geta þad eige uppfyllt, þa idrast þeir daglega þess sem þeim a verdur, nær þeir rannsaka sinn Lifnad, og trua þvi stadfastlega ad þeim verde þad fyrer Christi Forþienustu fyrergefed, og jafnvel þott þeir a stundum hafe miog so villt fared; enn leggia þo allt Kapp a ad leidretta sinn Lifnad frammveigis; og þetta heiter ad trua a Christum, og ad vera i Christo; enn þeir sem i honum eru, þeir eru eige under Lögmalsens Bölvan; þvi eingen Fordæming er a þeim sem i honum eru (i); Enn under Lögmalsens Hlydne eru þeir; þvi seger hann, þeir



(h) Matth. 5. v. 17. (i) Rom. 8. v. 1.

sem ecke epter Holldenu ganga, helldur epter Andanum, so sem greinelegar mun sagt verda i Utskyringu Truarjatningarennar.

Hvad er þad, sem hier stendur i Þusund Lidu?

Þad merker hier, æsennlega, so leinge sem Epterkomendurner eige med ogudlegu Athæfe briota af sier Forelldranna Blessan, sem GUd hefur þeim heited; Enn so er stor Munur Guds Myskunseme, og hanns Reide, ad hann hefner eige nema i Þridia og Fiorda Lid, enn er Myskunsamur i Þusund Lidu; hvad menn sia berlega a Davids Huse, hvers Epterkomendur GUD sparade, (jafnvel þo marger Gudlauser væru) framm epter Olldunum, vegna þeirra Fyrerheita er hann hafde gefed hønum; Enn Josiæ Konunger, Sonarsyne hins ogudlega Konungs Manassis, synde Gud Myskun, ad hann sæe eige þad illa, er hann villde lata koma yfer Jerusalem, af þvi hann ottadest hann, og audmykte sig fyrer hanns Auglite (k).

Hvad er þetta Ord, þeim sem mig elska, Nu kann eingenn fullkomlega ad elska Gud?

GUD heimter eige meir af syndugum Manne, epter Falled, enn hann fær af Stad kom-

(k) 2. Reg. 22. v. 20.

komed epter Naadenne. Pad er og ann-
ad ad elska Gud og vardveita hanns Bod-
ord; enn annad ad uppfylla þau algiorlega:
Pad fyrra, enn ecke hid sidara, heimter
Gud af sinum Børnum, eige i þeirre Mein-
ingu, ad þau forþiene þar med nockud,
helldur ad þau syne þar af sina Þacklætis
Skylldu, fyrer hanns margfølldu Velgiorn-
inga, og gefe hønum Efne og Tækefære
til ad audsyna þeim enn þa stærre Velgiord-
er.

Gud hefur heited þeim sem hann ottast øllu godu, hvad vardar þa um þad Fyrerheit sem Gud hefur gefed Forelldrum þeirra?

Eige er þad onytt þar fyrer, helldur vill
Gud auka sina Myskun vid þa, hvad mest
vegna sins Fyrerheitis, og leggia Blessan
til Blessunar; So giørde hann vid Salo-
mon Konung, a medan hann geck a Guds
Veige, ad hann eflde hanns Rike med Fride
og Rikdome, meir enn hanns Fødurs Davids.
Eñ ef hønum þocknast ad lata god Børn Gud-
hræddra Forelldra vanta nockud a Velgeing-
ne þeirra, þa hefur hann sinn Tilgang þar
til, sem vier skilium eige þo alltid, þeim til
goda, er hann ottast.

Munu þeir aller eiliflega fyrerfarast sem eige hallda Bodordenn?

Langt er fra þvi, þar eingenn madur
munde

munde þa holpenn verda; og hefe eg ad nockruleite adur sagt, i Inngangenum til ockar Samtals, hverneg þessu er hattad, enn þad ma greinelegar sia i Truarjatningunne, og ridur eingu minna a ad læra þenna Part Christenndomsens, enn hinn fyrra, þvi i Bodordunum verdur oss kiennt hvad vier eigum ad giora, af hveriu eingenn kann holpenn ad verda; Enn hier verdur oss kient hvernenn vier kunnum Bodordenn upp ad fylla, so vier Saluhialpena erfa kunnum.

Þu hefur adur synt mier ad Gud sie einn i Verunne, og Madurenn eige þvi ad trua sem um hann er opennberad i Ritningunne, enn Syn mier nu af henne ad Gud-domsens Personur sieu Þriar.

Þad votta fyrst þær Greiner Ritningarennar, i hverium ad Gud, sem i Verunne er einn, talar um sig, so sem um fleire, so sem (l): latum oss giøra Mannenn epter vorre Mynd (m) latum oss ofannfara og blanda Male þeirra, so einn skilie eige hinn annann; og hia Esaiam (n) seger: Þiner Drottnar eru þiner Skaparar, Jehova Zebaoth er hanns Heite; Og enn aptur (o). Þar epter

(i) Gen. 1. v. 26. (k) Gen. 11. v. 7. (l) Cap. 54. v. 5.

epter heyrda eg Raust Drottens er sagde: hvern skal eg senda; edur hver mun fara fyrer oss. J þeim Tveimur Fyrstu Greinunum talar GUd um sig, so sem um fleire enn einn, hvar med eige kann annad meint ad vera, enn Personur Guddomsens, sem er einn; enn i þeim Sidurstu hia Esajam getur hann um Eininguna, þar hann seger: Jehovah Zebaoth er hanns Heite; og aptur Cap. 6. hvern skal eg senda; og þo um fleire i sömu Greinum, segiande: þiner Drottnar, þiner Skaparar; Item hver mun fara fyrer oss, hvar af sia ma ad GUd er Einn i Verunne, og þo Þrennur i Personunum. Her ad auke eru þessar Þriar Personur a Nafn nefndar opt i Gamla Testamentenu, so sem (p): Med Orde Drottens eru Himnarner giorder, og med Anda hans Munns allur þeirra Her; J hverium Ordum Þrir eru nefnder, Drottenn edur Jehova; Orded; sem er Guds Sonur, Joh. 1. og Andenn. Son-

(p) Ps. 33. v. 6.

Sonurenn ſeger (q): Ande Drottens Jehova er yſer mier, þeſſvegna heſ-
ur hann Smurt mig; hvernSpaadom Drottenn uppa ſig þijder (r), hvar og Anda Drottens verdur tillagdur nockurskonar Giorningur, ſem Eiñe Perſonu tilheyrer, ſem er ad ſmyria; eins og hia Job (s), þar ſo ſeger: Ande Drottens hefur giort mig: þeſſu er ſamhlioda Eſaias Cap. 63. er hann v. 7. og 8. nefner Jehova; v. 9. Eingel Andliteſins, ſem er Chriſtur, og Anda hanns Helgedoms, v. 10. hver og kall-
aſt Ande Drottenns Munns (t), Og um Guddom og Perſonu Sonarens er ſo lioſt i Gamla Teſtamentenu, ad þar um kann eingenn ad efa: So ſeger David (u): Þinn Velldis Stoll Gud varer um Allder Allda, hvad Paulus (x) Þijder uppa Chriſtum, um hvert Efne og hliodar hid 9. og 10. Vers, ſem eru dreigenn ut af adurgreindum Pſalme, og ſo af hinum 102. v. 26. Enn i Nya Teſtamentenu eru ſo lios Rok her til, ad eingenn kann ad efaſt
um;

(q) Eſ. 61. v. 1. 2. 3. (r) Luc. 4. v. 18. (s) Cap. 33. v. 4. (t) 2 Theſſ. 2. v. 8. (u) Pſ. 45. v. 7. (x) Hebr. 1. v. 8. & 9. 10.

um; So sem þegar Faderenn sagde (y) i Christi Skijrn: Þesse er minn Elsku-legur Sonur; Sonurenn steig synelega upp ur Vatnenu, enn H. Ande kom yfer hann i Dufu liking. Og hia Matth. (z) baud Christur Postulunum ad skijra i Nafne Fodurs, Sonar og H. Anda: Og þott ad miklu fleire Vitne meige fa af Nya Testamentenu um þenna Leyndar-dom, þa er þad vist, ad þær Greiner sem eg hefe fært til Sannenda her um, þær eiga so ad skiliast, og so hafa Guds Børn, sem a þeim døgum lifdu, skiled þær; þvi Petur sagde opennberlega (a) Fyrer Nad Drottens vors JEsu Christi truum vier ad vier holpner verdum med sama Hætte og þeir (hann meinar Fedurnar) hvar hann berlega nefner Guds Son, Hvern eingenn kann Drottenn ad kalla, nema fyrer H. Anda seger Paulus (b): Og mun eingenn efast um þad, ad Postularner, sem skijrdu i Nafne Heilagrar Þrenningar, þeir hafe Þrenningunne truad; Enn ef þeir hafa, þa hafa og Fedurner i Gamla Testament-

enu,

(y) Matth. 3. v. 16. (z) Cap. 28. v. 19.
(a) Act. 15. v. 11. (b) 1 Cor. 12. v. 3.

enu, sem med sama hætte urdu Saluholpner, so sem Petur seger.

Legg mier ut Truarjatninguna

## Fyrsta Grein.

Eg true a Gud Fodur Almattugann Skapara Himens og Jardar.

Hvad er þetta Ord, eg true?

Truen er med tvennu mote: Fyrst eiga Menn stadfastlega ad trua, þad er: ad hallda þad obrygdanlega satt ad vera, sem um Gud og hans Vilja er openberad i Ritningunne, sem er hans Ord, er hann sialfur talad hefur fyrer Munn sinna Spamanna og Postula, þvi þad er omogulegt ad GUD kunne ad liuga, (a) og þessvegna alyktar Lutherus sierhveria af þeim Premur Truargreinum, sem inn eru færdar i hans Barna Lærdom, med þessum Ordum: Petta eru vissuleg Sannende. J ødru lage eiga Menn ad setia allt sitt Traust til Guds, bæde i Andlegum og Likamlegum Efnum; og þad heiter sier i lage ad trua a GUD, ad reida sig fullkomlega, an alls efa, þar uppa, ad hann mune oss verda, epter þvi sem af hønum er sagt i hans Orde. Hin fyrre, truer øllu

(a) Ebr. 6. 18.

þvi

þvi, sem i Ritningunne um hann er openn-
berad; Hin sidare truer a hann; ad hann
verde sier, so sem hann i Ritningunne lof-
ad hefur: Hverugrar ma Christenn Mad-
ur an vera; og badar verda kendar i Tru-
ar Jatningunne.

Þvi er hin Fyrsta Guddomsens Persona kollud
GUD Fader?

GUD er Þrennur i Einingu, og Einn i
Þrenningu, so sem adur er sagt. Fader
Sonur og Heilagur Ande, er ad sonnu Fad-
er vor og allra Hluta; Enn sier i lage verd-
ur hin fyrsta GUddomsens Persona þar fyr-
er kollud Fader, ad hann er Brunnur og
Uppsprettæ Guddomsens; þvi Sonurenn
er af honum getenn fyrer allar Allder; enn
H. Ande frammgeingur af Fedur og Syne;
þo er þad eige so ad skilia, ad Faderenn sie
fyrr enn Sonurenn edur H. Ande, þvi þess-
ar Þriar Personur eru samjafnar og samei-
lifar, sem sidar mun greinelegar sagt verda;
og þar ad auke kallast hann Fader; Þvi
honum verdur sier i lage tillagt Skopunar
verked, til ad greina hanns Personu fra
hinum Tveimur, og til ad utmala hans
Verk, hanns Almætte og hanns Giæsku
þar med, Ad so sem likamleger Fedur eru
hin nærsta Orsok til Skapnadar Barna sina;

G sp

ſo er og GUD Fader Skapare allra Hluta bæde a Himne og Jordu, ſynelegra og oſynilegra; og þegar eg ſege: **Eg true a GUD Fødur**, þa jata eg under eins ad hann hafe mig ſkapad i hinum fyrſtu Mønnum, Adam og Evu, af hverium aller menn komner eru; þvi eige ſkøpudu mig Fader minn nie Moder, helldur ſtiornade Gud minu Skøpunarverke, og þad med einu Almættis Orde, þar hann ſagde (b): **vaxed og margfalldeſt og uppfylled Jordena**, og Job ſeger (c): **þu hleypter mier ſaman i kvide minnar Modur, ſo ſem ødrum Oſte**, og eige einaſta jata eg þetta, helldur og hitt, ad hann med Almætte ſinu, og af ſinne Giæſku hallde øllum ſkøpudum Skepnum vid; ſo vel þeirre minſtu, ſem hinne ſtærſtu; ſo vel Myflugunne ſem Ulfalldanum; ſo vel Høfud-Einglunum ſem Madkenum, ſem ſkridur a Jordunne; og ad hann ecke alleina vidhallde þeſſu øllu, hveriu i ſinne Tegund, gefe þvi Krapta og Hræring til ad utrietta ſitt Verk, epter þvi ſem hann i ondverdu baud; helldur og ad hann ſiae fyrer ſierhveriu einu af þeſſu, ſo ad jafnvel ecke einn Titlingur fellur a

Jordu

(b) Gen. 1, 28. (c) Cap. 10, 10.

Jordu an hanns Vilia(d) Eñ þo er hen-
um um Mannenn allrameſt hugad; þvi ſeg-
er Paulus(e): Hirder Gud nockud um
Nautenn, hvad Ambroſius ſo utleggur:
ad GUD hirde eige um Fienadenn fyrer
hanns Skulld, helldur vor Vegna, fyrer
hverra Skulld Jenadurenn er ſkapadur:
og fyrer þvi, ad bæde Klæde og Skiæde,
Hus og Heimile, og allt annad ſem Luthe-
rus upptelur i ſine Utleggingu yfer þeſſa
Grein, þad veitiſt oſſ af Gude, og fyrer
hanns Forſion, jafnvel þo vier medtokum
þad af Mannanna Hende, edur utveguin
med vorre Forſion, þa er honum þad allt
ad þacka, ſo ſem hinum fyrſta Hofunde all-
rar ſkapadrar Skepnu, ſem Mannenum
þionar til Nota og Bleſſunar; og þott hann
late Natturuna hafa ſinn Gang optaſt epter
þvi Logmale, ſem hann ſette henne i önd-
verdu, þa kann hann þvi um ad breita, nær
ſem hann vill, ſem audſied er af Krapta-
verkunum; Fædſluna hefur hann gefed til
ad forſorga og vidhallda Likamanum, þo
getur hann forſorgad Likamann an Fædſlu
eins og Eliam i Eydemorkunne(f); Hann
getur lated Petur ganga þurrum Fotum a
Sionum (g) Hann kann ad ſundurſkipta

(d) Matth. 10.29.
(e) 1 Cor. 9.9 (f) 1. Reg. 10. 8. (g) Matth. 14.29.

Siafarhafenu nær hann vill, og lata þad standa, so sem annan Murvegg a badar Sidur (h); Hann getur bannad Elldenum ad brenna (i) og Leonunum ad rifa Daniel i sundur (k): Þetta eigum vier ad hyxa, nær vier Skort lijdum, og hofum þad ei fyrer Augunum, sem vier meigum biarga Lifenu med; edur þegar vier erum i einhverre Naud edur Haska stadder; So þott Gud giore ej so þreifanleg Kraptaverk a medal vor, sem i Fyrndenne, ad vier þo alldrei vantreystum honum, sem so er Mattugur og Giæskurikur, helldur truum þvi fyllelega, ad hann bæde vilie og gete Hialpad oss, og frelsad a einhvern Hatt; og ad eckert sie betra enn þad sem hann lætur vid oss frammkoma, sem a hann truum, þott oss syneft þad alldrei so þungt edur ovænlegt, og þesse a ad vera Kraptur þessarar Jatningar hia oss: Eg true a Gud Fødur Almattugann; Hverium Ordum þad fylger ad þott vier skiotum oss til hans Almættis, nær oll Von og mannleg Hialp er ute, þa samt gefum vier oss under hans Vilia, og bidium ad hann giore alla hlute vid oss sinu Nafne til Dyrdar, so sem hann sier oss fyrer bestu vera; þvi ecke

(h) Exod. 14. 29. (i) Dan. 3. v. 27. (k) Dan. 6. v. 23.

ecke einasta veiter hann oss og gefur alla goda Hlute, er vier vidþurfum i andlegann og Likamlegann mata; helldur og verndar hann oss og vardveiter fra ollu illu, til Lifs og Salar; Og þar ad auke frelsar oss af allre Naud, sem vier kunnum i ad rata, hvert helldur þad kemur af vorum eigenn sialfskapar viitum; þvi hann fyrer gefur oss fyrst Afbrotenn, nær vier þeckium þau, idrunst þeirra, og truum ad hans Gudomleg Myskun mune forlata oss þau fyrer Christi Skulld, og latum af þvi illa; So hann lætur jafnvel Syndena verda þeim til goda, sem hann elska og a hann trua, so sem hann giorde vid David (l) er hann gaf honum Son vid þeirre somu Kvinnu er hann hafde horast med, hvern hans Son hann sette a hans Tignarstol epter hans Dag: Hann Fyrer gefur oss fyrst Synderna, sege eg, og sidann hialpar oss af þvi Straffe sem vier med Syndunum hofum forþienad; Edur og þad frammkemur epter hans alvitu Radstofun, jafnvel af Andskotanum, edur vondum Monnum til ad reyna oss: Og þetta seger Lutherus, ad hann giore an allrar vorrar Verdskulldunar, alleina af eintomis Gudlegri Godgirnd og Myskun:



(l) 2. Sam. 12. v. 24.

Af Godgirndenne veiter hann oss þa hlute sem goder eru, og vier vidþurfum; af Myskunsemenne aumkar hann sig yfer Eymder vorar, og fyrergefur oss Syndernar, og gelldur oss ecke epter Maklegleikum, so sem David vottar (m), **Myskunsamur og Nadugur er Drottenn, Þolennmodur og harla Godgiarn.** Og þar fyrer truum vier og Jatum ad hann sie vor Fader; þvi so sem Faderenn er Børnunum Myskunsamur, so er Drottenn þeim Lyknsamur, sem hann ottast. Af þessare Guds Hatign, hans Almætte og hans Myskunseigum vier ad lata oss vera hugfasta Skylldu vora, i þvi ad lofa hann, og honum þacker ad giora; hvad ed skedur med þvi, ad vier þeckium hann fyrer vorn Skapara, fra hverium alleina kemur allt þad gott, sem vier niotum i Andlegann og Likamlegann mata: Og lata hanns Yfermata miklu Elsku til vor Syndugra Manna (sem daglega reitum hann til Reide) uppvekia i oss eina brennande Elsku til hanns, ad bruka oll vor Skilningarvit, alla Salar og Likamans Krapta, honum til þionustu, Lofs og Dyrdar, epter þvi sem hann boded hefur i sinu Logmale, og vier frekast megnum; og

(m) Psalm. 103. v. 8.

og þar vier getum það ecke so sem vera byriar, a medann vier berum epter oss þetta syndumspillta Holld, ad vier þa audmiukium oss daglega, og bidium Fyrergefningar; þvi vier Syndgum daglega med Hugrenningum Ordum og Verkum, ja med ollu þvi hann hefur gefed oss til Salar og Lifs nota, og til ad dyrka sialfann sig med, hvert ad ætte ad vera vort mesta Epterlæte, enn hanns Skylldu skattur af oss. Þesse fyrsta Grein Truarennar ætte oss jafnan i fersku Minne ad vera, a hverre Stundu; þvi hvern tima medtokum vier hanns Nadargafur, og eckert Augnablik lidur so, ad hann giore ecke sierhverium af oss fleire Velgiorninga; enn oll Verolldenn kunne ad fullþacka honum, um alla æfe; þar oll Natturan, sem hann skapad hefur, þionar sierhverium af oss, an aflats: Vier drogum Ondena um Likamann a hveriu Augnablike, og þar i er vort likamlegt Lif folged, fyrer hvert vier niotum alls þessa goda sem hann veiter oss: hann lætur Solena, Tungled, og allann Himensins Her, so og Jordena, Sioenn, Lopted, og allar sinar dasamlegu Skepnur þiona oss, jafnvel midt i vorum Syndum; þvi vier styggium hann ydduglega; Og jafnvel hiner bestu og Gudhrædduſtu af oss,

eru

eru ei so fullkomner, ad vor bestu Verkstien eige Synd, ef þau ættu ad metast epter Guds Rettlæte; nema þau yrde gilld fyrer Christi Forþienustu; Og hvad munu þa eige Klæker og Odygder vera, sem marger leika sier ad idrunarlaust? þo lætur hann sina Sol upprenna yfer Ranglata, so vel sem Rettlata, so hanns Polenmmæde drage þa til Idranar; Enn ad þessu hyggur ecke Fiollde Manns, þar menn hafa þessa Tru-argrein alleina i Munnenum, og ecke i Hiart-anu; þvi ef menn giæfu nockurn Gaum þar ad, þa mundum vier ei so drambsamlega frammganga, og biota upp af Hofmod og Ofstæke, so sem hefdum vier Aud, Virding-ar, Magt, Vitsmune, Hreyste Likamans, Atgiorfe, og otal þvilikar Gafur Guds af sialfum oss; og eige bruka þær til hinna verstu Glæpa, sem so Heilagann og Matt-ugan, og þo Giæskurikann og Polenmod-ann Gud og Fodur til Reide reita: til Agir-ne, Ofundar, Ofrikis, Ohofs, Lauslætes, og hinna verstu Skamma, og Oknytta, sem hinn vonde Heimur er fullur af; enn þeinkia alldrei til ad þacka Gude fyrer allt þetta; edur giora gott af sier hinum volada, edur þeim sem Rangindenn lidur, nie syna ennur Kiær-leiks Verk, sem hann hefur Skipad ad dyrka

sig

sig med: Þessvegna ættum vier ad hafa þessa Truargrein jafnan fyrer Augum, til ad audmykia Hiarta vort, og ad skelfast fyrer Guds Reide, sem viis er ollum idrunarlausum; enn allra hellst ad kveikia i oss eina brennande Elsku til hanns, er oss overdugum og þacklatum, an aflats, so margt gott gierer; og nær hann lætur oss vel lida edur frelsar oss af nockurre Neyd, ad þacka honum af ollu Hiarta þar fyrer, lofa priisa og elska hann og taka med allre Hogværd og Þolennmæde a mote ollu þvi, sem hann vill lata vid oss framkoma, hvert sem oss synest þad beiskt og surt; þvi hann er vor Fader, vor og allra Hluta Skapare; so þar er ecke ad efast um hanns Giæsku ad þad sie oss eige fyrer bestu, sem hann vid oss gierer, og ecke um hans Viisdom nie Almætte, so hann kunne oss ecke ad hialpa, jafnvel þott Dioffullenn, og oll Verolldenn med honumvære oss a mote. Enn allra sidst eigum vier ad heinkia ad vier med Þolennmæde, edur vorum eigenn Radum, sem eru a mote hans Vilia, kunnum nockud ad utretta, nema ad fordæma sia!fa oss, og spilla Giæsku vorre, segium þvi med David(n): **Eg vard mallaus, af þvi þu giørder þad.** Nu hefur þu nockud heyrt talad um þa lik-

(n) Ps. 38. 10.

amlegu Velgiorninga þeß Almattuga Guds/ og Himneska Fodurs; Enn so mikler sem þeir eru (sem þo eru so mikler, ad þad fær eingenn syndug Tunga uttalad) þa eru þeir þo Hiegomi ad reikna hia hinum Andlegu, sem hann hefur oss veitt i Sendingu sins eingetens Sonar JESU CHRJSTJ, og Asigiofum Heilags Anda, sem oss veittar eru fyrer Christi Forþienustu.

Hverier eru þesser Andlegu Velgiorningar?

Um þa er talad i þeim tveimur epterfylgiande Truargreinum er hlioda um Guds Son og H. Anda

Utskyr mier þær eins og þu hefur giort vid þessa?

Hin Onnur Truargreinen hliodar þannen,

Eg true a JEsum Christum, Son hanns eingetenn, vorn Drottenn, hver ed getenn var af Heilogum Anda, fæddur af Mariu Meyu, pindur under Pontio Pilato, krossfestur deyddur og grafenn, nidurstie hann til Helvitis, enn a þridia Deige reis hann upp fra Daudum, uppstie hann til Himna, situr hann til hægre Handar Guds Fodur almattugs

Mattugs, þadan er hann komande ad dæma Lifendur og Dauda.

Hvad jata menn nu i þessare Grein?

Menn jata þad, ad so sem menn trua a GUD Fødur, sem er hin Fyrsta Persona Guddomsens, so true menn og a JEsum Christum GUDs Son, sem er hin Önnur Personan; þvi jafnvel þott ad þetta Ord, eg true, eige fylgei Upphafenu þessare Grein, þa heyrer þad þo henne til; so þad er so miked sem þu segder: eg true og a JEsum Christum.

Hvilik er þesse Önnur Persona GUddomsens JEsus Christur?

Þad seger Lutherus hier best i Utskyringunne yfer þessa Grein i Frædunum, med þessum Ordum: Eg true ad JEsus Christur, sannur Gud, af Fødurnum getenn fyrer allar Allder, og hinn same einn sannur Madur, fæddur af Mariu Meyu, sie minn Drottenn.

Þu sagder hann være GUDs Sonur, hvernenn kemur þad til?

Þvi hann er af Fødurnum getenn fyrer allar Allder so sem eg fyrer skommu sagde.

Hvad er þetta: fyrer allar Allder?

Þad er fra Eilifu; þviad eins og Gud hefur eckert Upphaf, so hefur og eige hanns Sonur neitt upphaf, nie hanns Getnadur, helldur hefur þesse Getnadur varad fra Eilifu, varer enn nu, og mun vara um alla Eilifd, þad teicknast med þessum Ordum(o), þar Faderenn seger: **Þu ert minn Sonur, i Dag ol eg þig.** Þu matt eige þeinkia so um þetta, so sem um Mannlegann Getnad, þar Madur kemur af Manne, og Faderenn er alltid fyrre enn Sonurenn; Enn þenna Getnad, kann eingenn ut ad skyra, so sem Spaamadurenn seger;(p) **Hver vill utsegia hanns Getnad.** Og þetta Ord **Alldernar**, þad er Timenn i hverium ad heiter bæde fyrr og sidar, i giær og i Dag, og a Morgun; þær hefdu sitt Upphaf undereins og Verolldenn var skopud, og Himentunglenn sem afmarka Timana, og med sinum Gange syna Monnum hvad fyrr edur sidar er; enn þvilikt var eckert adur enn Verolldenn var skopud: Og fyrst ad Guds Sonur er getenn adurenn þetta Veralldarennar Hlaup tok til, og adur enn þar hiet, fyrr edur sidar, þa er þad vist, ad hann er Gude Fød-

ur

(o) Ps. 2.v.7. (p) Es. 53.8.

ur sameilisur, og ad GUd Fader var alldrei fyrr enn hanns Sonur var, og Sonurenn eige sidar enn Faderenn var.

Eige skilst mier þetta enn nu.

Þad veit eg, þvi þu hugleider Guddomlega Hlute epter þinum Skilninge, og skilur þo ecke sialfur, hvernenn þu ert myndadur i Modurlife, hvernenn muntu þa skilia hvernenn GUds Sonur er af Fodurnum getenn fyrer allar allder? Enn þu att þvi ad trua ef þu villt holpenn verda; þvi ef þu skillder þad, og giæter audsynt med Rokum, hvernenn þessum Leyndardome være hattad, þa hyrfter þu ecke Truarennar vid i þessu; Enn ef þu truer, þa dæmer þu eckert her um epter Mannlegum Skilninge, helldur gefur þig og Sal þina Gude a Valld, hver ed sig þannenn hefur monnum auglyst, og þina Skilningu fangna under Hlydne Truarennar (q), og þeinker med sialfum þier: Eg er heimskur og favis til ad skilia so Haa og so Guddomlega Hlute; enn fyrst GUd hefur þad talad, þa true eg þvi; og þad er sa einaste Grundvollur þu kannt ad hafa til ad trua hier til Saluhialpar, enn ecke þin holldleg Skynseme.

Hvad

(q) 2. Cor. 10. 5.

Hvad er þetta, sem i Frædunum Stendur; og hin same einn sannur Madur, fæddur af Mariu Meyu. Er hann þa bæde GUd og Madur?

Pad er hann ad visu. GUd eilifur var hañ, er enn nu, og mun vera um allder Allda, epter þeirre Guddomlegu Naturunne; enn hann, sem var GUd fra eilifu, og GUds eingetenn Sonur, hann tok a sig Manndomlega Natturu i Timanum, þegar lidenn voru fra Skepun Veralldarennar her um fiogur þusund Ar, og er fæddur af Mariu Meyu, so sem seger i Lutheri Utleggingu.

Hvad er þad fra eilifu edur hvad er Eilifdenn?

Pad verdur eige sagt ødruvise enn so; ad hun hefur eckert Upphaf og einganñ Enda. Seg mier, hvar er Upphafed a þessum Hring O?

Pad er hverge. So er og Eilifdenn, hun hefur eckert Upphaf.

Hvernenn tok hann a sig Manndomlega Natturu af Mariu Meyu?

Hann var getenn i hennar Life, af H. Anda, an Karlmanns tilverknadar; þvi sagde hun vid Gabriel Eingel er bodade henne Getnadenn (r); hvernenn ma þetta ske, þar eg hefe eingann Mann kiennt;

(r) Luc. 1. v. 34. 35.

kient; enn hann svarade henne; H. Ande mun koma yfer þig, og Kraptur hins Hædsta mun yferskyggia þig; og sidan þa hennar Timi var komenn, fæddest JEsus af hennar Life, eins og adrer menn, hluttakande Holldsog Blods, eins og Sma Bornenn, so sem Paulus seger til Hebræos (s).

Er þa Guddomurenn umbreittur i Manndom?

Langt er fra þvi; þar GUd kann ecke ad umbreitast; helldur samteingdest hin Onnur Guddomsens Persona Manndomenum, i Life Jomfrur Mariu, i þvi sama Augnablike, sem Christur var gietenn af H. Anda, so ad sidan heiter hun Guddomleg Nattura, þegar talad er um Christ, so sem Gud og Mann; þvi hun og hin Manndomlega Natturan eru i einne Personu samteingdar; samt er hann þo epter Guddomenum samrar Veru med fødurnum, þad er Eilifur Allmattugur GUd, so sem Postulenn seger (t): ad Christur sie af Fedrunum epter Holldenu Gud blessadur um Allder, Amen: hannleggur hier til þetta Ord, Amen: Þad er, vissulega, sannarlega; og brukast i Ritningunne til ad stad-

(s) Cap. 2. 14. (t) Rom. 9. v. 5.

stadfesta og styrkia þar med, ad þad sie o-
brygdull Sannleike, sem um er talad.

Hvad er þetta, Hann er samrar veru med
Fodurnum?

Þad er; hann er GUD eins og hann, so sem
hann sialfur seger (u): Faderenn og eg
erum eitt; þad a skiliast, epter Guddom-
enum, So sem hann er samrar Veru med
Fodurnum epter Guddomenum, þad er sann-
ur GUD, so er hann og samrar Veru med
oss, epter Manndomenum, þad er sannur
Madur, Holld af voru hollde og Bein
af vorum Beinum, eins og vor fyrste
Fader sagde (x), um vora fyrstu Modur,
af þvi þau voru samrar Veru, þad er, Man-
neskiur bæde; so ad JEsus Christur i einne
samsettre Personu af Guddome og Mann-
dome, er bæde Skapare og Skepna; Skap-
are epter Guddomenum; þvi þu Drott-
enn Grundvallader Jørdena i upp-
hafe, og Himnarner eru þin Handa
Verk seger David (y); Enn Skiepna er
hann epter Manndomenum; þvi hann er
Skapadur eins og adrer Menn, so hann er
sialfum sier meire, og sialfum sier minne, sinn
Skap-

(u) Joh. 10. 30. (x) Gen. 2. 23.
(y) Ps. 102. v. 26.

Skapare og sin eigen Skepna, so sem hann liet sialfur fra sier sina Salu, og tok hana aptur (z).

Hefur Christur adra Sal helldurenn Guddomenn?

Ad sonnu hefur hann: annars være hann ecke fullkomenn Madur; þvi Salenn er þad sem giører Mannenn ad Manne; annars være hann eckert af Kvikindunum. Bæde Sal og Likama hafde Christur af sinne Modur, eins og adrer menn af sinum Forelldrum. Þad sem syndgad hafde, þad sem endurleysast atte, þad hefur hann uppa sig teked og samteingt Guddomenum i einne Personu; enn Salenn hafde hvad mest syndgad, og stiornad Likamanum til Syndarennar; þvi þurfti hun og hvad mest Endurlausnar vid, þvi hefur hann og teked hana i samfelag Guddomsens, og lided a henne; og hier ad auke seger Christur (a): min Sal er hrygg allt til Daudans, enn Guddomurenn kann eige ad hryggiast; þvi GUD er alleina sæll.

Þvi stendur þetta hier sier i lage i Lutheri Utleggingu um Christ, ad hann sie minn Drottenn,

Er eige GUD Fader og H. Ande og so minn Drottenn?

Ad visu er oll Guddomsens Þrenning

H. bæde

(z) Joh. 10. 18. (a) Matth. 26. v. 38.

bæde þinn og allra hluta Drottenn, þad er: allar skapadar Skepnur, jafnvel Diøfullenn og hanns Einglar, so vel sem fordæmder menn, eru under hanns Vallde; Enn soddan Herradæme er eige hier meint, þar þu nefner JEsum Christum þinn Drottenn; helldur soddan Forrad, so sem þegar einn kauper einn Hlut, sem eige var adur hanns, sier til Eigenndoms: bæde þu og aller menn voru adur under Diøfulsens Vallde, og under GUds Reide, og attu eige annars Urkoste, enn ad kveliast med Andskotanum eiliflega i Helvite, og ad vera Þrælar hanns og Syndarennar, utrekner fra Gude og hanns Auglite; Fra þessum Þrældome, hefur Christur frelsad þig og alla menn, og giort oss ad sinne Eign, eins teked oss af Andskotans Hende, og af GUds Reide Vallde; þvi er hann sier i lage vor Drotteñ: Og þvi seger Lutherus i Utleggingunne yfer þessa grein; ad hann sie minn Drottenn, sem mig glatadann og fyrerdæmdann Mann hefur afreckad, endur leyst og frelsad, fra Daudanum og Diøfulsins Vallde.

Med hveriu hefur Christur Endurleyst mig?

Þad seger Lutherus med St. Peturs

Ordum (b): Eige med Gulleníe Sylfre, helldur med sinu Heilaga og Dyrmæta Blode.

Hefur hann ecke annad unned mier til Salu hialpar og Myskunar?

Hann hefur ad sonnu; enn Lutherus nefner þetta alleina; þviad þar i er folgen Endurlausnar verksens Fullkomnan, ad hann uthellte sinu Blode a Krossenum, og liet sitt Lif fyrer oss; þvi sagde Drottenn under sitt Andlat, þa hanns H. Blod var utrunned, so hann eige kunne epter Nattur-legum hætte leingur ad lifa: Þad er full-komnad. Þo skalltu vita ad allt þad sem hann hefur giört sidan hann fyrst var getenn i Modur Life, þad þienar til vorrar Endur-lausnar, og þvi er hid sierlegasta upptaled i þessare Truargrein: 1. Hann er getenn af H. Anda, og fæddur af einne Jomfru, Hreinn og Heilagur, og fraskilenn Syndurunum (c), so ad þo vier sieum getner og fædder i Syndenne, þa hefur hanns allra helgaste Getnadur og Fæding burtteked Saurugleika vors Getn-adar og Fædingar; so ad Sekt Uppruna Syndarennar (sem epter voru syndum spilltu Edle fylger hverium Manne, sem af

(b) 1 Pet. 1, 18. (c) Hebr. 7. v, 26.

Adam

Adam er komenn ) hun verdur i burtütekenn, enn vier verdum hæfeleger fyrer Christi Dauda, i Skijrnenne, til ad þiona Gude, i Endurnyungu Lifdaganna. 2. Þar hann er nu so getenn og fæddur eins og ennur Manneskia (d), þo an syndar, þá er vitanlegt, ad hann er ad allre Hegdan fundenn sem Madur (e): Hann aat og drack, hann vakte og svaf, hann sat og stod, hann talade, og þagde eins og adrer menn; hvar med hann helgad hefur allar vorar Natturlegar Athafner, sem vegna Syndarennar, sem i oss byr, eru ohreinar og vanhelgar i Guds Augliti. 3. Hann er pindur under Pontio Pilato, einum heidnum Landsdomara, af Heidingium; so hann oss Heidingia Børn sem vorum an Guds i Heimenum, og fiarlæger Israels Borgar Rette giørde ad GUDS Børnum (f). 4. Hann er Krossfestur; so ad vier getum krossfest vort Holld med þess Girndum og tilhneigingum (g); þad er: ad vier getum dempad syndsamlegar Girnder Holldsens, sem motstrida Andanum. 5. Hann er Daudur; so ad hinn likamlege Daude kunne þa eki ad

(d) Ebr. 5. v. 2. (e) Philip. 2. v. 8.
(f) Eph. 2. v. 12. (g) Gal. 5. v. 24.

ad skada, sem a hann trua; þvi hann hefur frelsad þa fra þeim eilifa Dauda, med sinum Dauda, so sem adur er sagt. 6. Hann er greptradur og under Jordena komenn; so sem Lutherus ad orde kiemst; þar fyrer meiga og allra Christenna Manna Grafer vera einn helgedomur seger hann; ecke sokum þeira eigin Heilagleika; helldur þar fyrer, ad þeir hafa daed i Trunne a þann Heilaga, krossfesta, deydda og greptrada Son Guds. 7. Hann er ofanstigenn til Helvitis, til ad binda Diofulenn og nidurbriota Port Helvitanna, ad þau megne eckert a mote þeim sem a hann trua (h). 8. Hann er upprisenn a Pridia Dege; so þeir sem a hann trua, skylldu til eilifs Lifs uppriisa. 9. Hann er uppstigenn til Himna; so hann tilbygge oss eilifa vist med sier, og utvegade oss H. Anda; og 10. Situr hann til hægre Handar Guds Fodur Almattugs; til ad bidia fyrer oss, og til ad birtast þar fyrer hanns Auglite, med þvi Offre, er hann utlagde a Krossenum, fyrer Mannkyned.

Eg veit ad Gud hefur ecke Hendur og Fætur eins og Madur, hvad er þad þa ad sitia til hanns Hægre Handar?

(h) Matth. 16. 18.

Ad visu hefur hann eige Hendur nie Fæt-
ur; þvi hann er einn Ande (i); enn
þetta verdur sagt um Christ epter þeirre
Manndomlegu Natturunne; og er talad
epter plagsid Gydinga, er settu þa sier a
hægre hend er þeir virtu næst sier, eins og
Salomon, er hann sette Modur sina sier
til Hægre Handar (k); þvi merker þetta,
ad Christur, epter Manndomenum, sie
nærstur Gude, ad allre Dyrd og Vallde,
og eingenn Munur hinnar Guddomlegu og
Manndomlegu Natturunnar; nema ja, ad
þad sem hin Guddomlega hefur af sialfre
sier fyrer alla Eilifd, þad hefur hin Mann-
domlega ødlast i Timanum fyrer Jbud
Guddomsens.

Hefur Guds Sonur alla menn endurleyst fra eilifre
Fordæmingu?

Ad sonnu hefur hann; þvi seger Johan-
nes, ad hann sie Forlikun fyrer allar
Veralldarennar Synder (l).

Verdur þa eingenn fordæmdur?

Ad visu verda marger fordæmder, þvi
verr.

Hvers vegna?

Þad seger Christur sialfur hia Johannem
med þessum Ordum: Enn hver sem ecke
truer,

(i) Joh. 24. 24. (k) 1 Reg. 2. v. 19. (l) 1 Joh. 2. v. 2.

truer, hann er þegar dæmdur, af þvi hann trude ecke a Nafn Eingetens Sonar Guds (m).

Er þa Vantruen einasta Orsök til Fordæmingar Mannsens?

Hun er hin hellsta, enn þo ecke hin einasta: þvi ad, sökum þess ad Synder hinna Vantruudu verda eige fyrergefnar, fyrer Forþienustu Guds Sonar, a hvern þeir trua eige, og ei medtaka þeir hana med Trunne, þa verda þeir og dæmder, epter sinum vondum Verkum.

Enn þeir sem holpner verda, verda þeir holpner fyrer sin God Verk, edur eru God-Verkenn asamt Trunne Orsök til þeirra Rettlætingar?

Eingannveigenn: helldur alleina fyrer Truna a Christum, so sem Paulus vottar (n) Vier truum ad Madurenn verde holpenn fyrer Truna, an Verkanna; þvi eingenn kann þau Verk ad giora fullkomlega sem i Lögmalenu bodenn eru; og vor bestu Verk eru jafnvel Synd i Guds Augliti; vegna sins Ofullkomlegleika; nema þau helgud verde fyrer Christi Forþienustu.

Hvar fyrer a þa God-Verkenn ad giora? þvi a epter Lögmalenu ad lifa?



(m) Joh. 3. v. 18. 36. (n) Rom. 3. 28.

Þad kenner Lutherus hier i Utleggingunne yfer þessa Adra Grein Truarennar, þar hann seger til hvers ad þinn Drottenn Christur hafe endurleyst þig af øllum Syndum, Daudanum og Diøfulsens vallde, sem er til þess: ad þu siert hanns eigennlegur, edur allur; enn ef þu ert hanns eigeñlegur, þa attu eige aptur a ny ad gierast Sathans Þræll, med visvitande Syndum; Guds Sonur hefur frelsad þig fra Syndenne, enn ecke til þeß ad þu skuler edur meiger syndga; hann hefur endurleyst þig, so þu lifa skuler, under hønum, i hanns Rike, og þiona hønum i Heilagleika og Meinleyse, alla þina Lifdaga; Hvad skiliast a fyrst um hanns Nadarrijke her a Jørdunne; þad skedur med Godum Verkum, sem hann boded hefur i Løgmalenu, þott þau sieu ofullkomenn, og þu geter ecke aldeilis vid Syndenne giert; og ef þu gierer svo, og truer a hann, þa muntu hønum eiliflega þiona i hanns Dyrdarrike, i fullkomnu Rettlæte, Sakleyse og Farsælld.

Hvad merkia þesse Ord, sem stand a i greindre Utleggingu Lutheri; Lika sem hann er sialfur af Daudum uppriseñ, lifer og riker ad eilifu?

Þad seger Paall Postulle med þessum Ordum:

Ordum (o): vier erum jardader med Christo, fyrer Skirnena, til Daudans, ad lika so sem Christur er uppvakenn fra Daudum, fyrer Dyrd Fodursens, so eigum vier ad ganga i Endurnyungu Lifdaganna, þad er: Vier eigum ad lifa Heilaglega, so sem hann lifde, þo eige getum vier þad so fullkomlega; Enn þesse Ord: **lifer og rikir ad Eilifu**, þau minna þig a, ad so sannarlega sem Christur er daenn fyrer þinar Synder, og upprisenn þier til Rettlætis, og inngeinginn i sina Dyrd, so muner þu og eiliflega med honum lifa og rikia: Eg vil og þess geta, ad hver sem truer rettelega a GUds Son, hann astundar ad giøra þad GUd hefur boded; og hver sem þad eige astundar, hann ma vera viss um, ad hann hefur enn þa eige hina rettu Tru; þessvegna attu ad giøra þad sem gott er, eige einasta til ad auglysa Tru þina fyrer Monnunum, helldur og ad giøra sialfann þig fullvissann um, ad þu siert rett truadur; Þad kallar Postulenn (p), **ad giora sina Utvalningu vissa;** So er þa Meiningen af þessu: Ad God Verkenn kunna eingann

 ad

(o) Rom. 6, 4. (p) 2. Pet. 1, 10.

ad rettlæta fyrer Gude, þvi þau eru ofullkomenn, og Syndernar eru miklu fleire enn þau, Enn þau fylgia jafnan Trunne, hver ed alleina rettlæter; enn þau vondu eru full nog til ad fordæma, þar sem þeirra Sekt ecke burttekenn Verdur, sokum vantruarennar.

Kunne GUd ecke ad fyrergefa Mannenum Syndena, þo eige hefde Christur pijnst?

Adur enn eg svara þier til þessa, þa byriar þier ad athuga, ad Guds Rettlæte, hanns Almætte, og hans Myskunseme, og Speki er allt hid sama; þvi i GUde er eingen Adgreining, helldur hefur hann opennberad sig oss sakrodum Manneskium, med þessu Orda tiltæke, i Ritningunne, ad vier hann þeckia skylldum epter þeim Vitsmunum, sem hann oss gefed hefur, ad so miklu leite, sem oss til Saluhialpar nægia ma; þvi svara eg uppa þessa þina Spurningu: ad Gud kunne ecke ad forlata Syndena an þess ad hanns Rettlæte yrde fullnægt, þvi þad sama hefde nidurbroted, og ecke uppbygt hanns Almætte, sem er hid sama og Rettlæted; enn fyrer þvi ad Giæska hanns og Speke eru og hid sama sem Almætted og Rettlæted, þa tok hann þetta Rad (sem eingenn madur kann ad skynia, nema upplystur af Heilogum Anda) ad lata sinn Eingetenn

Son

Son taka a sig Manndom af Adams Kyni i hverium aller syndgudu, þvi seger Ritningen (q): so elskade GUD Heimenn, ad hann utgaf sinn Eingetenn Son, uppa þad, ad aller þeir sem a hann trua, fyrerfarest eige, helldur hafe eilift Lif, og ber þier ad hugleida þad, ad hefde GUD kunnad med ødru mote ad forlika Heimenn vid sialfann sig, þa hefde hann eige lated sinn Eingetenn Son, i hverium hønum alleina vel þocknast, lijda so herfelegar Pisler fyrer sina Ovine, so sem Christur fyrer oss lided hefur.

Hvernenn kemur þad til, ad Christi Daude var so dyrmætur i Guds Auglite, ad Lausnargialld Syndugra Manna vard eige med ødru mote loked?

Hugleid, ad þad sem syndugt Holld hafde tilunned, þad vard af syndlausu Hollde ad endurgialldast, þo med þvi mote, ad þad være komed af þvi sama Hollde, sem syndgad hafde; **Holld** kalla eg hier bæde Sal og Likama, eins og Ritningen þad optlega kallar, so sem Gen. 6. v. 12. **allt Holld hafde fordiarfad sinn Veg**; þad eru aller menn; Nu tok Christur uppa sig Adams Holld, af hverium Jomfru Maria var kommen; enn

(q) Joh. 3. v. 16.

enn hanns Holld, Þad er hanns Mandom-
ur, Lif og Sal, voru syndlaus, hrein og
oflekkud, og þo do hann fyrer alla sina Brædr-
ur; þad er alla Adams Nidia, saklaus
og Heilagur.

Var þad nog til ad fullnægia GUds Rettlæte, ad
einn heilagur Madur skyllde deya fyrer alla
Synduga?

Eingannveigenn: þvi GUDS stranga
Rettlæte kunne eingenn ad fullnægia, nema
GUd, og þvi hefur hanns eingetenn Son-
ur, sem er sannur GUd, Fødurnum og
Heilögum Anda ad öllu samiafn, a sig teked
Manndomlega Natturu, so sem Sal og Lik-
ame eru ein Persona, og su sama Persona,
Christur, hefur lided fyrer allar Veralld-
arennar Synder, til ad forlika Mannenn
vid hina Heilögu Guddomsens Þrenningu,
Ja sialfur vid sialfann sig; ad einn Heilag-
ur Madur af Adam komenn, hefur viliug-
lega lided fyrer Heimsens Synder, þad velld-
ur þvi ad Lausnargialdded tilheyrer öllum
þeim sem af Adam komner eru, og koma
munu, so sem være þad af þeim golldet:
Enn fyrer þvi, ad GUd leid i sömu Per-
sonu med Manndomenum, þa er þetta Giallded
so dyrmætt, ad GUd hefur teked þad fyr-
er fullt i gegn öllum Veralldarennar
Syndum, ad eingenn Manneskia munde
fy-

ſtyrkſaraſt, ef aller tryda rettelega a Chriſt-
um: Og hier ſier þu, medal annara, ad
hin Onnur Guddomſens Perſona er ſam-
jøfn Fødurnum; þvi nema ſo være, þa
hefde þetta Lauſnar gialld eige vered Jafnvæ-
ge hanns Hatignar.

Hvernenn ødlaſt menn, þeſſa fullkomnu Tru a
Chriſtum, ſem þu hefur umtalad?

Pad mun eg ſegia þier i epterfylgiande
Grein.

# Pridia Greinenn.

Eg true a Heilagann Anda, heil-
aga almennelega Chriſtne, Sam-
neyte Heilagra, Fyrergefning Synd-
anna, holldſens Uppriſu, og eiliſt Lif
epter þetta Lif.

Pu hefur ſagt, ad H. Andevære hin Pridia Gud-
domſens Perſona; eru eige Fader og Sonur
eins Heilager, og eru þeir eige og Ande?

GUD er einn Andeſeger Johannes
(r); þad a adſkiliaſt um alla Guddomſens
Prenningu: Pad er um einn Gud i Prenn-
ingu, og Prennann i Einingu; enn hin
Pridia Guddomſens Perſona nefneſt þeſſ-
vegna Ande ſier i lage, ad hann fyrer alla
Eiliſd, (med orannſakanlegu mote) framm-
geingur

(r) Joh. 4. 24.

geingur af Fødur og Syne; Enn Heilagur Ande kallast hann eige einasta þar fyrer, ad hann er i sialfum sier Heilagur, eins og Faderenn og Sonurenn, helldur vegna sins Embættes, sem er ad Helga oss: þvi so sem Faderenn kallast Skapare, Sonurenn Endurlausnare, so er og H. Ande Helgare kalladur; þvi hann hefur helgad oss, og daglega helgar alla þa sem hann medteked hafa, og vilia leidast af honum.

Hvad er þad ad Helga?

Þu hefur heyrt ad Madurenn er getenn og fæddur i Syndenne, er saurugur og Vidurstyggelegur i Guds Auglite, þad er: hann er, Ohelgur, Barn Reidennar (s) og Guds ovinur (t), þegar hann fædest i Heimenn holld af hollde (u); Enn i Skijrnenne endurgetunst vier fyrer Krapt Heilags Anda, hver ed samteingest Vatnenu, fyrer Orded, med hveriu vier skijrder verdum, og verkar þad, ad Manneskian, daud i Syndenne, endur fædest til Andlegs Lifs, og medtekur Andlegar Gafur, sem eru þessar:

1. Skilningurenn, sem af Natturunne

(s) Eph. 2. v. 3. (t) Rom. 5. v. 10. (u) Joh. 3. 6.

urunne ecke kann adskilia hvad Guds Anda er (x), hann upplysest, so hann getur þeckt GUD sier til Saluhialpar. 2. Viliennn sem er rangsnuenn og Gude fraleitur, hann lagfærest, og Verdur hæfur til ad hlydnast honum. 3. Verkar hann i oss Truna a Christum, fyrer hveria Madurenn alleina verdur rettlatur fyrer Gude (y). Þetta verkar nu H. Ande i Skijrnenne, hvad vorum Natturlegum Kroptum er omøgulegt, og þvi seger i Lutheri Utleggingu: Eg true ad eg gete eige, af sialfs mins eigenn Kroptum, edur Skilninge, truad a JEsum Christum, minn Drottenn, edur til hans komest; helldur hefur Heilagur Ande mig, fyrer Gudspiallanna Kenningu, kallad, upplyst og helgad, med sinum Astgiofum. Frammveiges, þegar vier so skijrder erum, endurnyar hann oss, og uppvekur i oss Krapta endurgetningarennar, hveria hann fyrst innplantade i Skijrnenne: Hier um verdur greinelegar talad i Utleggingunne yfer Skijrnar Sacramented.

Hvar

(x) 1. Cor. 2. 14. (y) Rom. 3. 28.

Hvar med gierer hann þad?

1. Þegar hann tilbyr Hiortu vor Syndugra Manna, til sannarlegs Heilagleika, þar hann verkar i oss Jdranena, med þvi: ad kenna oss ad þeckia Syndena, aminna oss, straffa oss, hræda oss med Hotan GUds Reide, ad dæma oss, so vier þeckiun ad vier høfum til eilifs Dauda og Fordæmingar unned; og i hvert sinn er vier finnum til vors Overdugleika, þa er þad hanns Verkan. 2. Þegar hann hughreyster þau Hiortunn, sem eru sundurmarenn af Þeckingu Syndanna, og Tilfinningu GUds Reide, rettlætter Syndarann fyrer GUds Dome, med þvi: ad hann (Syndarenn) truer ad sier verde Syndernar tilgefnar fyrer Christi Forþienustu, og huggar hann þannenn, nær hann berst vid skelfda og veika Samvitsku. 3. Þegar hann med sinum Jnnblæstre hneiger Viliann til ad giora þad sem GUd hefur boded, og til ad betra sinn Lifnad; so nær oss flyger eitthvad þvilikt i Hug, þa vitum ad slikt er eige af Natturunnar Kreptum alleina, helldur af þessum Helgande Krapte Heilags Anda. 4. Þegar hann i Krossburdenum styrker oss, og hialpar Mattleyse voru,

vorli, so vier tøkum med Polennmædi mote Guds Hyrtingu. 5. Þegar hann i Medlætenu dempar i oss vondar Girnder, ad vier ei fremiuun visvitande þad sem Gude er i mote og varnar vid þvi, ad vier follum i holldlegt Andvaraleyse. 6. Þegar hann Verkar þad i oss, ad vier erum heiter i Bænenne, og bidium med fullu Trauste, um þa hlute, sem oss aridur, hellst i Andlegum Efnum; og hialpar oss til ad bidia, sem eige vitum hvers vier bidia eigum; og þar ad auke bidur hann fyrer oss med oumrædelegum andvorpunum, so sem Paulus vottar (z). Og i ollu þessu er Helgun Heilags Anda innefalenn; med hverre hann leider oss til hinnar sonnu Osynelegu Christelegrar Kirkiu, sem alleina er Samneyte Heilagra, þad er retttruadra GUds Barna. Gud Fader hefur skapad oss; Guds Sonur hefur endurleyst oss; enn forgefens værum vier skapader, forgefens endurleyster, nema H. Ande hefde helgad oss. I Christi Dauda og Pinu er oss tilbued allt þad vier þurftum til Endurlausnarennar; Enn saa Fiarsiodur var hulenn, nema H. Ande hefdi upplyst oss til ad þeckia hann, og til ad færa oss hann i Nyt; þvi sagde End-

I urlausnar-

(z) Rom. 8. v. 26.

urlausnarenn (a) vid sina Læresveina: Pad gagnar ydur, ad eg fare til Fodursins, þvi nema eg fare til Fodursins, þa kemur eige Huggarenn til ydar, enn nær hann kiemur mun hann leida ydur i allann Sannleika. Þar af sier þu ad Christur hefur sied, ad vier þyrftum H. Anda med, jafnvel þott hann legde ut fyrer oss Lausnargialldet: Pannen er GUDS Radstofun um vora Velferd; hveria vier skilium eige fullkomlega, enn eigum þo ad trua þvi, sem oss er opennberad þar um, i Ritningunne.

Hvar fyrer verdur þess geted i þessare Grein eg true Christelega Kyrkiu?

Christeleg Kyrkia, sem hier um talast, er Sofnudur retttruadra Guds Barna, er trua a Gud Fodur, Son og H. Anda, med soddan Tru, sem eg hefe þier adur sagt; Enn þessvegna nefnest hun i þessare Grein, ad þu skuler styrkia Tru þina þar vid, ad þu siert i Guds Christne inntekenn, fyrer Heilags Anda Helgan, og siert þessvegna vissum þina Saluhialp, nær sem þu deyr.

Eru þeir þa aller Christner, edur i Christelegre Kyrkiu, sem eru skirder, kunna Bodordenn, og trua þvi þu hefur sagt um þessar Þriar Guddomsens Personur?

Langt er fra þvi. Par eru marger, sem nefnast Christner, af þvi þeir eru skirder, enn

(a) Joh. 16. v. 7.

enn motstrida þo Heilögum Anda, sem þeim i Skiirnenne veittur er, og lata hann ei vid sig rada, i þvi, ad rækia Guds Ord, og dempa Holldsens Girnder, sem eru: Skamm-er og Lester, Agirnd, Ofund, Dramb-seme, Rogur, Lyge, og allt þad sem er a moti Guds Vilia, og þu hefur heyrt i Bod-ordunum upptaled; þvi er eige med þessum Ordum: Christeleg Kyrkia, meint ein Sokn, eitt Hierad, eitt Land, sem kallar sig ad trua a Christum; helldur øll Guds Børn, sem a hann rettelega trua, hvar hellst sem þau eru i Heimenum, jafnvel þott hvert-ugt þecke annad, edur vite af ødru. Þetta er su Christelega Kyrkia, sem i þessare Grein umgetur, enn eige allur sa Almuge, er þu fyrer augum sier, og sig Christenn kallar.

Hvad er þetta: Samneyte Heilagra?

Þad er eckert annad enn Utlegging yfer þesse Ord: Christeleg Kyrkia. Samneyte Heil-agra er Samfelag þeirra, sem a Gud rettelega trua, rækia hans Bodord, elska hann, og trua a Christum, epter þvi sem adur er sagt. Hid sama Christeleg Kyrkia, hveria H. Ande kallar, samansafnar, hvar sem hun er i Heimenum, og i rettre Tru til JEs-um Christum vardveiter, so sem Luther-us seger i Utleggingunne yfer þessa Grein.

Hvernenn get eg þeckt þa, sem eru i sama Bæ, somu Sokn, og sama Lande, eins og eg, hvert þeir hafa Heilagann Anda, edur ei?

Christur sagde (b) af þeirra Avøxtum skulud þier þeckia þa, þad er: af þvi sem þeir giora og tala, þvi ecke kann ein manneskia leingra ad komast; Enn skiptu þier eige so miked af ødrum, siadu helldur til þess, ad þu siert sialfur i Christelegre Kyrkiu, og þeirra Samneyte sem eg hefe adur utmalad; þad kanntu alltid ad þeckia.

Hvernenn a eg ad vita þad, ad eg sie i Christelegri Kyrkiu, edur Samneyte Heilagra?

Þesse eru Teikn þess. 1. Ef þu elskar Gud og hanns Ord, og hefur Girnd til ad heyra þad. 2. Ef þu hefur Glede af þvi, ad þinar Synder sieu straffadar, af hverium, sem þad er; Ef þu hefur Epterlaungun til ad lifa betur, enn þu hefur hingad til lifad. 3. Ef þu reiknar þier eckert til Verdskulldunar, hvad sem þu þykest hafa gott giort, og forsmaer øll þin Verk, hversu god sem þau kunna halldenn ad vera af Monnum. 4. Ef þu reiknar þad eige fyrer smaar Synder, sem almennelega eru halldnar, og ber Liferni þitt daglega saman vid GUDS Bodord, og kostar Kapps um ad leidrietta

þad

(b) Matth. 7. v. 16.

þad sem afatt er. 5. Ef þu forlætur Ovinum þinum af Hiarta, og geimer einga Reide hia þier; til þess ad þu vilier hefna a þeim, jafnvel þott þu giæter.

Eg true Fyrergefning Syndanna,
hvad er þad?

Þad er: ad fyrst Christur hefur vinst fyrer þig, og H. Ande hefur so upplyst þig, ad þu þecker Syndernar, og idrast þeirra, þa veitst þu og ad þinar Synder eru kvittar; nær þu truer a Christum; enn undereins attu ad fyrergefa þinum Naunga, allt þad hann hefur þier mote giørt, ef þu villt hafa þinar Synder kvittar hia Gude.

Þetta er þungt.

Þad verdur þu þo ad giøra, ef þu villt eignast eilift Lif; þvi Fyrergefning Syndanna verdur undan ad ganga; og þvi seger i þessare grein: Eg true Fyrergefning Syndanna, og Eilift Liif.

Getur þa Madurenn eige eignast Eilift Lif, nema hann forlate þeim sem allt illt hafa mote honum giørt?

Eingann veigen.

Syn mier þad af þvi Guds Orde sem þu ert ad tala so tidt um.

Þad skal eg giøra i Utleggingunne yfer þa Fimtu Bæn i Fader Vor.

Legg mier ut þeſſe Ord; Eg true Uppriſu Holldſens.

Holldſens Uppriſa ſkedur a ſidarſta dege, þegar Drottenn JEſus kemur i Skyum Himenſins, til ad dæma lifendur og dauda: Þa munu Salernar aptur ſamteingiaſt Likomum þeirra daudu; Enn þeir ſem þa eru lifande a Jørdu, munu ſnarlega umſkipteleger verda, ſo ſem Paulus vottar (c) Enn aller Menn, lifande og dauder, munu uppriſter verda i Lopted, til mots vid Domara alls Holldz, JESUM CHRISTUM (d), hver ad, epter Manndomenum, hefur Valld þeged, af Gude til ad dæma allt Holld (e); þad er allar manneſkiur: þa munu þeir ſem truad hafa a GUds Son, fyrer Krapt JEſu Chriſti Forþienuſtu uppriſa til eilifrar Glede, og ſidan um Allder Allda med Gude vera; Enn hiner Ogudlegu og Vantruudu til eilifrar Fordæmingar, og pinaſt eiliflega med Dioflenum, og øllum hans Ärum (f).

Munu hiner ſømu Likamer, ſem dou, uppriſa?

Ad viſu hiner ſømu; þvi vier ſkulum aller

(c) 1 Cor. 15. v. 51. (d) 1 Teſſ. 4. v. 17.
(e) Joh. 5. v. 27. (f) Joh. 5. v. 29.

aller birtast fyrer Domstole Drottens, seger Postulenn (g), og þad er rettvist fyrer GUde, ad hinn same Likame, sem madurenn do i, og sama Sal, sem syndgad hefur, edur og gott giort, skule þar epter dæmast (h).

Nu seger þu ad eingenn verde Saluholpenn fyrer þad sem hann gott giorer?

Þad er satt; enn fyrer Guds Dome reiknast þeir ad hafa allt gott giort, sem truad hafa a Christum, og i þeirre Tru eru burtdauder af Himenum: þvi þeirra Synder eru fyrergefnar fyrer hans Forþienustu; og hafe þeir nockud gott giort, þo þad sie ofullkomed, þa verdur þad fullkomnad fyrer hina somu Christi Forþienustu.

Nu heyre eg þo, ad madur skal standa Reikning af hveriu onytiu Orde i Domenum, hver mun þa holpenn verda?

Þad er satt; enn þegar eg a ad standa Reikning af Ordum og Verkum i Domenum og verd adspurdur: hefur þu ottast og elskad GUd, sem bored hefur? hefur þu eige lagt hanns Nafn vid Hiegoma? hefur þu helgad hanns Hvilldardaga? og so frammveiges; þa ma eg svara: Eckert hefe eg giort af þvi sem GUd boded hefur, so sem ber, enn þra-lega þad hann bannad hefur; enn eg hefi tru-



(g) Rom. 14. 10. (h) 2 Cor. 5. 10.

ad a hann sem Logmaled hefur uppfyllt, og med sinne Forþienustu rettlætt mig ranglatann. Og mun su Afbotun ad fullu gyllda fyrer GUds Dome.

Hvernenn er þad mogulegt, ad þeir Likamer Daudra Manna, sem verda Fiskunum, (hverier aptur verda af Mønnum etner) og Villu-dyrum ad Fædu; edur þegar Madur Mann etur, ad þeir somu, sege eg, kunne upp-aptur ad risa?

Þad sem omogulegt er fyrer Mønnum, þad er mogulegt fyrer Gude (i). hvernen var þad mogulegt ad GUd kynne ad skapa alla Hlute af eingu, og þu truer þo þvi, fyrst GUd hefur þad talad i Ritningunne; þvi skyllder þu ecke hinu trua, sem Gud hefur og opennberad i somu Ritningu. Ogef nockrum þyker þad omogulegt, ad Likamer Frammlidenna uppise, þa horfe hann a sialfa Natturuna, hvernenn Drottenn umbreiter þeim synelegu og þreifanlegu Hlutum, so ad sumer verda ad aungvu fyrer vorum Augum, og þo varer og vidhellst þad Efne, sem þeir voru giorder af; annars yrde Verolldenn tom, ef þad forgeinge og yrde ad eingu, sem þeir Hluter voru giorder af, er vier sia-um

(i) Matth. 19. 26.

um eydast: so sem Vatned, nær þad þorn-
ar; Jordenn, er hun blæs og eydest; enn
hvar þad lender, edur hvad af þvi verdur,
veit sa einn, sem Natturuna skapad hefur;
þvi skyllde hann þa vanta Visdom til ad þeck-
ia hvad af Mannsens Likama verdur, edur
Matt til ad safna hønum saman aptur, og
ad skilia sierhvers eins Likama fra ødrum
Hlutum, i hverium hann bued hefur allt
til Uppriisu timans. Paulus hefur eitt a-
giætt Dæme her um (k) er hann seger: **Þu
vitfirringur, þad þu saer, lifnar eige,
nema þad deye,** i hverium Ordum ad
hann ei meinar, ad Uppriisa framlidenna
sie ad øllu lik Sadverkenu; helldur syner
hann, ad nockud þvi lijkt sie i Natturu Hlut-
anna; og er þetta Dæme miøg agiætt, þar
alleina Korned verdur nidur sad, og þad
funar i Jordunne, þar til, ad þess Rotnan
verdur ad annars Uppriisu, med langtum
meira Averte, enn þegar þad sad var; og sa
sem þad alldrei heyrt hefde, hann munde eige
sidur undrast þar yfer, helldur enn yfer
Uppriisu Frammlidenna, og er margt þvi-
likt i Natturunne; enn fyrer þvi, ad þad sked-
ur daglega fyrer vorum Augum, þa finnst
oss eige þar til, so sem nockurskonar furdu-

J 5 verks,

(k) 1 Cor. 15. v. 36.

verks, jafnvel þo vier eige skilium, hvernenn þad tilkemur; enn vier høfum eingann síed uppriísa, þvi sýnest þad sumum furdanlegt; Enn eg vil segia: þad er eingu meira Kraptaverk ad uppvekia Dauda, enn ad lata Mann fædast af Manne. Ad sídurstu er þad stor Favitska fyrer Christna Menn ad efast um Uppriísuna, þar þeir trua ad Christur sie uppriísenn, og hafe uppvaked hina Daudu a sínum Hiervistar døgum; enn um þann er þvi eige truer, um hann vil eg segia med Paulo (l) ad hann sie enn þa i sínum Syndum.

Hvers vegna verdur Eilifs Lifs geted i þessare Grein Truarennar?

Þviad vor Saluhialp fullkomnast fyrer Krapt og Verkaner H. Anda. Forgefens værum vier skapader, nema vier værum Endurleyster, so sem adur er sagt, og forgefens Endurleyster, nema vier og værum Helgader fyrer Anda Drottenns, hvern Christur hefur sendt oss af sínum Fødur, til ad leida oss i allann Sannleika: þad er ad kienna oss ad þeckia GUd vorn Skapara, JEsum Christum vorn Frelsara, og sialfann sig, sem er vor Helgare og Huggare, og vor Talsmadur hia Fødurnum. Þessa fullkomn-

an

(l) 1 Cor. 15. v. 17.

an vors Saluhialparverks utretter H. Ande, þar med, ad hann Endurfæder oss i Skirnenne; hvar vier verdum medtekner i Guds Sattmala, upplyser oss, verkar i oss Idranena, Truna og Astundan til Gódra Verka, og þannen leider hann oss til Sam neytis Heilagra hier i Life, sem er hin sanna Christelega Kyrkia; og nær vier hiedan forum, safnar hann oss til hinnar Sigre hrosande GUds Kyrkiu a Himnum, hvad ad er hid eilifa Lif, sem um er geted i þessare Grein; hveriu aller menn eiga ad trua, og epter þvi ad vænta, hversu illt sem þeir lida meiga i þessum Heime; og fordast ad hryggia Heilagann Anda, med Vantru, Hirduleyse, edur vondum Verkum; so þeir misse eige þetta Lif, sem þeim afrekad er med Guds Sonar Blode, og um hvert GUds Ande giorer alla þa vissa, sem ecke motstanda honum.

Hvilikt er þetta Eilift Lif?

Pad er so ogripanleg Sæla og oumrædelega mikel, ad þar fær eingen Syndug Tunga Ordum ad komed, og eckert Hugskot so imyndad sier, ad þad kome i nockurn Samjöfnud vid hennar Yferburde; þvi seger Paulus (m): Ad þad hafe ecke

Auga

(m) 1 Cor. 2. v. 9.

Auga sied, og ecke Eyra heyrt, og ei hafe þad i nockurs mans Hug edur Hiarta komed, hvad Gud hafe þeim tilbued, sem hann elska. Og hann sem var uppnumenn i Pridia Himen, hann segest (n) hafa heyrt þar outsegianleg Ord, sem eingenn Madur fae uttalad; og Petur kallar þad oumrædelegann Fognud. Og i einu Orde ad segia: um þessa Dyrdarvist verdur ei talad med ødru mote, enn med þeim Ordum, sem H. Ande sialfur hefur lagt Spamønnunum og Postulunum i Munn, sem er: Ad vier munum sia Gud Auglite til Auglites (o); vier munum verda Einglunum iafner (p); og samliker JEsu Christi Dyrdlegum Likama (q); vier munum skijna sem Sol i Rike voks Fødur (r); þar mun eingenn Villa verda i Skilningenum, helldur munum vier þeckia, so sem vier þeckter erum; enn Viliann mun aldeilis Heilagur verda, og ecke annad girnast, enn ad gledia sig i Gude, og dast ad hanns Vegsemd; þvi Paulus seger um JEsu Brude, sem er hans Sigrehrosande Christni

(n) 2 Cor. 12. 4. (o) 1 Cor. 13. v. 12. (p) Matth. 22. 30. (q) Phil. 3. v. 21. (r) Matth. 13. v. 43.

Christni a Himnum, ad hun sie Dyrdleg, hafande hverke Fleck nie Hruckü, edur nockurt þvilikt (s). I einu Orde ad segia: þo allt veralldlegt Medlæti mætte hladast a einn, og hann mætte breita til hvern Dag, epter þvi sem hann villde fyrermæla, þa være þad Motlæte ad reikna, hia þessare Elifu Þyngd Dyrdarennar (t); hvad audsied er af þeim, sem hafa yfergefed allann timanlegann Munad, og þolad herfeleguftu Pijsler, i þeirre von, ad ødlast hana; þvi ef Fangelsed er þannen, hvilikt mun þa Riked vera?

Hvernenn get eg orded hluttakande þessarar Sælu?

Med þvi mote sem adur er sagt, ad þu truer a Gud, og þann, hann sende, JEsum Christum (u), og later stiorna þier af Heilogum Anda, til ad giøra þad sem Gud hefur skipad i Løgmalenu, epter þvi sem þier er mogulegt.

Hvernenn fæ eg þad giørt, þar eg er hneigdur til alls ills?

Þad fær þu giørt med sifelldre Astundan, og alvarlegre og heitre Bæn til GUDS, þvi an hans megnar þu eckert (x).

Hvern-

(s) Eph. 5. 27. (t) 2 Cor. 4. 17.
(u) Joh. 17. 3. (x) Joh. 15. v. 5.

Hvernen a eg þa ad bidia?

Þad kenner eingenn so vel, sem JEsus, þinn Endurlausnare, med þeirre Bæn, er hann kiende sinum Læresveinum ad bidia med (y), hveria þu kannt, og heiter Drottennleg Bæn, i hverre allt þad er innefaled, sem vier þurfum ad bidia GUd um, bæde Salar og Likamans vegna.

Eg skil eige þessa Bæn, legg mier hana ut?

Þad skal eg giora, epter þvi sem eg rettast veit, af GUds Orde.

Les hana þa.

Fader vor, þu sem ert a Himnum, helgest þitt Nafn; tilkome þitt Rijke; verde þinn Vilie, svo a Jørdu sem a Himne; Gief oss i Dag vort daglegt Braud; og fyrergef oss vorar Skullder, so sem vier fyrergefum vorum Skulldunautum; og eige leid þu oss i Freistne; helldur frelsa oss fra Illu.

Þu hefur i Tveimur fyrerfarande Pørtum Christelegs Lærdoms heyrt hvad þu skyllder giora af Bodordunum, og hvad þu skuler trua af þeim þremur Truargreinum.

Enn

(y) Luc. 11, 2.

Enn fyrer þvi ad eingenn kann Bodorden ad hallda fullkomlega, sokum Veikleika Holldsens; enn Diofullenn astundar Dag og Natt ad stela Ordenu ur vorum Hiørtum, so ad eige skulum vier trua og verda Holpner (a); og þar ad auke er Heimurenn, hver ad er Satans Pienare og Eyrendes reke, i þvi, ad spilla vorre Saluhialp a allar Lunder, med illum Dæmum, sinum Fortolum, og Underferle; enn vor Syndumspillta Nattura er hneigd til alls hins illa; þa er þad vist, ad vier a eingann hatt faum Motstodu veitt þessum, so sterkum og slægum, Ovinum; nema vier niotum Kraptar af Hædum, fyrer hanns Skulld, sem Heimenn hefur sigrad, og dæmt, og utkastad Heimsens Hofdingia, JEsu Christi; þvi er' oss einsætt og omissandi ad þreita yduglega vid GUd med Bænenne, ad hann vilie vera Kroptugur i vorum Breiskleika, so vier faum Motstodu veitt, og Sigrenum hallded; Enn fyrer þvi, ad þad athugar eige hver madur, hversu omissande ad Bænen sie, þa vil eg med fam Ordum syna, hvad oss eige ad hvetia til ad ydka hana kostgiæfelega.

Seg

(a) Luc. 8. 12.

Segmier, hvad er þa þad hellsta?

1. Eitt hefe eg sagt allareidu i nærst fyr-erfarande Grein, sem er: ad omegulegt er Dioflenum, Holldenu og Heimenum ad motstanda, an Bænarennar. 2. Annad er þad, ad Gud hefur sialfur skipad, ad bid-ia sig, so sem allvida ma i Ritningunne lesa; þvi ad bidia, þad er, ad akalla Guds Nafn; og þvi er Bænen ein Grein af þeirre Guds Nafns Dyrkun, sem oss bod-en verdur i hinne Fyrre Bodorda Toblunñe; so ad hann sem hana forsomar, hann synd-ar storlega þar a mote, og þad i stryd vid sialfann sig; þvi hann ræner sig þeim Astgiøfum, sem Gud munde honum annars veita: þar fyrer skalltu eige lata nockurn Hlut hindra þig fra ad bidia; og eige þinar eigenn Synder, hversu storar sem þær eru; þvi hann hefur skipad øllum sig ad bidia, og sagt (b) fortakslaust, ad **hvern sem til sin kiæme, vilie hann eige fra sier reka:** Enn þu kannt ecke ødruvise til hanns ad koma, enn i einne audmiukre og idrande Bæn; og þess syndugre sem þu finnur þig ad vera, þess meire þørf hefur þu ad bidia: þvi hia honum einum er Fyr-ergefning Syndanna, **um hveria** jafnvel aller

(b) Joh. 6. v. 37.

aller heilager þurfa hann ad bidia (c). Ad sönnu voru Petur og Pall miklu heilagare enn þu; enn GUds Bodord er eins heilagt fyrer þig, sem þa; og Gud lijtur ecke i Bænenne til Mannsens Heilagleika, helldur til sins Bodords, og til Christi Forþienustu, i hvers nafne bæde Rettlater og Synduger bidia hliota, ef þeir skulu bænheyrder verda: þar fyrer skalltu og eige Bæn þina litels virda, nær hun framkemur af truudu Hiarta, og gloande Anda; eige vegna nockurrar þinnar Forþienustu; þvi hun er eingenn i þessu, helldurenn i Ollmusu giordunum, edur ødrum Godum Verkum, sem GUd hefur boded; helldur þessvegna, ad GUd hefur skipad þier ad bidia, og ad dyrka sig med Bænenne, so sem þesse Davids Ord lioslega votta (d): akalla þu mig i Neodenne, eg skal bænheyra þig, enn þu skallt vegsama mig. Vit þvi fyrer vist, ad Gud hefur þier eckert boded, sem eige verde þier ad Synd, ef þu þad forsmaer, enn til Rettlætes reiknad, ef þu þad giorer i Trunne, og af Hlydnenne vid GUd; Og þo Truen sie veik, og Andenn eige so heitur sem þu villder, þa lat

K þier

(c) Psal. 32. v. 6. (d) Psal. 50. v. 15.

þier nægiaſt hanns Nad, hanns Kraptur er i breiſkum mattugur (e); og þar ad auke ſeger Paulus oſſ (f): Ad Andenn (þad er heilagur Ande) hialpe Mattleyſe voru, og bidie fyrer oſſ, med oumrædelegum Andvørpunum: þar fyrer mattu, i Krapte þeſſa Bodords, ohræddur framkoma fyrer Gud i Chriſti Forþienuſtu Nafne, til ad bidia um hvern Hlut, ſem þier aridur, og eige er GUDS Vilia a mote, efande um eckert (g); þvi hefde hann ei viliad þig bænheyra, munde hann alldrei hafa ſkipad þier ad bidia. 3. Pad þridia, ſem oſſ a ad knya til ad bidia, eru Guds Fyrerheit, þar hann ſeger (h): Akalla mig a deige Neydarennar, og ſkal eg frelſa þig, enn dagur Neydarennar er hvern Dag; þvi alldrei erum vier ohullter fyrer ovinum vorum; Og Chriſtur ſeger (i): Bidied og munud þier odlaſt. Pvilik Fyrerheit eru opriotande i Heilagre Ritningu: Skyllda eg þa hata ſo ſialfann mig og Salu mina, ad eg eige legde allt Kapp a ad bidia hann um þad mig

(e) 2 Cor. 12. 9. (f) Rom. 8. v. 26.
(g) Jac. 1. v. 6. (h) Pſal. 50. v. 15.
(i) Matth. 7. v. 7.

mig naudsynia, bæde i Andlegann og Lik-
amlegann Mata, sem eg veit, ad so er Matt-
ugur, ad hann getur veitt mier alla hlute;
so Vis, at hann veit hvad mier er fyrer
bestu; so Halldennordur, ad fyrr meiga Him-
en og Jørd forganga, enn ad eitt hanns
Ord bregdest; þvi hann er Trur, sialfum
sier kann hann eige ad afneita; Og so er
hann Giæskurikur, ad hann hefur lofad,
ad hvers eg bid, vilie hann þad bæn-
heyra (k). Truer þu nu eige þessum Guds
Fyrerheitum, þa haf þad fyrer satt, ad so
sem þu giører stora Synd i þvi, ad bidia
ecke, so giører þu hønum enn þa stærre Ori-
ett, i þvi, ad trua ecke þvi, hann lofad hef-
ur; þar hann segest vilia bænheyra þig, og
þu væner hann Lyge, med sliku Vantrauste.

Nu veit eg ecke hvernenn eg a ad bidia, so sem eg hefe þier adur sagt?

Eg hefe sagt þier og adur, ad þad kenner
eingenn so vel sem Christur, i Drottenlegre
Bæn; og þad ma hvad mest styrkia þig i
Trunne um Bænheyrsluna, ad hann hefur
ad fyrra bragde lagt þier Ord i Munn,
hvernenn þu skyllder bidia; so nær þu les
þessa Bæn, med godum Skilninge, og med
Truudu Hiarta, og Hlydne vid Gud, þa

K 2 kann

(k) Joh. 16, 23.

kann þin Samvitſka alldrei ad efaſt um, ad þu hafer rettelega beded. Sa ſem vill bidia, hann ſkal vita hvern hann bidur; þad er hier tilteked med þeſſum Ordum: Fader vor, þu ſem ert a Himnum. Hann ſkal þeckia ſina Neyd og Angiſt, og Þerf ſina a þvi, ſem hann bidur um, ſo hann verde heitur i Bænenne; þvi eingenn bidur af Alvoru, ſem ei þecker hvad miked hønum riidur a þvi, ſem hann bidur um; Enn a allt þad minner þig Drottennleg Bæn: Og þarftu eige annann Læremeiſtara til ad kienna þier ad bidia audmiuklega, enn hana, ef þu hana rett yfervegar. Sa ſem vill bidia einhvers, hann a adnefna þann Hlut er hann bidur um; þvi þott Gud vite beſt hvers vier vidþurfum, þa vill hann lata dyrka ſig med þvi, ad vier þeckium vora Naud; annars þeckium vier hann eige fyrer vorn Naudhialpara, og ad vier nefnum þad ſem oſſ aliggur, annars gefum vier eige vora Þerf til Vitundar.

Eg þarf þa ad ſkilia vel þeſſa Bæn, þvi bid eg þig ad leggia mier hana ut?

Eg vil fyrſt tala um Formalann, er ſo hliodar:

Fader vor, þu ſem ert a Himnum.

Hvad

Hvad er i þessum Ordum ad athuga?

Fyrst er þad, ad þetta Ord, Fader, merker alla Heilaga Guddomsens Þreñingu: Fødur, Son, og H. Anda; so sem þad merker Devt. 32. v. 6. þar ed Moises seger um alla Guddomlega Hatign: Er hann eige þinn Fader, sem hefur afrekad þig, sa ed giørde og tilbio þig; og Esaias seger (l) Þu Drottenn ert vor Fader og vor Frelsare. Þetta Nafn tilheyrer og med rettu hverre einne Guddomsens Personu sier i lage: Um GUDFødur er sialfsagt, þar Drottenn JESUS kallar hann sinn Fødur, og vorn Fødur; Enn Christum nefner Esaias (m) eilifann Fødur og Fridarhøfdingia, og Cap. 8. v. 18. seger hann under Personu Christi: Sia mig, og þau Børn, er Drottenn hefur gefed mier; hver Ord Paulus (n) þijder uppa Christum; Enn ef vier erum hans Børn, þa er auglioſt ad hann er vor Fader. Heilagur Ande er og vor Fader, þvi fyrst hann hefur Endurgeted oss i Skijrnenne, þa er audvitad ad hann er vor Fader. Þesse Umþeinking gagnar til

 þess,

(l) Cap. 63. v. 16. (m) Cap. 9. v. 6.
(n) Hebr. 2. v. 13.

þess, ad þegar vier komum framm fyrer Gud, i vorn Bænastad, þa skulum vier hugleida, ad vier støndum i Augliti hinnar dyrdarfullu og skelfelegu Guddomsens Haatignar, sem þo er so giæskurik, ad hun vill kallast vor Fader, og vill vera oss lijknsamur, so sem Faderenn er Børnunum myskunsamur (o); hvad med ødru styrker oss um Bænheyrsluna: þvi ef vier, sem vonder erum, kunnum ad gefa Børnum vorum godar Gafur, þvi mun ecke sa Himneske Faderenn gefa þeim Heilagann Anda, sem hann þar um bidia: og vilie hann gefa oss H. Anda, af þvi hann er vor Fader, þvi mun hann þa ecke gefa oss alla Hlute med hønum. J einu Orde ad segia: fyrst hann hefur skipad oss ad kalla Gud Fødur i Bænenne, þa er þad vist, ad hann vill oss bæde andlega og likamlega. Forsorgun veita, so leinge vier erum hanns Børn, og eige med Ohlydne og Yverud af oss briotum þeña Barnarett, eins og einn Fader forsorgar þann Son, er hann kannast vid. Og þott vier, med þessu huggunarsamlega Fødurnafne, alleina averpudum hina fyrstu Guddomsens Personu, þa lender þad allt i sama stad; þvi Faderenn og Sonurenn er eitt

(o) Psal. 103. 13.

eitt (p), og heilagur Ande frammgeingur af þeim badum, og þesser þrir eru eitt, so sem Johannes vottar (q); so ad sa sem tilbidur Fódurenn, hann tilbidur Son og Heilagann Anda: Þo skalltu ætid, nær þu bidur med þessare Bæn, renna Hug þinum til þessarra Þriggia; þu kant og eige annars, þvi hvernenn villtu frammkoma fyrer Gud, nema i JEsu Nafne, sem sagt hefur (r): Hvers hier bidied Fódurenn i Minu Nafne, þad mun hann veita ydur; og hvernenn villtu bidia verduglega, nema Heilagur Ande styrke Mattleyse þitt, og bidie forer þier med oumrædelegum Audvorpunum, so sem Paulus adkvedur (s) þar eingenn kann JEsum, Drottenn ad kalla, nema fyrer H. Anda (t), þad er: ad þeckia hann fyrer sinn Drottenn, sem hann hafe afrekad, endurleyst og frelsad, so hann i hanns Nafne gete fyrer Krapt Arfleifdarennar, þad er Guds Sonar, Anda, kallad Abba (u), þad er Fader.

K 4 Villdu

(p) Joh. 10. 30. (q) 1 Joh. 5. v. 7.
(r) Joh. 16. 23. (s) Rom. 8. v. 26.
(t) 1 Cor. 12. 3. (u) Rom. 8. 15.

Villdu menn þetta hugleida, þa munde ecke so margur hraparlega og galaust lesa Drottennlega Bæn, og giora hina bestu GUds Þionustu, sem er Bænen, ad hrædelegre Synd, vegna Galeysesins, og Hiegomlegra þanka:

Þvi kvedur so ad i þessare Grein: Fader vor?

Þetta litla Ord, vor, er hier eige forgefens sett; þvi 1. minner þad oss a Christelegann Kiærleika, sem eigi sijdst, i þvi auglyseft, ad þegar eg bid fyrer mier, þa bid eg fyrer øllum ødrum, eige einasta Vinum og Naungum, helldur og fyrer Ovinum minum; og er þesse Aminning naudsynleg, þvi eg ma vita, ad eg verd ecke bænheyrdur, nema eg unne øllum Mønnum af Hiarta alls þess, er eg bid sialfum mier i þessare Bæn, og þessvegna stendur sidar i bænenu: Gief oss i Dag vort daglegt Braud; fyrergief oss vorar Skullder; Eige leid þu oss i Freistne, helldur frelsa oss fra Illu. Og fyrer þvi, ad GUD vill, ad øll Christnen, þad er: allt Samneyte Heilagra, skule bidia i einum Anda, þa er Bænen skickud þar epter med þessu Orde, Vor; þvi ef GUD vill bænheyra

heyra tvo edur þria (x) þvi mun hann eige miklu helldur heyra Bæner alls Christelegs Safnadar. 2. þessa Bæn lesa bæde þeir, sem Gude hafa vel þionad, og hiner, sem hafa honum hvad mest a mote giort, enn idrast þo Illgiørdanna; enn þetta Ord, Vor, syner, ad Bænen sie giord fyrer alla: fyrer þa Heilegu, er so heita hia hinum, til þess, ad eige stære þeir sig; Enn fyrer þa Storsyndugu, til þess, ad þeir eige ørvænte sier GUDs Nadar; þvi Bænen er giørd fyrer alla, þar aller þurfa GUds Nadar eins med, og aller verda hennar niotande, sem idrast og vilia lata af Syndunum; Enn þegar eg bid fyrer øllum, þa bid eg fyrer sialfum mier; Enn hafe eg nockud sier ilage fyrer sialfann mig ad bidia, hvert helldur þad er Andlegt edur Likamlegt; þa ma eg þad sier i lage fyrer GUD frambera, jafnvel þott þad sie i þessare Grein innefaled.

Hvad merkia þesse Ord: þu sem ert a Himnum?

Þau minna oss a, ad giøra Adgreining a mille GUds, sem er Fader yfer allt þad sem Born kallast bæde a himne og Jordu (y) og Jardneskra Fedra; hvar

K 5 til

(x) Matth. 18. v. 19. 20. (y) Eph. 3. 15.

til Christur hefur sialfur gefed oss Orsök, þar hann seger (z): Vier skulud ecke kalla Fedur ydar a Jordunne, þvi einn er ydar Fader a Himnum. Enn þetta Ord, Himen, merker eige þann synelega Himen, er vier augum litum, helldur merker þad GUDs Hatignarstol. Hann er eige inneluktur i neinum Stad, eins og skapader Hluter, helldur er hann allstadar; hann er eins vel allur i hinu minsta Sandkorne, so sem ad hann uppfyller Himenn og Jord. Hann er jafnvel fyrer utan Heimenn, so ad hann kann, ef hann vill, ad giora otal Þusund Heima, fyrer utan þenna Heim. Hann er eige langt fra sierhverium einum af oss; þvi i honum Lifum vier, hrærunst og erum vier (a) Þar fyrer merker þetta: ad sa vor Fader, er vier bidium, hann sie Almattugur, Alvis, og allstadar nalægur, og rade øllum Hlutum, bæde a Himne og Jordu, so sem David seger (b): Vor GUD er a Himnum, og giorer hvad hann vill: Og so sem þetta Ord, Fader, þad minner oss a hanns Fødurlega Giæsku, ad

(z) Matth. 23. v. 9. conf. Malach. 1. v. 6.
(a) Act. 17. v. 27. 28. (b) Ps. 115. v. 3.

ad hann vilie hiálpa oss, nær vier hann bidium ; so æninna og þesse Ord: Þu sem ert a Himnum, alla þa, sem bidia þessare Bæn, a hanns Almætte, og guddomlega Forsion, ad hann kunne oss ad hialpa, um allt þad, er vier vidþurfum; þvi fyrer honum er eingenn Hlutur omattugur; So og jatum vier hier med, ad eingenn vite so vel hvad oss gagnar, edur siae so vel fyrer rade voru, sem hann.

Hefur Christur, þa allt innefaled i þessare Bæn, sem vier þurfum ad bidia um, so ad eige þarf fleire Bæna med?

Allt er þad þar innefaled, þo eige sie þad allt a Nafn nefnt. Drottenn seger (c), adur enn hann kende Læresveinunum þessa Bæn; **þier skulud eige stagsamer væra nær þier bidied, eins og Heidingiar, hverier-ad meina, ad þeir fyrer Mælge sina bænheyrder verde;** hvar Lausnarenn ecke meinar langar Bæner; þvi bæde hann og hanns Læresveinar, voru opt leinge a Bænum; og hann sagde þeim Epterlikinguna um Eckiuna, og hinn ranglata Domara, til þess, ad þeir skylldu ydugleg bidia, so sem Lucas adkvedur (d); helldur

(c) Matth. 6. v. 7. (d) Cap. 18. 1.

helldur meinte hann þꝺerf Fiølyrde, og Munnflapur, um þa hlute, sem oſſ gagna ecke, og eige eru GUde til Dyrdar; hvad jafnvel radvander Heidingiar hafa athugad; þar um talar Jacob (e) segiande: þier bidied og ødleſt ecke, af þvi þier bidied illa, ſem er þar til, þad þier ſoed þvi i ydru Vijlife. Og þeſſvegna ſeger Chriſtur (f): Helldur ſkulud þier þanenn bidia, þad er: med þeſſum Hætte, og um þa hlute ſem kunna ad heimfæraſt til þeſſarar Bænar; J hverre ad nefndar eru Hofudgreiner alls þeſſ er þier meiged umbidia; þo ſkulum vier einganveigenn forſma þau Bænarform, ſem annadhvert i Ritningunne ſtanda; þvi Frelſarenn tok ſialfur ſina ſidurſtu Bæn af hinum 31. Davids Pſalme; Eige helldur þær ſem af Viſum og Gudhræddum Monnum eru ſamanteknar, til ad bidia Kvølld og Morgna, og i adſkilianlegum Tilfellum; þvi Johannes kiende og ſinum Læreſveinum ad bidia (g); So eru og þær Bæner GUde hvad þeckaſtar, ſem vor Neyd og Angiſt þvingar ut af Hiarta voru, nær þær eru bygdar a Guds Orde.

So

(e) Cap. 4. v. 3. (f) Matth. 6. v. 9.
(g) Luc. 11. v. 1.

So hliodar hin Fyrsta Bæn.

## Helgest þitt Nafn.

Hvad merker nu þetta Ord, þitt Nafn, i hiñe Fyrstu Bænenne?

GUds Nafn er bæde hans Ord; so og allt þad sem i þvi kent verdur: um Guddomlega Veru og GUddomsens Personur; um hanns Verk; hanns Hattu, sem almennelega kallast Eigennlegleikar, so sem er: hanns Almætte, hanns oransakanlegur Visdomur, hanns Rettlæti, hanns Giædska, hanns Nalægd i ollum Stødum, hanns Myskunseme, hanns Þolennmæde og allt þad sem Gud hefur um sig opennberad i Ritningunne, og viliad Manneskiuna skynia lata, sier til Dyrdar, enn henne til timanlegrar, og eilifrar Velferdar. allt þetta skilst under þvi Orde, GUds Nafn.

Er ecke Guds Nafn heilagt i sialfu sier? þvi skulu menn þa bidia ad þad helgest?

Ad sonnu er GUds Nafn i sialfu sier heilagt, so sem Lutherus seger, so eingenn kann þar a ad bæta, edur fra ad taka: þott oll Verollden lastade Gud, þa er hann eins Heilagur, eins Sæll, og eins Dyrdlegur; enn vier bidium i þessare Bæn: ad þad

helgest medal vor, og verde af oss Helgad.

Hvad er þad ad helga?

Þad er ad giøra og hallda vegsamlegann: þvi byriar þier ad athuga, ad vier bidium i þessare Bæn, ad GUDs Nafn helgest med tvennu mote, medal vor: fyrst ad hann vilie giøra sig sialfann vegsamlegann i oss og medal vor; og i annann mata, ad vier mættum hallda hann vegsamlegann, þad er: Heidra, lofa og prisa hann, med Hiartanu, Munnenum og Verkunum.

Hvernenn helgar edur vegsamar Gud sialfann sig i oss, og medal vor?

Þad giører hann, eige einasta þegar, hann lætur sitt Ord predikast hreint og klart; i hveriu vier meigum þeckia, hversu Dyrdlegur, Rettlatur, Allmattugur og Giæskurikur hann er, og hanns Nafn; og svipter oss eige þessum dyra Fiesiod, sem er hid hrædelegasta Guds Reide teikn, so sem hann sialfur vottar fyrer Spamannsens Munn (h), er hann segest vilia senda Hungur i Landed, ecke Hungur Vins og Brauds, helldur sinna Orda; helldur og einnenn þegar hann audsyner sig þvilikann ad vera, sem hann sig opennberad hefur i sinu H. Orde;

(h) Amos 8. v. 11.

H. Orde; þvi ſo tekur Ritningen til Ords, ad GUD helge ſig og ſitt Nafn, þegar hann berlega auglyſer, annadhvert Rettlæte, Magt, edur Godgirne ſina: þegar Drottenn ſtraffade Aarons Sonu, Nadab og Abihu; þa ſeger hann (i) Eg ſkal helgaſt i þeim, ſem mier eru nærſter. Og hia Eſaias (k) epter þad hann hefur hotad Gydingum Reide ſinne, tekur hann ſo til Ords: Drottenn mun uppheſiaſt i Domenum, og hinn Heilage mun helgaſt i Rettlætenu. Og hia Ezech. (l) ſeger hann um ſina Godgirne vid Juda: Eige vegna ydar, helldur vegna mins Heilaga Nafns, vil eg þad giora. Eg ſkal helga mitt mikla Nafn, ſo ad þiodernar vite, ad eg er Drottenn, þegar eg verd helgadur i ydur, fyrer þeim. J Pridia mata helgar GUD ſig ſialfann i oſſ: þegar hann verkar i oſſ Heilagleikann, eige alleinaſta med þvi, ad tilreikna oſſ Chriſti Forþienuſtu, fyrer hveria vier alleina reiknumſt Heilager, nær vier truum, ad oſſ verde fyrer hennar ſkulld Synd-

(i) Lev. 10. 3. (k) Cap. 5. v. 16.
(l) Cap. 36. 22. 23.

Synndernar fyrergefnar; helldur og verkar hann i oss heilagt Lijferne, Gudrækelega þanka, og Hræringar i Hiartanu, af hverium frammkoma Ord og Verk, sem Gude lijka, af þeim, sem eru i hans Vingan, þott þau sieu ofullkommen; og þad verkar hann fyrer H. Anda, sem oss verdur veittur i Skijrnenne; og so vidhelldur og efler þetta daglega, so ad hanns Nafn ei verde saurgad og vanhelgad i oss, edur medal vor.

Hvernenn kunnum vier Manneskiurnar ad helga GUds Nafn?

Þad skedur med tvennu mote: fyrst þegar vier tokum a mote og samsinnum hinne sonnu og hreinu GUds Orda Kenningu, so sem hun er opennberud i Ritningunne, og af henne rettelega utdreigen og oss fyrersett, utmalud af GUds Ords Þienurum, sem oss eiga ad underviisa i Ordenu; og eige einasta medtokum hana, og truum ollu þvi sem af Gude sagt verdur þar inne; helldur og geimum þad i godu og sidsomu Hiarta, ellkum og virdum þad um framm alla Hluti og hugsum þar um ydduglega, og astundum ad fara daglega varande i GUds Kynningu, og þad heiter ad helga Gud i sinum Hiortum, so sem Petur bydur oss i sinum Fyrra Pistle (m) og þar ad auke logum vorn Lifnad

(m) Cap.3.v.15.

epter

epter því sem vier heyrum og truum, það er: að vïer astundum það, sem GUð hefur skipað i Boðorðunum, af fremsta Megne, forðunst það hann bannað hefur: og það kallar Paulus að vegsama GUð i sinum Likama, og i sinum Anda, sem er hið sama, og að helga hann; so að vier, með Christelegu Frammferde, leiðum aðra til að prisa GUð, epter Boðe Frelsarans, er hann seger (n): so lyse yðar Lios fyrer Monnunum, að þeir siae yðar Goðverk, og dyrke yðvarn Foður, sem a Himnum er.

Hvernenn kunnum vier að vanhelga GUðs Nafn, sem að er so heilagt i sialfu sier?

Það er auðsieð af því sem aður er sagt um Helgunena, því hitt er því rettlinis gagnstæðt. Guðs Nafn vanhelgast: 1. Nær hanns Nafn er vanbrukað með Eiðum, Formælingum, Fiolkynge, eður a einhvern hatt lagt við Hiegoma, so sem þu framar siá kannt i Utskyringunne yfer hið Annað Boðorð. 2. Þegar þeir, sem Christner kallast, og eiga að heita Guðs Folk, lifa þvert a moti Guðs Boðe, verr enn Heiðingiar; forsma hanns Orð og Predikun; eru Forelldrunum, Kennendunum og Yfervallds-



(n) Matth. 5. 16.

eyvalldenu ohlyduger, Heiptræker, Losta=samer, Agiarner, Bakmaluger, og leika sier ad slikum Syndum: þviad ut af þessu Ogudlegu Athæfe taka þeir Vantruudu sier Orsok til ad lasta GUds Nafn, og meina ad, hann sie ei vandur ad sins Folks Lifernis hatt=um; þvi seger Paulus vid Gydingana i Rom (o) (þeir ed hrosudu sier af Logmalenu, og kendu odrum þar epter ad lifa, enn sialfer vanvirdtu þeir Gud med Logmalsens yfer=trodslu) hann seger: **ad fyrer þeirra skulld verde Guds Nafn lastad med=al Heidingianna;** þar fyrer skipar hann og Þrælum þeim, sem vid Christne teked hofdu, enn voru þo under Oke Heiding=ianna, **ad þeir skule hallda sina Drott=na alls Heidurs verda, so ad Guds Nafn og Lærdomurenn ei lostud verde** (p). 3. Verdur Guds Nafn Van=helgad, þegar menn hafa rangar Meining=ar um Gud, og hanns Nafns Dyrdkun, þvert a mote þvi sem hann hefur off þad opennberad i Ritningunne, og giora þad i hanns Nafne, rangfærande hanns Ord þar til; hvad ad er hinn stærste Oriettur, og hin herfelegasta Sman, i gegn Gude. Þetta giora aller Villumenn, og þeir sem fara med rangar Kenningar. Þu

(o) Rom. 2, 23. (p) Tit. 2. v. 9. 10.

Þu ſagder i Utſkyringunne yfer Formalann ad Drottennleg Bæn minnte oſſ a allt þad vier bidia þurftum; hvernenn minner mu þeſſe Grein mig þar a?

Þad ſkeder med þeſſu mote: ad nær þu hugleider med þier, ad þu daglega vanhelger GUds Nafn med Hiartanu, Tungunne og Verkunum; þvi hver kann ad ſegia: Mitt Hiarta er hreint (q); edur hver er hann, ſem ad eige raſe med Tungu ſinne, eda vandyrke GUds Nafn med ollu þvi hann adhefſt; þa finnur þu under eins, ad þu heſur GUd ſtygt, og forþienad Helvitis Piſſler, ef GUd vill tilreikna þier Syndena; enn hann tilreiknar hana ollum þeim, ſem ecke idraſt hennar, og eige aſetia ſier ad bæta ſinn Lifnad. Seg mier: muntu þa eige þykiaſt hafa fulla Þørf a ad bidia, ad Guds Nafn helgeſt i þier frammveigis, epter þvi ſem adur er mællt; þvi an hanns kanntu ecke ert i þinu Jdrunar, edur Endurnyungar verke ad frammkvæma: þar fyrer ſeger Lutherus i einum ſtad, ad ſa ſem bidur ad GUds Nafn helgeſt, hann jate med þad ſama, ad GUds Nafn enn þa ad nockru leite vanhelgeſt i ſier, ſem ſatt er; þvi eingenn getur þad helgad af daudlegum Mønnum, ſo ſem byriar: þar fyrer ſeger og Cyprian-



(q) Prov. 20. v. 9.

rianus, sem var einn af þeim Heilegustu Lærfedrum Christnennar: Vier þurfum daglegrar Helgunar vid, so ad vier sem daglega syndgunst, hreinsum Synder vorar med daglegri Helgan. Þesse Helgan skiedur med idran og sannre Tru, um hveriar vier bidium i þessare Bæn; og sier þu hier hvernenn þesse Grein minner þig a Þorf þina. J Ødru lage, ef þu ert Christenn madur, og villt ødlast nockud, med Bæn, af Gude, þa attu under eins ad bidia hann af Hiarta fyrer øllum Mønnum, Vinum og ovinum, Gudhræddum so vel sem Gudlausum; þvi þu veitst ecke Guds Rad, og ei nema hann gefe þeim Jdran til Apturhvarfs, sem þier þykia þar til hvad olikaster; og þott hann einsamall vite, hvad hann vill giora, samt elskar hann þinn Kiærleika, i þvi, ad þu bidur fyrer øllum, og miked maa Bæn hins Rettlata, nær hun er heit, seger Jacob (r). Ølld giæfe menn villdu þar epter vera alvarleger, astundunarsamer, og samhuga i Bænenne; J einu Orde ad segia: Christur hefur daed fyrer alla, þvi skyllder þu þa ecke bidia fyrer øllum. Nu vita menn

(r) Cap. 5, 16.

menn hverſu ad Verolldenn er full, eige einaſta af folſkum Kenningum, helldur og af Ogudlegum Mønnum, ſem einganveigenn liſa epter þvi ſem þeir trua, og eru þo hiner fleire, ſem bæde eru vantruader, og frammfara i øllum Odadum, ſo ſem Tyrkiar og Heidingiar: hafer þu nu nockra Medaumkan med þeſſare Blindne Mannanna (ſem eru ſømu Natturu og þu) þa mun þeſſe Bæn minna þig a, ad bidia fyrer þeim, ad Guds Nafn mætte i þeim helgaſt, med þvi mote ſem adur er ſagt.

Aeg ad bidia fyrer Ovinum Guds Nafns og Chriſtelegrar Kyrkiu?

Þu att ad ſønnu ad bidia a mote þeim, ad ei takeſt þeim ſinn illur Aſetningur, i þvi, ad kefia Guds Chriſtne, og hinn ſanna Lærdom; Enn fyrer þeim attu ad bidia, ad GUD vilie umſnua þeim til Sannleikans Vidurkenningar, og gefa þeim Jdran til Apturhvarfs: þvi þad hefur ſked, fyrer Nad Drottens, ad Offſoknarar GUDS Safnada hafa genged Chriſto til handa; ſo ſem Kennemennerner er hann offſoktu, enn trudu þo a hann ſidan (s); hvar um Paulus er hid lioſaſta Dæme, hver ed i fyrſtunne offſokte Guds Søfnud, enn ſidan vard Chriſti Poſtule (t): þvi ſkipar hann



(s) Act. 6. 7. (t) Act. 9. 20.

og ad bidia fyrer Nerone Keisara, sem var hinn grimmaste Ovin þeirra, sem a Christum trudu.

Legg mier ut þa Adra Bænena.

## Tilkome þitt Rijke.

Hvad er GUds Rijke?

Guds Rijke kunna menn med þrennu mote ad hugleida: Fyrst er hanns Almættis Rijke; þad er Valld þad, er hann stiornar og rædur med, ollum hlutum, bæde a Himne og Jordu, um hvert David talar (u): Drottenn hefur stadfest sitt Sæte i Himnenum, og hanns Rike rædur fyrer ollu, og i odrum Stad (x) þitt Rijke er eitt æfennlegt Rijke. Þetta Rijke er eige so meint i þessare Bæn; þvi GUDs Magtar-Rijke er so rijkt og oflugt Valld yfer ollum Skepnum, ad þvi fær eingenn Mattur a mote staded, og hann drottnar hvert sem þar um er beded edur ei: þo bidium vier þar um, ad vier med stærstu Audmykt meigum þeckia hanns Guddomlega Forsion og Almætte, sem ollu rædur, til þess ad vier eckert treystum a sialfa oss, edur tileinkum vorum Mætte, edur Frammsyne nockurn hlut; So og ad hann

(u) Ps. 103. v. 19. (x) Psal. 145. v. 13.

hann vilie audsyna Magt sina á sinum ovinum, er kappkosta ad nidurbriota hanns Nadar-Rijke, i Christelegri Kyrkiu. J annann Máta er hanns Nadar-Rijke, hvert ad er sier i lage i þeim retttruudu, þad er: i hinne sønnu Christelegu Kirkiu; hverre hann stiornar med sinum H. Anda, sem byr i Ordenu og Sacramentunum; um hvert Frelsarenn talar (y) er hann svarade þeim, er spurdu hann ad, nær GUds Rijke kiæme, med þessum Ordum: **Guds Rijke kemur eige, so þad adgiætt verde, þvi sia, Guds Rijke er inne hia ydur;** þad er: Guds Rijke kemur ecke med Harke og Yferlæte, eins og Veralldleg Rijke; helldur er þad i Mannanna Hiertum tilbued fyrer Innblastur og Verkaner H. Anda, og so seger Paulus (z): **Guds Rijke er eige Matur nie Dryckur, helldur Rettlæte, Fridur og Fognudur i Heilogum Anda.** J þridia lage er Guds Dyrdarrijke; hvers alleina adniotande verda hiner Retttruudu, og Utvolldu, þar þeir rijkia med Christo, og eru med honum eiliflega. Um þetta

 sidarsta

(y) Luc. 17. v. 20. 21. (z) Rom. 14. v. 17.

ſidarſta tvennt bidium vier ſierdeilis i þeſſare Grein af Drottennlegri Bæn.

Hvernen kemur GUds Nadar-Riike til vor?

Pad ſkedur; þegar GUd gefur oſſ ſinn H. Anda, ſa ed tilbyr ſo Hiortu vor, ad vier medtokum GUds Ord, og truum þvi, og frammbydur oſſ i Ordenu allt þad ſem Chriſtur, ſo ſem Konungur Rettlæteſins hefur oſſ afrekad. J Annann mata: þegar H. Ande verkar i Hiarta voru, ſo þad ſem Chriſtur hefur oſſ afrekad verdur kroptugt i oſſ, ſo vier latum oſſ ſtiorna af honum, og ecke alleinaſta med Trunne hondlum þad Rettlæte, ſem ſyrer Gude gyllder, og verdum þeſſvegna kvitter, og frier af allre Sekt, helldur og verdum endurnyader i Hugſkotum vorum, til ad þiona Rettlætenu, ſo ad ecke Drottne Synden i vorum daudlegum Likama (a). J Pridia Lage: nær þeſſe H. Anda Verkan utdreifeſt til annarra, ſem enn þa eige eru i Guds Nadarriike, þad eru aller þeir ſem ecke ottaſt GUd, og eige trua rettelega a hann, og lifa i Syndum og Glæpum. J Fiorda mata: þegar þeſſar Aſtgiafer og Verkaner H. Anda vidhalldaſt og eflaſt med oſſ, og i oſſ daglega; ſo ad GUds Riike eykſt og ſtyrkeſt hia oſſ: enn Dioſulſens Riike, (ſem er folged

(a) Rom. 6, 12.

ed i Vantru og vondum Lifnáde) þad verdur nidurbroted, so hann eige hafe neina Yferhond yfer oss, helldur ad vier, eige alleina, sieum Borgarmenn Heilagra, og GUDs Heimilis menn (b), helldur og blijfum, þad er, stoduger stondum i hanns Þionustu; þvi seger Cyprianus, ad vier þurfum sijfelldlega ad bidia, so ad eige missum vier Himnarike. Enn hvad Guds Dyrdar-Rijke vid vijkur; þa bidium vier i þessare Bæn, ad GUD vilie burttaka allar Hindraner, sem oss bægia þar fra; og um daglegann Underbuning til farsællegs Dauda, og hins sijdasta Dags, so vier meigum GUDs Rijkis verduger vera (c); og jafnan vidbuner (d), og bijdum so med glødu Gede epter Tijma vors Umskiptis, so vier meigum eilijflega med Christo rikia.

Hvernenn minner þesse Bæn mig a Þorf mina?

Hun minner þig ecke einasta a þina, helldur og allra þeirra Þorf, er þu att fyrer ad bidia; Enn hvad sialfann þig ahrærer, þa er þad vist, ad nema þu finner GUDS Rijke inne hia þier, þad er, Hrræringar H. Anda, sem verkar i þier Truna, og hennar Averke; þad er, Christelegt Liferne, þa ertu ecke GUDS Barn, helldur

 Diof-

(b) Eph. 2, 19. (c) 2 Thess. 1. v. 5. (d) Luc. 13. v. 40.

Diøfulsens; enn þu veitst ecke nær Dauðenn svipter þier i burtu: Siertu þa i Guds Rijke, þa er þier Víst ætlud med hønum i hanns Dyrdarrijke; enn siertu i Diøfulsens Rijke, þa muntu Hlutskipte ødlast med hønum, og øllum hanns Arum, i eilifu Helvitis Baale. Hugleid þetta vel, og muntu ei framar spyria ad, hvernenn þesse Bænminne þig a Þørf þina.

Eg bid þu viliér utskyra mier hina Þridiu Bæn.

Verde þinn Vilie, so a Jørdu, sem a Himne.

Þier byriar fyrst ad athuga, ad þetta Ord, Verde, merker hier eige alleina nockurskonar Osk, so sem þegar madur bidur manne gods; helldur audmiuka Bæn, og Andvørpun til Guds, med stærstu Undergefne, so sem þegar Frelsarenn sagde (e): Þo eige miñ, helldur verde þinn Vilie; Med hverre Bæn og Andvarpan Gud verdur einfalldlega og audmiuklega bedenn, ad þar vier erum ordner hluttakendur Evangelii, hvsum medteked Heilagann Anda, hver oss meddeiler þann Fiesiod, sem oss er i Evangelio frammbodenn, ad fyrer hanns Verkan mætte þad og verda, og þad framkvæm-

(e) Matth. 26. v. 39. conf. Act. 21. v. 14.

kvæmest i oss, sem GUd hefur tilætlad; so og þad sem vier af vorre Alfu eigum til ad leggia.

Hvilikur er þesse GUds Vilie, sem hier verdur umgeted i þessare Grein?

Guds Vilie er ad sönnu i sialfu sier eige nema einn; þviad i Gude er eingen Adgreining, eige helldur Umbreiting edur Umbreitingar Skugge seger Jacob (f) samt verdum vier ad imynda oss GUds Vilia med Tvennu mote, sokum þess vor mannlegur Skilningur fær þad ei ødru vis griped, þvi segium vier: ad Einn sie GUds Vilie sa, þegar hann sialfur vill eitthvad giora; Annar sa, þegar hann vill ad eitthvad af oss giort sie, edur ogiort lated. Hinn fyrre er og med Tvennu mote: Fyrst, þegar GUd vill einn Hlut fortakslaust, og endelega, hverium Madurenn er aldeilis ecke samverkande. Þessum GUds Vilia fær eingenn Kraptur a mote staded, so sem David vottar (g). Hann giører hvad hann vill a Himne og a Jordu, og Paulus seger (h): Hver mun motstanda hanns Vilia. Og hia Esaiam (i) Mitt Rad skal standa, og allur minn Vilie skal verda

(f) Cap. 1. v. 17. (g) Psal. 115. v. 3.
(h) Rom. 9. v. 19. (i) Cap. 46. v. 11.

verda. Og i Odrulage, þegar GUd vill einn hlut med Fororde og Skilmala, hver, ef ad hann geingur undan einhveriu þvi sem skiedur, þa fylger þad eige alltijd aptur ad þad framkome sem GUd vill; til dæmes ad taka: GUd vill, ad aller menn verde Saluholpner, ef þeir trua; enn þeña GUds Vilia getur Madurenn hindrad med Vantruunne, so ad margur fyrerferst; Enn ef hann epterfylger, þad er adskilia, nær Skilmal; enn er halldenn, þa skedur þad allt, sem hann þannen vill. Til dæmes: Ad sa sem truer og stodugur stendur, allt til enda, hann verdur efalaust holpenn (k). Hinn sidare GUds Vilie, sem i ondverdre þessare Grein er umgeted, er innefalenn i þvi sem Gud hefur boded, og bannad ad vier giera skylldum, annadhvert i Logmalenu, edur Evangelio; þetta kallar Paulus Guds godann, þægelegann og fullkomenn Vilia, (l): so bidium vier hier, ad Gud med sinum Anda stiorne oss til ad giera sinn Vilia, enn hindre Diofulsens Holldsens og Heimsens Vilia.

Hvad gagnar mier, ad vita þessa Adgreining Guds Vilia?

Þad gagnar þier til þess, ad þu viter hver

(k) Matth. 10. 22. (l) Rom. 12. 2.

hver Guds Vilie þad sie, er þu umbidur, ad verda skule; þvi þu att ad skynia hvar um þu bidur.

Hvar um bidia menn þa i þessare Bæn?

Eige þar um, ad verda skule Guds Forlaksſlaus Vilie, hverium hann endelega vill frammhallda, hvad sem hver seger, edur bidur; þvi er onaudsynlegt þar um ad bidia; enn i ollu odru bidium vier ad Guds Vilie verde, og seger Ritningen oss med sam Ordum, hver ad sie Guds Vilie, sem oss er naudsynlegast um ad bidia; So seger Drottenn hia Ezech. (m): Eg vil ad Syndarenn snue sier; þvi bidium vier i þessare Bæn, ad Gud fyrer sinn H. Anda vilie verka i oss sanna Idran, kenna oss ad þeckia Syndena, og af þeckingu hennar, og Guds Giæsku ad fa sannarlegt Angur og Trega. Framar seger Ritningen (n): þesse er Vilie hanns sem sende mig, ad sierhver sa ed sier Sonenn (þad merker hier, þecker hann) og truer a hann, eigneſt eiliſt Lif. Þvi bidium vier i þessare Bæn, ad GUD fyrer sins Anda Krapt vilie verka i oss Truna a Christum, ad vier eige einasta þeckium hann, helldur og truum þvi stadfastlega, ad

(m) Cap. 33. v. 11. (n) Joh. 6. v. 40.

ad oss verde fyrer hanns Skulld Syndernar fyrergefnar, nær vier þeirra idrunst af Hiarta. J Pridia mata seger Paulus (o): Ad GUDS Vilie sie vor Helgan, þad er: ad vier lifum heilaglega, og løgum vorn Vilia i Hugrenningum Ordum og Verkum, þad mesta møgulegt er, epter GUds Vilia; þvi bidium vier hier, ad Gud gefe oss Helgunarennar og Endurnyungarennar Anda, og skape hreint Hiarta i oss, fyrer Andann; og deyde i. oss Pvermodsku Holldsens; so vier meigum þad hugagirnast, tala, og giora, sem Gude er þægelegt, og hann vill; enn hafna og aldeilis burtkasta Andskotans, Heimsens og Holldsens Vilia, sem eru Synder og Glæper; so ad hanns blessadur Vilie sem er: ad aller menn verde Saluholpner (p), ecke hindrest vorrar Vantruar vegna. So þeckium vier nu og medkennum i þessare Bæn, ad vor Vilie sie næsta vanmattugur til ad frammkvæma þetta, og þvi bidium vier, ad GUds Vilie styrke oss til ad frammkvæma sinn Vilia. Enn sier i lage bidium vier i þessare Grein, ad GUDS Vilie verde a oss, i sierhveriu þvi, sem hønum þocknast a oss ad leggia, hveriu Nafne sem heiter; so seger Ter-

(o) 1 Thess. 4. v. 3. (p) 1 Tim. 2. v. 4.

Tertullianus: Med þessum Ordum aminnum vier oss til Polennmædennar; og so brukade Frelsarenn þau(q) **verde þinn, og eige minn, Vilie.** Sama er ad segia um vora Astvine; þvi brukudu og þenna Formala St. Pals viner, þegar hann for upp til Jerusalem, til ad sitia þar i Fiotrum, og þola margt illt, og þeir villdu hindra hann þar fra, enn hann villde eige samsinna þeim, þa sögdu þeir: **verde GUds Vilie** (r). og fyrst vier bidium GUD um, ad hanns Vilie verde, þa er þad stort Rangsæte fyrer oss, ad vier skorum oss undan þvi, sem hann vill vera lata; þvi eigum vier alldrei ad meina, nema virdulega um hanns Vilia, hvad sem hann lætur oss þola, og hversu sem hann lætur godum illa, og vondum vel lida, helldur segia med David: (s): **Hann er Jehova, giöre hann vid mig hvad gott er i hanns Augum,** enn bidia alleina um H. Polennmæde, og segia, **verde þinn vilie,** enn ecke leita oleifelegra Medala, sem eru mote hanns Vilia.

Svo a Jordu sem a Himne. Hvad er þad? Himenenn merker hier Guds Dyrdarrij-ke,

(q) Matth. 26. v. 39. (r) Act. 21. v. 14.
(s) 2. Sam. 15. v. 25.

ke, hvar ed Heilager Einglar, og Utvallder Menn giora GUds Vilia fullkomlega.

Er þad megulegt, ad nockur kunne ad giora hann eins fullkomlega hier a Jordunne?

Langt er fra þvi, ad hann verde so fullkomlega af vorre Alfu, so sem i Himnenum giordur; vier bidium og þess ecke, þvi þad være storOfdirfd; þar vier vitum, ad Kraptar Endurgetningarennar eru ofullkomner i þessu Life; þvi eru og vorer Kraptar, til ad uppfylla Logmaled, ofullkomner, og GUd vill ecke i þessu Life reisa þa vid til fulls, so ad þar af siaest Stærd mannlegrar Sektar, og Yferburder Christi Forþienustu. Enn þetta Ord, SO, merker hier ecke, so fullkomlega, helldur lijkt þvi; og ad hin striidande GUds Christne hier a Jordunne verde lijk hinne, sem þar uppe er, i þvi ad giora GUds Vilia: Sama Ord stendur hier sidar i Bænenne: fyrergef oss vorar Skullder, so sem vier fyrergefum vorum Skulldunautum; og er þo audvitad, ad Madurenn kann alldrei so fullkomlega ad fyrergefa, sem GUd, enn lijkiast kann hann honum i þvi; So og seger Christur (t): vered myskunsamer, lika sem ydar Fader er myskunsamur;

og

(t) Luc. 6. v. 36.

og erum vier synduger menn langt fra þvi, ad geta eins myskunad og GUd; þvi merker þetta Lijking, og eige Jofnud.

Hvernenn sie eg Þorf mina i þessare Bæn?

Eige nema af þvi, ad ef GUd ei villde þu yrder holpenn, og ef H. Ande ei verkade i þier Viliann til ad trua, og giora þad GUD vill, þa yrder þu þad alldrei, helldur eilijflega fordæmdur: þvi nema Heimsens, Hollds ens og Dioefulsens Vilie, verde fyrer hanns Vilia hindradur, þa yrde hverke Guds Nafn helgad medal vor, ei helldur kiæme til vor hanns Rijke. Þar af sier þu, hvilika Naudsyn þu hefur, til ad bidia, ad Guds Vilie verde.

Seg mier nockud af hinne Fiordu Bæn.

Gief oss i Dag vort daglegt Braud.

Hvad merker Braud hier?

Þad merker eige einasta allann Mat og Dryck, sem Gud fóstrar Lijkamann med, so sem allvida ma sia i Ritningunne, og medal annara hia Jeremia (u), hvar ed seger: ad Joachim Konungur hafe eted Braud avallt vid Bord Evil Merodachs Konungs; hvar ed vered hafa fleire Vister, enn Braud eitt; helldur merker þad, so sem Lutherus seger: Allt þad sem naud-



(u) Cap. 52. v. 33.

synlegt er, til þessarar Lifs Biargar, þad er: allt þad sem til þess gagnar og dug- er, ad vier meigum med Fride og glødu Gede niota þessa Lifs, an hvers vier hof- um þess litel Not, sem Gud oss gefur, og vort Braud verdur ad Harma Braude; so sem David ad Orde kemst (x) og vier ætum, enn yrdum þo ei metter. Allt þetta hefur Lutherus upptaled, i sine Utleggingu yfer þessa Bæn, a medal hverra eige er hid sidsta þetta, sem epterfylger: **God eig- en Kvinna, hlydenn Born, dygt þionustu Folk, truer og fromer Yfermenn, god Almugans Stiorn;** þvi hver sem hefur otrutt, og orolegt Hyske, hann kann alldrei ad eta sitt Braud med Glede; Item **goder og fromer Yfer- menn**, hvar af fylger Landsens Velferd; þvi hvar sem ad er athugalaust Yfervalld, þar meiga menn alldrei ohulter vera fyrer ohlutvøndum Monnum, og eta so sitt Braud med Otta; og þar sem eru asæluer ranglater Yfermenn, þar vita menn ecke a hverre stundu Brauded verdur teked fra þeirra munne, og eta þad so alldrei med Fride. Enn þo þad oveniulegt þykie, ad kalla

(x) Ps. 127. v. 2.

kalla soddan daglegt Braud, þa eru sliiker Ords hætter almenneleger i Ritningunne, sem so seger (y): ottunst ecke Landsfolked, þeir munu verda vort Braud. Hier af sia menn, ad allt þvilijkt er faled under Daglegs Brauds Nafne, so þad kallast hier allt daglegt Braud, sem styrker oss til ad utvega vora Atvinnu, og niota hennar med Gladvære.

Hvad merker þetta Ord, vort, fyrst þad er vort, þvi bidium vier þa ad gefa oss þad?

Þad kallast vort þessvegna, ad GUD hefur oss þad uthlutad, enn eige þessvegna, ad vier med vorre Kostgiæfne og Astundan hefum þad alleina utvegad, jafnvel þott vier eigum hana og til ad leggia epter hinu Gamla Logmale: i Sveita þins Andlitis skalltu þins Brauds neyta (z). og so sem einn Þurfamadur bindur sialfur þann Bagga er honum er gefenn af sier rijkare manni, so eigum vier ad bruka vort Erfide og Astundan til ad taka vid GUDs Blessan, sem upplykur sinne milldu Hond, og sedur allar lifande Skepnur; og medtaka so miked, sem oss verdur uthlutad, þad er: so miked sem vier med ærlegu Erfide fa-



(y) Num. 14. v. 9. (z) Gen. 3. v. 19.

kunnum, epter þvi sem hverium einum er hattad, og hanns Kostum er vared. I ødru lage minner oss þetta Ord, vort, þar: a, ad þad sie vort eiged Braud, er vier ek-um, þad er: øll vor Faung sieu velfeingenn, og eige tekenn fra Naunganum, annad-hvert med Ofbellde; edur Svikum og Undersferle, so sem hellst skedur i Kaupum og Sølum; edur og med Svalle, og Ydiuley-se, þegar einn fyrer Ohofs, edur Letesaker giorer sig ad þurfa Manne, so hann hlytur ad fara a Vonarvøl, og etur so sitt Braud i annarra Andlites Sveita; hvar um Paulus talar (a) segiande: Vier Heyrum, ad þar sieu nockrer a medal ydar, sem ganga offickanlega, giørande eckert, helldur vinna oþarsa. Pessum sem þvilijker eru, biodum vier og aminnum, fyrer Drottenn vorn JEsum Christum, ad þeir erside med Spekt, og ete sitt eiged Braud. Hier talar Postulenn um heilbrygdann Husgang og Landhlaupara. Ad sidurstu minner oss þetta Ord, vort, a GUDS Skipan, ad meddeila hinum naudþurftugu, þad sem oss er afgangs; þvi so stendur hier,

(a) 2 Theß. 3. v. 11. 12.

hier, vort, og eige mitt; þvi þad sem Gud hefur þier i hendur feinged, er eige þitt einasta, helldur þeirra sem a þurfa ad hallda; ertu þvi skylldugur, ad meddeila þeim þad, sem þu, an þinnar Þorfnunar, missa matt; so seger Johannes Skijrare(b): Sa sem hefur tvo Kyrtla, hann gefe þeim sem eingann a, og sa sem Mat hefur giøre slijkt hid sama.

Hvad er þetta i Dag? ma ei bidia Gud um, ad sorga fyrer mier frammveges?

Christur seger ad sønnu, þu skuler eige fyrer Morgundegenum Ahyggiu bera, þo er þad rett, ad bidia Gud ad bera Ahyggiu fyrer sier, so leinge madur lifer; enn þetta Ord, i Dag, merker ecke so i þessum stad, þann Dag, sem nu yferstendur, helldur merker þad hvern Dag, so sem Lucas hefur þad utlagt (c) þegar hann skrifar þessa Bæn: Annars minner þetta Ord oss a Guds Giædsku, sem vidhelldur oss a hverjum deige og hverre stundu, þvi nema hann þad giørde, kynnum vier eige eitt Augnablik ad lifa. Jedrulage, a vora Eymd, og fallvalltann Hag, þvi þott vier høfum full Hus Nægta, þa er þad forgefens, nema

M 3 Gud

(b) Luc. 3. 11. (c) Cap. 11. v. 3.

Gud blesse vor Faung; Og þott einn segia villde: Et og dreck Sala min og vert glod; þa getur GUD bradlega til hanns sagt: þu Daare, a þessare Nott skulu þeir þinnar Salar krefia af þier, og hver skal þa eignast þetta sem þu hefur tilbued (d), Þvi mun hann þa eige geta lated þig verda fatækann ad Morgne, sem ert fullrikur ad Kvøllde. J Þridia mata, a þetta ad minna oss a, ad vier ei sieum hugsiuker fyrer, hvad vier skulum eta edur drecka, þar vier bidium ei, nema um hvers Dags Verd, so sem Agur bad (e). Fatækt og Audlegd gief þu mier eige, enn al mig med minu daglegu Braude.

Hvad er þetta Ord, Daglegt?

Þad er, þad sem oss næger hvern Dag, so leinge vier lifum; so þesse Bæn merker: gief oss þad vier vid þurfum, anægianlega, hvern Dag.

Ef Gud gefur oss vort Braud daglega, þvi þarf þa ad erfida?

Þu att eige ad taka so þesse Ord, ad Christur hafi þar med leift þier Ydiuleysed; helldur minna þau oss a, ad vier erum þurfamenn

(d) Luc. 12, 19, 20. (e) Prv. 30. v. 8.

menn GUDs, jafnvel þegar vier hvad meſt hofum, og hvad meſt erfidum; Ja, miklu meir, enn einn nakenn Gongumadur er vor Þurfe; Og i odrulage, ad vier eckert eigum under ſialfum oſſ, og ecke Balld a einum Matarmola, nema vier þiggium hann af GUds Orlætis hende. So og minner þad oſſ a Þacklæted vid hann, er ſo miked gott veiter oſſ daglega aldeilis oforſkulldad, jafnvel þott vier hann daglega ſtyggium og til Reide reitum. Enn þetta Ord, Oſſ, minner oſſ a, ad vier eigum og fyrer odrum ad bidia, og getur þad þa eige vel ſtadeſt, ad vier ſkulum hripſa þad Braud ut af Naungans Munne, ſem GUd honum gefur, nema vier vilium bidia Gud, ad gefa honum til þeſſ, ad vier hofum þeſſ meir til ad ſtela og ræna.

Nu lida Guds Viner optlega Skort a ollu þvi ſem þu kallar daglegt Braud, hvernenn a eg þad ad ſkilia?

Giæt ad þeirre Bæn, ſem hier ſtendur fyrer framan, verde þinn Vilie: late GUd þig lida nockurn Skort, þa vit, ad þad er hanns Vilie, og þier fyrer beſtu, og Madurenn lifer ecke af einu ſaman Braude, helldur af ſierhveriu Orde, ſem frammgeingur af GUds Munne (f), og ma eg kalla þad eitt med þeim, ad

(f) Matth. 4. 4.

hann er trur og freistar einkis yfer megn framm (g): þar fyrer nær þig vantar Likamans Atvinnu, þa ber þig ad vera so lyndur, sem þinn Frelsare var, ad þinn Matur og Drockur sie ad giora Vilia þins Fodur (h).

Nu gefur Gud þo daglegt Braud, jafnvel vondum Monnum, og þeim sem hann alldrei þar um bidia, edur þacka honum þar fyrer. Hvad a þar til ad segia?

Pad gierer hann þessvegna, 1. Ad hann eige raska vill þvi Logmale, er hann einu sinne sett hefur Natturunne Ad eige skule Sad nie Uppskieru vanta, so leinge Jørden varer (i). 2. Til ad kienna sinum Bornum, ad giora þeim gott sem vid oss misgiora, þar hann lætur sina Sol uppretina yfer rettlata og ranglata, og rigna eins yfer vonda og goda(k). 3. Til ad leida þa til Idranar, sem þanneim eru (l), med Rijkdome sinnar Polenmnæde, og Langlundargeds, so ad eige sie Skulden hia honum, enn þeir sem ecke vilia skipast vid þessa Giæsku

(g) 1 Cor. 10. 13. (h) Joh. 4. 34. (i) Gen. 8. 22. (k) Matth. 5. 45. (l) Rom. 2. v. 4.

ſku GUds, þeir verda alder til Helvitis Elds, ſo ſem annad Slaturſe.

Ma eige bidia um Riikdom?

Ad viſu ma madur bidia GUd um ad bleſſa ſitt Erfide, ſin Faung, og ſinar Utrettingar; enn hverge veit eg boded edur leiſt ad bidia um mikenn Aud, helldur ſeger Agur (m): Fatækt og Riikdom gef þu mier eige, al mig a minu daglegu Fæde. Og Jacob ſeger (n): Þier bidied og faed ecke, af þvi þier bidied illa, til ad koſta uppa Sælgiæte ydar. enn til þeſſa edur annars verra bruka menn Audlegdena meſt i Heimenum.

Eg þarf ecke ad ſpyria ad, hvernenn þeſſe Bæn minne mig a Þorf mina, þvi aller vilia ſina Atvinnu hafa?

Pad er ſatt. GUd giæfe ad Mennum være ſo miøg umhugad GUds Dyrd, og Velferd Salar ſinnar, ſo ſem um Likamañ; þo mattu vita, ad þu hefur eckert þier til Atvinnu, nema þu þigger þad af hañs hende, ſem er alleina rikur; þu veitſt ad þin Faung verda þier ad eingum godum notum añ Guds Bleſſunar; mun þa eige þørf ad bidia hann þar um? þu veitſt hvad miked er innefaled i þeſſu Orde, daglegt Brand, ſo ſem ſromet



(m) Pröv. 30. 8. (n) Cap. 4. v. 3.

og goder Offermenn, Landsens Velferd, Fridur, Heilbrygde; Mun þier eige þykia stor Þorf a ad bidia um þad? Eckert af þessu kemur ad Hendingau, edur fyrer vora Forsion, helldur af Radstøfun hins Almattuga Guds; þar fyrer hefur hann skipad sig þar um ad bidia: hvad syneft þier þa? mun eige þurfa ad leggia alla Alud til ad bidia Gud her um?

Seg mier Utskyringuna yfer þa Fimtu Bæn?

Fyrergief oss vorar Skullder, so sem vier fyrergefum vorum Skulldunautum.

Hvad merker þetta Ord, fyrergief?

Þad merker, ad gleima aldeilis, hia Jerem.(o): þar Drottenn segest eige framar vilia minnast Synda sins folks; og hia Matth. (p) merker þad ad gefa upp Skulld, þar so stendur: Og Herrann hrærdest Myskunar yfer þeim þion, og gaf honum upp alla Skulldena; hver þyding best kemur saman vid þad sem vier umbidium i þessare Bæn.

Hvad er þad þa, sem hier kallast Skullder?

Þad eru Synder vorar, er vier daglega Gude a moti gierum; þvi þad sem Matthæus

(o) Cap. 31. v. 34. (p) Cap. 18, v. 27.

us kallar Skullder, þad kallar Lucas (q) Synder, og erû þær rettkalladar Skulld-er: 1. Þesſvegna, ad Logmaled er eige einaſta Regla, ſem vier eigum ad lifa ept-er, og hægter ad bæta, þo lited ſie afbrugd-ed; helldur ſoddan ein Regla, ſem ſkulld-bindur oſſ til ad lifa fullkomlega, epter þvi ſem þar i er boded og bannad, under eiliſt Helvitis Straff, ef i hinu minſta ut af ber; þvi ſa ſem uppleyſer, þad er, ſa ſem brytur, eitt af þesſum minnſtu Bod-ordum, hann ſkal minnſtur kallaſt i Himnarike (r), þad er: hann ſkal ſekur verda fyrer Guds Domi; Og ſo ſem einum Skullda þriot verdur i Myrkvaſtofu kaſtad, ſo ſeger Drottenn, i Epterlikingunne um hinn onyta þion, er grof ſitt Pund i Jordu (s): Binded hans Hendur og Fætur, og kaſted hønum i hin ytſtu Myrkur þar ed vera mun Op og Tannagn-yſtran; hvad ſkiliaſt a um þann, ſem eing-ar Endurlauſnar von a; þvi omøgulegt er oſſ ad giallda Gude af ſialfum oſſ til, fyrer hina minſtu Synd, auk helldur fyrer ſodd-an Fiollda, ſem meire er enn Sandur a Siaf-

(q) Cap. 11. v. 4. (r) Matth. 5. v. 19.
(s) Matth. 25. v. 30.

Siafarbotne. 2. Vegna þeirrar Skulldar, sem vier hleypum oss i, þegar vier annad hvert giorum þad, sem bannad er; edur giorum eige þad sem oss er boded; edur þad satt og lited sem vier giorum, þad giorum vier ecke hreinlega, eige rett, og eige fullkomlega, ef þad a ad vera saman vid Guds Logmal; og hlytur þetta ad verda ein skelfeleg Summa, þar vier, med soddan mote, lifum ecke eitt Augnablik an Syndar. 3. Søkum Skulldalukningarennar; þvi so sem þad, ad Skulldunauturenn ei kann ad umflya Sektena og Straffed, nema hann lyke Skulldena, edur einhver hanns vegna; so kunnum vier og eige helldur kvitter ad verda, nema Christur giallde fyrer oss; þar vier hofum þad ecke sialfer til, er vier skulum giallda. Enn þar hier stendur i Bænenne þetta Ord, vorar, þa minner þad oss a, hveriar ad sieu vorar Synder, sem er eige einasta þær vier sialfer drygium, med Hugrenningunum, Orde og Verke; helldur og su er vier i Adam drygt hofum, sem er Uppruna Synden; og þar ad auke annarlegar Synder, sem vier annadhvert erum Orsok i, edur og hverium vier a einhvern hatt erum hluttakande. J Fiorda mata, a þetta Ord ad minna oss a, ad bidia

fyrer ødrum; jafnvel Ovinum vorum, ad GUD vilie fyrergefa þeim sinar Synder.

Seg mier meira af þessu, hvernenn kunna menn ad verda hluttakande i annarlegum Syndum?

A marga vegu. Med þvi ad locka einn til Syndarennar, þo ei giøre madur hana sialfur; og leggia Rad þar til, so sem: rada Banarad, leggia Rad til ad stela, og annad þvilikt. J ødrulage, med vondu Eptirdæme, þegar menn syndga ødrum til Hneixlis, jafnvel þott þeir lyte þad og straffe a ødrum; so og nær menn ecke hafa þad, sem gott er fyrer þeim, sem oss er tiltruad, bæde med Orde og Verke. J Þridia mata, nær menn hrosa þvi, sem illa er giort; edur lasta þad ecke, og þegar vier, med Stiornleyse, gefum þeim Orsok til ad syndga, sem vier erum yferbodner. Ad sidurstu, þegar menn, med Umvøndunarleyse, sia i gegnum Fingur vid þa, sem illt adhafast, og ecke ad vara, edur aminna sinn Brodur, nær hann syndgar. J ølluꝛ þessu giørum vier annarlegar Synder ad vorum Syndum (t) og høfum hlut i ofriofsomum Verkum Myrkranna, so sem Paulus ad Orde kiemst (u).

Bidium

(t) Lev. 19. v. 17. (u) Eph. 5. v. 11.

Bidium vier þa eige um meira i þessare Bæn?

Þetta er nog; þvi nær vorar Synder eru kvittar, þa erum vier GUds Viner og hans Oska-Børn, og þurfum eingu ad kvida; helldur meigum segia med Paulo (x) Hver er sa sem aklagar GUds Utvallda, GUd er sa sem rettlæter; Enn þess er ad giæta, ad vier erum, af Natturunne til, nærsta hirdulauser, i þvi, ad idrast Syndanna; vier skygnumst og ecke epter, hvad margar, hvad storar, ad þær sieu, jafnvel þott vier kynnum margar ad þeckia, og margar ad muna, ef vier hvern Dag geingium i Rett vid sialfa os; vier sleppum þeim þar til þær gleimdar eru, og idrunst þvi ecke þeirra af Hiarta, sem vier gleimt hefum; vier hofum ecke leida a Syndunum, helldur þyker vænt um þær, og glediunst af þvi, ad minnast þar a; vier hrosum þeim eins og Sodoma (y); vier hofum eige Gud fyrer Augunum, edur finnum til hanns Reide yfer Syndenne; Enn Synden verdur eige fyrergefenn, nema menn idrest af Hiarta, og Jdranen ad nockru leite sambiode henne: þessvegna bidium vier og GUd i þessare Bæn, ad hann vilie taka fra oss Hirduleysesins Anda, ad Synden eige sofe i oss, helldur verde

(x) Rom. 8. 33. (y) Esa. 5. v. 9.

verde uppvaken med Legmalſens Baſumu, ad hann burttake fra oſſ Stein-Hiartad, og gefe öſſ Kiotlegt Hiarta, er þeckie Synder ſinar, grate þær, og hafe Leida a þeim; og under eins bidium vier, ad hann ſtyrke oſſ aptur med Trunne, ſo vier ecke orvænt-um (þvi fyrer Truna ødlunſt vier Fyrer-gefning Syndanna) og þad med ſoddan einne Tru ſem bere hina ſønnu Idranar Aværte; og eige leife oſſ, ad hverfa aptur til ſømu Synda, eins og Hundurenn til Spyunnar; annars er øll þeirra Syndakvittun onyt, ſem undan er farenn, ef vier af Overmodſku og aſettu rade drygium Syndernar; liggium i hinne ſømu Illſku; edur latum oſſ þykia vænt um þær Synder, ſem vier einuſinne hofum kvittar feinged. Og þar vier bidium nu ſo mikels i þeſſare Bæn, þa er audvitad, med hvad miklum Hita og Alvorugefne hana leſa byriar.

Her ſtendur: ſo ſem vier fyrergefum vorum Skulldunautum. er þad mannenum mogulegt ad fyrergefa ſo ſem GUD fyrergefur?

Eingannveigenn: helldur a vor Fyrer-gefning hanns Fyrergefningu lijk ad vera, ad þvi frateknu, ad GUd er eige ſkylldugur ad fyrergefa oſſ, nema vier idrunſt; þvi hann hefur eige ødru lofad: Enn vier erum ſkyllduger ad fyrergefa þeim ſem oſſ a mote

vriota, jafnvel þott þeir ecke idreſt þeſſ, og eige leite þeir Fyrergefningar af oſſ: þad, ſyner oſſ Chriſtur (z): vertu ſnarlega ſamþyckur þinum Motſtodu manne, a medan þu ert enn a veige med honum, ad eige ofurſelie þig þinn Motſtodu madur Domaranum, og Domarenn ofurſelie þig Kvalaranum, og þu verder ſo i Dyfliſſu kaſtadur: Annars heſur Drottenn JEſus, epter ſinne Guddomlegri Speke, tillagt þetta Atridis Ord i þeſſare Bæn; þvi hann viſſe hverſu bagt oſſ veiter, ad tilgefa Misgiordernar; og ad vier ſialfer kunnum þo eige þeirra Kvittun ad ødlaſt, nema vier fyrergefum ødrum: Þvi itrekar hann þeſſa Grein alleina, enn einga adra, ſtrax epter Drottennlega Bæn, i þeim ſama Capitula er hun ſtendur (a) ſegiande: Þvi ef þier fyrergefed Mønnunum ſin Afbrot, þa mun minn Himneſke Fader og fyrergefa ydur; enn ef þier fyrergefed eige Mønnunum þeirra Afbrot, þa mun minn Himneſke Fader ei helld-

(z) Matth. 5. v. 25. (a) Matth. 6. 14.

helldur fyrergefa ydur ydar Mot-
giørder. Og þvi minner þesse Bæn oss a:
1. Ad so sem vier kunnum ecke an Syndar
ad lifa fyrer Gude, so kunnum vier eige
helldur ad lifa an Motgiørda hver vid ann-
ann; enn hann a Rett a oss øllum, so ad æ
øllu þvi, sem oss er a mote giørt, er þess
meire Søk vid hann, helldur enn vid oss,
sem hann er sinum Skepnum ædre. Enn
ef hann vill fyrergefa hverium, sem hann
bidur af Hiarta, þa er Skomm fyrer oss,
ad forlata ecke obedner, þvi þad veit eg, ad
so mikill er munur Guds og Manna. 2. Ad
temia vort ostyrelatt Holld, er so treglega
vill fyrergefa, þar þetta syner oss vorn eig-
enn Haska; þvi oss verda eige Syndernar
tilgefnar, nema vier tilgefum ødrum.
3. Ad eyda þeim Røkum og Astædum, sem
Holld og Blod hafa þykest, til þess, ad
reidast og ala Hatrid, med þvi, ad bera
saman vorar Motgiørder i gegn Gude, og
so Naungans Afbrot a mote oss. 4. Er
þetta einn obrygdull Pantur, sem sialfur
Guds Sonur hefur oss i hendur feinged,
uppa vorra Synda Fyrergefning; þvi þeim
sem fyrergefur sinum Naunga, þeim lofar
hann, ad sinn Fader vilie Syndernar til-
gefa: Og ma þeim litid finnast til Synda

sinna, og GUds Reide yfer þeim, og til Helvitis pijsla, ef þær hafa tilunned, sem ecke vill til þess vinna, ad forlata sinum Naunga, so hann fae þeirra Kvittun hia Gude; þo er þetta ei so ad skilia, ad vor Fyrergefning vid Naungann, sie Orsok til Guds Fyrergefningar vid oss; þvi þo vier giordum, allt hvad vier eigum ad giora, þa erum vier skyllder ad jata, ad vier sieum onyter þionar (a); helldur skedur þad alleina fyrer hanns Fyrerheit, hver ei kunna ad bregdast, þott Himen og Jord forgange (b).

Ueg þa allt ad fyrergefa, sem mier er a moti giort,
eins þeim sem mier i mesta mata tilgiorer, og
honum er lited afbregdur?

Allt eins attu þeim hverutveggium ad fyrergefa; þvi Fyrergefningu þinne a eins hattad ad vera vid Naungann, eins og Guds vid þig, sem i fyrstunne varst Reidennar barn, þegar Gud tok þig i Satt, og sidan hefur optlega broted af þier hans Vinattu; þvi stendur her þad Ord, er þu spurder um; so sem vier fyrergefum vorum Skulldunautum; Enn GUD fyrergefur þier eins storar Synder og smaar; eins

(a) Luc. 17. v. 10. (b) Luc. 21. 33.

eins fyrergefur hann Storbrota monnun-
um, so sem þeim er Heilager kallast, og i
einu Orde ad segia: ollum þinum Skulldu-
nautum, ollum þeim, sem þu hefur nockra
Aktæru a mote, hveriu Nafne sem heiter,
þeim attu ollum ad fyrergefa af Hiarta, þvi
seger Drottenn (c): byriade þier eige
Myskunsamur ad vera, þinum Sam
þion, so sem eg var þier myskun-
samur; Fyrer þvi stendur og i þessare
Bæn hia Lucam (d): þvi vier fyrergef-
um og ollum þeim sem oss skylldug-
er eru. Par er eingenn undantekenn,
hvert hann er volldugur edur vesæll, hvert
hann hefur ádur af oss nockud gott forskulld-
ad edur ei; hvert hann er vor jafningi edur
minne madur. ollum eiguin vier ad
fyrergefa, hver Fyrergefning i þvi er inne-
fallen: 1. Ad reidast eige þeim sem oss a
mote briota. 2. Enn fyrer þvi, ad þad er
valla mogulegt nockrum syndugum manne,
ad hafa so rijkt valld yfer Lund sinne, ad
ecke renne honum i Skap, þegar honum er
mote broted ad saklausu, þa er þad næsta
Rad, ad ala eige Reidena leinge, helldur
sleppa henne strax sem Madur kemur til
N 2 sialfs

(c) Matth. 18. 33. (d) Cap. 11. v. 4.

sialfs sins, og þeinkia alldrei til, ad hefna þess, er honum var tilgiørt, og enn þa sijdur, ad oska, ad Gud hefne a þeim; Miklu helldur bidia, ad hann fyrergefe þeim, og leidrette þa, hvert helldur honum þocknast ad leida þa til Idrunar med sinne Giædsku, edur fødurlegre Hirtingu.

Leifest mier þa eige ad klaga minn Naunga fyrer Rettenum, nær hann giører mier oriett?

Ad visu leifist þier þad. Fyrer þvi er Retturenn og Yfervallded af Gude tilsett; enn þad a ad ske fyrer utan Reide og Hatur, ef þu villt Guds-Vinur vera; Enn søkum þess, ad miøg so er hætt vid, ad þu syndger i þessu, og taper þinna Synda Fyrergefningu hia Gude, þa er radlegt, ad þu hlauper eige til Domarans fyrer Smamune; Enn ef þu neydest til þess, þa attu ad bidia Gud innelega um, ad eckert giører þu af Heipt nie Illgirne.

Eru nockud Fiarskullder meintar i þessare Grein?

Eige eru þær her meintar eigennlega, þvi leifest hverium ad krefia Fiar sins; Enn þo ber þess ad giæta, ad fyrst Gud hefur Polenmæde yfer þinum Syndum, þa skalltu og vera Polennmodur vid þinn Skulldunaut, ef þu villt Rett-Christenn heita, og ecke af honum heimta, þad hann eige getur utelated, an sins stors Skada og Eydeleggingar;

ingar ; hvar um þu kannt framar ad skoda þad, eg sagt hefe i Utleggingunne yfer hid Siøunda Bodord.

Verd eg þa aldeilis eigebænheyrdur af Gude, nema eg fyrergefe, so sem þu hefur nu sagt?

Alldungis eige. Ad þvi mattu visu ganga. Þier gagnar ecke ad bidia um nockurn hlut; og ecke þad Heilaga Holld og Blod Drottens ad medtaka, nema þu fyrergefer øllum þeim, er þier hafa a mote broted, þad er: ad þu aler eckert Hatur til þeirra i Hiartanu ; þvi so seger Frelsarenn hia Marc. (e): Og þegar þier standed og bidiest fyrer, þa fyrergefed, ef þier hafed nockud a mote einhverium, so ad ydar Fader, sem er a Himnum, fyrergefe ydur ydar Misgiorder; og aptur seger hann (f): Ef þu ber þina Gafu fyrer Alltared, og þier kemur þar i hug, ad þinn Broder hafe nockud a mote þier, þa legg þar þina Gafu fyrer Alltarenu, og far adur ad sætta þig vid Bodur þinn; hvar af audsært er, ad Gud vill eige þiggia þad Offur, sem med reidum hug er frambored;



(e) Cap. 11. v. 25. (f) Matth. 5. 23. 24.

ed: Enn þad sem Offurenn voru a Gamla Testamenteſins dogum, þad eru nu Bæner Christenna Manna og Olmuſu giørder; þvi mattu ſama ætla um hvertveggia. Og er þad illt, ad Madurenn ſkule ſpilla ſo godum hlut, ſem ad er Bænen og Olmuſan, ſøkum Metnadar og Haturs vid ſinn Naunga.

Hier ſtendur hia Matthæum: Ef þinn Broder hefur nockud a mote þier, þad ſkil eg ſo: Ef þinn Broder hefur nockra Akiæru til þin. A eg þa ad leita Satta vid þann, ſem a mote mier hefur giørt?

Ad viſu att þu; þvi hinn ſame Drottenn ſeger hia Marcum: ef þier hafed nockud a mote einhverium, ſo ſem ſtrax var umgeted; So þad er Meiningen: ad hafer þu giørt ødrum a mote, þa ſkuler þu idraſt þeſſ, og bæta þad, ſo þinn Broder ſie fridſtilltur; Enn hafe hann giørt þier a mote, þa ſkuler þu eige rækia þad. Þetta Løgmal er eins gottfyrer eiñ, ſem fyrer añañ, fyrer Guds Dome, jafnvel, þott þad þyke Ofgaar fyrer Dome hinnar ſtolltu og heiptræku Veralldar.

Mier ſkilſt allt þetta; enn ma eg þa giøra allt ann ad hvad eg vil, ef eg alleina fyrergef minum Naunga?

Langt er fra þvi: og lat þier þad eige i Hug koma, ad þu vilier hafa þetta, til ad bæta

þeta med adrar Synder; þvi, so sem adur er sagt, þa er eige þin Fyrergefning Orsök til þess, ad GUd fyrergefe þier, helldur hañs Fyrerheit. Nu hefur heyrt, ad sa sem vill hafa Not þeirrar Kvittunar, sem hann hia Gude feinged hefur fyrer undanfarnar Synder, hann skule frammveges lifa i Endurnyungu Lifdaganna, þad er: ad hann life epter GUds Bodordum, þad mesta hönum mögulegt er; þo kanntu alldrei Bodordeñ upp ad fylla, so þu þarft daglegrar Idranar vid: Nu ef þu tilgefur þinum Brodur sinar Synder, þa heiter Frelsarenn þier, ad sinn Himneske Fader vilie fyrergefa þier þinar Misgiorder, og jafnvel þott þig kunne Storglæpe ad henda. Samt er þo eige þesse Guds Nad nockurskonar Leife til ad syndga, helldur Huggun fyrer þann sem syndgast hefur; Enn hversu vel sem þu lifer (enn þu lifer þo alldrei so sem vera a) þa vill GUd eige fyrergefa þier, þad sem abrestur, nema þu, ad fullu, tilgefer þinum Naunga; þvi hin minsta Synd a mote Gude er þess stærre, enn allt þad illt, sem þinn Broder kann ad giora a mote þier, sem GUd er Mönnum meire; hura þvi eige med þier: Eg vil Stela, Eg vil Liuga, Eg vil Hordom drygia; enn fyrergefa þeim sem vidlikt giora vid mig,

þa mun eg kvittur verda um Synder minar epter Lausnarans Fyrerheite; Helldur so: hafe eg Stoled, hafe eg Loged, og Hordom drygt, og idrast þess af Hiarta, og vil af lata þessum Syndum og fremia þær alldrei optar, þa mun GUd fyrrergefa mier þær, ef eg fyrergef minum Brodur, enn annars eige. So gefa nu þesse Ord eckert Leifi til ad syndga, helldur skulldbinda idrande Syndara til ad fyrergefa þeim, sem honum hafa mote giort.

Pad er audsied, hvernenn þesse Bæn minnne mig a þad, sem eg þarf ad bidia?

Pad mun þier virdast, nær þu hugleider, hvad miked þu ert GUDe skylldugur, og hvad þu med Syndenni hafer forþienad; Og þar ad auke, hversu tregt þier veite ad fyrergefa þinum Naunga, og hvad mikid þu misser, nema þu þad giorer, sem er: Guds Nad og þinna Synda Fyrergefning; enn veitst þo ecke, nær Daudenn kallar þig fyrer Guds Dom; og hvilikur Hafke sie, ad deya i illu Skape, ma sia a hinum vonda Þion, er Herrann hafde uppefed alla Skulldena(g): Enn er hann geck burt, greip hann fyrer Kverkar a sinum Samþion, þar fyrer var honum kastad

(g) Matth. 18. v. 28. 34.

kastad i hin ytstu Myrkur, þad merker, eilifar Kvaler.

Nu er adkomed hinne Siottu Bæn.

# Eige leid þu oss i Freistne.

Legg mier hana ut, eins og hinar. Hvad er þetta? leider Gud nockurn Mann i Freistni edur med hveriu moti?

Freistnen er med Tvennu mote: ein til gods, önnur til ills. GUD freistar ad sönnu einkis Manns til ills, seger Jacob (h), þo freistar hann Mannsens, hönum til goda, þad er: 1. Þegar hann lætur hann rata i einhvern Motgang, til ad reyna hann; edur og hann dregur undan sina Hialp i Motgangenum, ad hann þar med æfe sig, og leikist i Þolennmædenne; og ad þar med reynest hanns Frammfør, a Guds vegi, hanns Tru, Von og Elskan til Guds, Hlydnen og Stødugleikenn: eige þessvegna, ad Gud þurfe ad vita hvad med Mannenum byr; þvi aller hluter eru berer og opner fyrer hønum (i), helldur til þess, ad Madurenn lære ad þeckia GUD, og sialfann sig: Gud i þvi, ad hann ste trur, og freiste einkis yfer megn framm (k); Sialfann sig i þvi, ad hann

N 5 megne

(h) Cap. 1. v. 13. (i) Ebr. 4. 13.
(k) 1 Cor. 10, 13.

megne eckert an Guds: um þessa Freistingu talar St. Jacob (l) segande: Halldeð það fyrer allann Fögnuð, Bræður miner, þegar þier falleð i nockurs-konar Freistingar. Og skommu sidar: Sæll er sa maður, sem Freistinguna þoler, þvi nær hann er dugandes fundenn, mun hann odlast Liffens Coronu, hverre Gud hefur lofað þeim, er hann elska. 2. Freistar Gud Manusens, nær hann lijdur að hann freistist til hins illa, um stundarsaker, af sinum Andlegum Ovinum, og það fyrer sama Tilgang og aður er sagt um Mannraunner og Motlæte; og þar að auke til að kienna honum Audmyktena og Litelæted, að hann ei þykest upp yfer aðrum, sem veiker eru, þott hann sie sialfur betre kostum buenn enn þeir, edur treyste ei of miog a sialfann sig: Um þessa Freistne talar Paulus (m) segiandi: Og að eg ecki upphrokist af Mikileik Openberananna, þa er mier gefenn Fleinn i Holldeð, Eingill Satans, að hann slae mig Kinnhestum. Stundum yfervinna menn þessa Freistingu,

(l) Cap. 1. v. 2. 12. (m) 2 Cor. 12. v. 7.

gu, fyrer Guds Krapt, sem ad fullkomnast i Breiskleikanum; Stundum fær hun yfer-hønd, og þad frammkemur giarnan vid þa, sem miøg treysta sinum eigenn mætte, jafn-vel þott Guds Børn sieu: Dæme hier til eru a David, er Satan freistade hanns til ad telia folked (n); Og a Petri, er hann þøgade sier ad ganga i Daudann med Christo, enn afneitade hønum þo skømmu sidar (o): þetta skedur, nær Gud tekur sina hønd af Mannenum, og lætur hann sialfradann; þo hefur þesse Freisting alltid godann enda hia Guds Børnum, so sem af Davids og Peturs Dæmum sia ma.

Af hverium verda menn freistader til ills?

Af Andskotanum, Holldenu og Heimen-um.

Hvernenn freistar Andskotenn Mannsens?

Hann er vor skiædarste Ovinur; þvi hann eige einasta, freistar vor, med sinum Innblæstre, helldur og brukar vort eiged Hollд, þad er spillta Natturu vora, sem er hans Verk; og so Heimenn, i hverium hann drottnar, a mote oss: þar fyrer kallast hann **Freistare** (p); Um hann talar Frelsarenn, er hann sagde (q) vid Petur:

And-

(n) 2. Sam. 24. v. 1. (o) Matth. 26. v. 35. 70.
(p) 1 Thess. 3. v. 5. (q) Luc. 22. v. 31.

Andskotenn hefur girnst ad sigta ydur, sem Hveite, enn eg hefe fyrer þier beded, ad þin Trua þrotnade ecke. Hans Brogd er omøgulegt upp ad telia, þvi hann er Þusund Viela smidur, þo er þetta epterfylgiande hid hellsta: 1. Þegar GUd leggur sinn Kross a oss, þa eggiar hann Hollded a Þolenmæde, og Orvæntingu. 2. Lætur hann oss synast GUDs Alag a-stundum obærelegt, oforskulldad, sierlegt, og ødru vise enn annarra Manna; sierdeilis ef þad er margvislegt, og i þyngra læge, eins og Jobs. 3. Þegar hann lætur oss synast einn hlut godann, sem þo er oss um megn, og ecke tilheyrer vorre Kallan, enn kemur oss þo til ad takast hann a hendur. 4. Þegar hann hylur Glæpena under skine Dygdanna, so sem: Agirndena under Yferhylmingu Framsynennar, Hardydgena under skine Vandlætisins, eins og þegar hann kom Paulo til ad ofsækia GUDS Christne (r), þegar hann kallar Drambsemena Hugprydé; Favitskuna Heilagann Einfalldleika, Ohofed og Eydslusemena Orlæte, Hirduleysed og Tomlæted nefner hann Spekt og Roseme. 5. Þegar hann stelur Ordenu ur Hiortum Mann-

anna.

(r) Act. 22. 4.

ånnå. 6. Þegar hann kemur þeim til ad umſnua Guds Ordi, og kenna rangann Lærdom, og villa Salernar, annadhvert af Siervitſku, Kappe, edur Metnade. 7. Þegar hann giorer Syndena offinaa i vorum Augum, enn fegrar þad ofinióg fyrer oſſ, er vier latunſt gott giora. 8. Þegar hann giorer hana ſo ſtora, ad menn orvænta ſier Guds Nadar.

Þu hefur enn nu eige ſagt mier hvad þad ſie: innleid oſſ eigi i Freiſtni?

Þad merker ekert annad, enn þad, ad GUd late oſſ eige falla i Freiſtne. Þenna Skilning hefur haſt Tertullianus og Cyprianus Lærefedur; og er þvilikt Orda tiltæke almennt i Ritningunne, ad hun ſeger, ad GUd giore einn Hlut, þegar hann liſdur edur lofar ad hann ſie gierdur; ſo ſeger i Exodi Bok (s) ad GUd hafi forhert Hiarta Pharaonis, þar þo ſkommu adur ſtendur, ad Pharao ſialfur hafe forherdt ſitt Hiarta.

Hvernenn verdum vier af Hollde og Blode freiſtader.

Þad ſeger eingenn betür enn Jacob Poſtule (t) a þenna hatt: Sierhver einn verd=

(s) Cap. 9. v. 12. & Cap. 10. v. 1. Cap. 8. v. 15. & Cap. 9. v. 34. (t) Cap. 1. v. 14. 15.

verdur freistadur, þegar hann af sinne eigen Girnd verdur afvega leiddur, og tilegndur; þar epter nær Girnden er frioſsom orden, þa fæder hun Syndena; enn Synden, nær hun framen er, getur hun Daudann. Annars freistar Holided vor a marga vegu: med Hrædslu fyrer mønnunum, nær Ellds eyrende a ad reka; med Undandrætte og Tomlæte i voru Saluhialpar verke; med Hugleyse og Vantrauste i Mokgangenum; Ohofe og Metnade, þegar ad Oskum geingur; med Prældomsfullre Hræsne fyrer þeim sem vier ætlum oss nockud gott af, enn Dramblæte vid þa, sem eru minne mattar. Enn Diefullenn sem best þecker þenna sinn Smidisgrip hia hverium einum, hann forsomar eige ad hera þad hverium einum i Augu, sem hann er hellst gefenn fyrer, eins og þegar Agn er lagt fyrer skynlaus Kvikinde.

Hvad merker þetta Ord, Heimuren, edur hvernen freistar hann vor?

Heimur þyder eige hier þad dasamlega Forvyrke Himens og Jardar, er vier siaum; helldur merker þad Sofnud Ogudlegra, sem ecke leidast af Guds Anda, helldur eru þeir Satans Børn, og lifa epter Girnd-

um finlim; um þa talar so Johannes (u): ad Heimurenn ligge i þvi Vonda. Hann er a marga vegu GUds Børnum til Asteitingar: Fyrst offæker hann þa, sem GUds eru, so þeir meiga vel utbuner vera, ef þeir eige skulu leidast i Freistne. Jannann mata lijdur þeim giarnan vel i Heimenum, og þeim luckast hvad þeir uppbyria, jafnvel i Fiandans nafne: þad er eige litil Freisting fyrer GUds Børn, þar þeim af natturlegum Veikleika hætter til ad dæma undarlega um GUds Radstøfun af þessu. Þar um talar so David (x) Sia ad hiner Ogudlegu lifa rolega, og efla sinn Matt, þar fører hreinsa eg forgefens mitt Hiarta, og þvæ minar hendur i Sakleysenu. Og litlu sidar: Ef eg hugade med mier, ad skilia þad, þa syndest þad torvelldt i minum Augum, allt þar til eg geck inn i Helgedom hins Sterka Guds, og giætte ad þeirra Endalykt, þvi þu setur þa uppa hid haala, og kastar þeim nidur i Eydelegginguna. Hier ad auke freistar Heimurenn GUds Barna

med

(u) 1 Joh. 5. 19. (x) Ps. 73. v. 12. & 13. v. 16. 17. 18.

med vondum Dæmum, Aeggiunum, og Radleggingum, hvad allt Satan færer sier i Nyt, til ad rada GUds Þegna undan hønum.

Fyrst GUd freistar Mannsens til Gods, og lijdur ad vier a stundum verdum freistader til ills, hvers bidium vier þa i þessare Bæn?

Eingannveigenn bidium vier ad GUD vilie ecke freista vor med Krossburde og Motgange; þviad i gegnum margar Hormungar, byriar oss inn ad ganga i GUds Rijke (y); Enn um Heilaga Polenmæde i Motlætenu bidium vier, ad vier jafnan segium: verde þinn Vilie, eige helldur afbidium vier aldeilis, ad Gud late oss eige freistast af Andskotanum, Holldenu og Heimenum, þvi vor hagur i þessu Lifeer þannenn, ad vier kunnum eige an Freistinga ad vera: Af Dioflenum; þvi hann geingur i kring sem greniande Lion, leitande ad þeim sem hann fae uppsvelgt (z); Edur af Holldenu, þvi þegar vier vilium giøra þad goda, þa loder hid vonda vid oss (a); Og um Heimenn seger Eydurlausnarenn, ad þar

(y) Act. 14. v. 22. (z) 1 Petr. 5. v. 9.
(a) Rom. 7. v. 21.

þar hliote ad koma Hneixlaner (b). Pad er GUds Vilie ad þannen vera skule, ur þvi sem rada var, sidan Madurenn fiell fra hønum; þvi hvar sem eingenn Baratta er, þar er eingenn Sigur; og hann syner hvad mest sina Magt a Dieflenum, og hanns Verkfærum, þegar hann fædur hann under sinna barna fætur; þvi sagde Frelsarenn i Bænenne til sins Fodur (c): Eg bid þig Fader, ecke ad þu taker þa burt ur Heimenum, helldur ad þu vardveiter þa fra hinum vonda; hver Ord Frelsarans ad vel utskyra þessar Tvær Bæner, þessa, og hina epterkomande; þvi bidium vier nu i þessare Bæn, ad GUd late oss ecke sigrast af Freistingunne, þad er: ad hann ei liide ad vier innleidunst edur verdum innborner i Freistingu, þad er hid sama og innganga i Freistne, so sem Frelsarenn ad Orde kemst hia Lucam (d); og ad falla i Freistne, hvad Paulus greinuglega utmalar (e) segiande: þeir sem rikir vilia verda, falla i Freistne, og i Snøru Diofulsens, og i margar Girnder vitlausar, og skadsamlegar,

O hveriar

(b) Matth. 18, v. 7. (c) Joh. 17. 15.
(d) Cap. 22. v. 40. 46. (e) 1 Tim. 6. 9.

hveriar ad steypa Mannenum i Töp-
un og Fordiorfun: a mote þessu bid-
ium vier, enn eigi hinu, ad vier ei finnum
til Freistinganna, a medan vier berum
epter oss Likama þessa Dauda, jafnvel þott
vier giarnan villdum an þeirra vera. So
er þa Meiningen, i þessare Bæn, su sama
sem Lutherus seger, ad vier bidium: ad ei
hropum vier i neinar Storsynder
edur Löstu; Enn her um bænheyrer
GUD oss: 1. Þegar hann daglega endur-
nyar og eykur i oss Truna, og hennar A-
verte, so ad vier Endurnyunst i Anda vors
Hugskots, og iklædunst nyum Manne, sem
epter Gude er skapadur i Rettlæte og Heil-
agleika; þvi Freistarenn kann ei ad vinna
miög a þann, sem Gud veiter þa Nad.
2. Þegar hann vekur i oss þessa Krapta, so
ad vier brukum þa a Freistingartimanum,
þad er: þegar Diofullenn, Heimurenn og
Holdded vilia locka oss til nockurrar Synd-
ar; þvi an hanns getum vier þad ecke,
hann er þad sem verkar i oss bæde
ad vilia og framkvæma (f). 3. Þeg-
ar hana hindrar Diofulenn, Hollded og
Heimenn, og setur þeim Skamt, ad ei nae
þau

(f) Philip. 2. v. 13.

þau ad ſigta Guds Born / ſo þau falle i Freiſtinguna, edur flækt verde i Dioſulſens Snoru. 4. Þegar hann verkar i oſſ Þolenmædena, og Vonena, og lætur oſſ nægiaſt med ſina Nad (g). 5. Ef hann, epter ſinum rettferdugum Dome, lijdur, ad vier follum i Freiſtne; annadhvert vegna undanfarenna Synda; edur þeſſvegna, ad vier treyſtum oſſ ofmiog, ſo ſem David og Petur hendti; ad hann þa kallar oſſ aptur til Jdranar, og lijdur eige ad vier yfergefunſt i fraleitt Sinne; edur verdum tilfinningarlauſer, og gaungum ſo epter Girndum vors Hiarta: Og fyrer þvi ad vier eckert af þeſſu megnum af ſialfum oſſ til / ja, ef vier þad leidum i hug vorn, þa erum vier hvad nærſter Fallenu / þa ſier þu / hvad ſtora Þorf vier hofum a ad bidia GUd um, ad hann eige late oſſ falla i Freiſtne, þar vier erum ſo veiker / enn vorer oviner ſo ſkiæder / og mattuger.

Giefmier Utſkyring yfer þa Sioundu Bæn.

## Helldur frelſa oſſ fra Jllu.

Þad Ord, ſem hier ſtendur i Textanum, merker eige einaſta, ad frelſa þann / ſem allareidu er i Naud edur Haſka ſtaddur, helldur og ad vardveita einn fyrer Olukunne



(g) 2 Cor. 12. v. 9.

unne og Haskanum; Enn þetta Ord, FraIllu, leggia sumer ut: fra þeim Vonda. Þad er: fra Dieflenum; þvi so kallast hann annarstadar i Nya Testamentenu, hvad ed lender i sama Stad; þvi Satan er alls ills Orsok og Hofundur, so þegar vier erum fra honum frelsader, þa erum vier frelsader fra ollu Illu; og þegar vier erum fra ollu Illu frelsader, þa erum vier fra honum frelsader; þar fyrer stendur þesse Grein seinast af Bænunum. Þvi hun er so sem Alycktun allra hinna: Iþinum bidium vier GUD vorn Fodur um, ad veita oss þad goda, og ad sonnu afbidium þad illa med þad sama, þo eige so utþryckelega; enn hier bidium vier alls i einu, so sem Lutherus seger i Frædunum, og gengur hun i gegnum allar hinar Bænernar; þvi forgefens Helgast Guds Nafn, sem i sialfu sier Heilagt er, nema GUD hindre Diofulenn og vardveite oss, bæde fyrer honum, Heimenum og voru eigenn Hollde, ad þad ei verde af oss vanhelgad; og ei ma hanns Rijke til vor koma, edur i oss vera; ei helldur kann hanns Vilie ad vera medal vor, edur af oss frammkvæmast, nema Andskotans Rijke, sem er folged i allra Skemma ydkan, sie nidur broted, og hans Vilie, sem

sem er ad motþægia Gude, og draga Mannenn fra honum, sie mote staded; og sama er ad segia um hinar epterfylgiande Bænernar, so bidium vier nu: 1. Ad GUd vardveite oss fyrer Andskotans Vielum, og Ofbellde. 2. Hafe hann allareidu flækt oss i sinu Nete, þad er, komed oss til Syndgrennar, edur tamed a einhvern syndsamlegann Vana, þa bidium vier ad GUD vilie frelsa oss þar fra. 3. Bidium vier GUd um, ad hann vardveite oss fra timanlegre Oluckn, hvert helldur þad snerter vort Lif, edur Limu, Eigner, vorar, Æru, edur Heidur, þvi a ollu þessu kappkostar Satan ad giora oss Hindran og Skada. Enn þessa Bæn bidium vier med þvi Skilyrde, ad honum syneft þad illt fyrer oss, sem vier afbidium, enn ecke framar; Þvi vier vitum eige sialfer hvad oss er fyrer bestu; og ef vier hofum i eitthvad þvilikt ratad, hvert helldur þad er af Satans og vondra Manna Tilstille, edur og af vorum eigenn Vijtum, Forsomun edur Oferslon, þa bidium vier ad GUd vilie þad lina, bæta, edur olduugis burttaka; edur og lagfæra epter sinum þægelegum Vilia. 4. Sokum þess ad Verndenn og Frelsed fra þvi vonda, kann eige i þessum Eymdadal ad vara leinge i senn, þar vier hverke kunnum

 an

an Syndar, edur Motlætis ad lifa, a medan vier buum i Holldenu; þa bidium vier, ad vier meigum, um sider, leyster verda af øllu Andstreyme, og Arasum Diøfulsens, Heimsens og Holldsens, fyrer timanlegann Dauda. 5. Og fyrer þvi ad Daudenn gioreꝛ ecke Enda a Eymdum allra Manna, helldur er hann Upphaf Kvalanna þeim sem tapast, enn Guds Børnum Inngangur til Lifsens; þa bidium vier nu umframm alla Hlute, ad Gud vilie so stiorna Tru vorre, ad hun sie Avaxtarsom, og alldrei finnunst vier i þvi hattalage, sem vier þurfum ad ottast fyrer ad deya i, og meigum jafnan med Paulo segia, i fullu Trauste, Drottenn mun frelsa mig af øllu Illu og mig holpenn giora, og vardveita mig til sins Himneska Rijkes, hverium sie Lof og Dyrd um allder allda Amen(h); i hverium Ordum ad Postulenn syneſt ad hafa lited til þessarar Bænar: Og ef vier af Mannlegum Veikleika, edur fyrer slægdarfulla Diøfulsens Aeggian, kunnum ad rata i þad Haattalag, ad oss sie eige ohætt ad deya i þvi, ad hann þa vardveite oss fra braadum og oviſum Dauda,

(h) 2 Tim. 4. v. 18.

Dauda, og gefe oss Idran til Apturhvarfs, ad vier mættum deya Rettlaatra Manna Dauda.

**Þviad þitt er Riiked, Matturenn og Dyrden um Alldir, amen.**

Þvi fylger þesse Alyktan Bænenne?

Hun hefur miked i sier folged, og er harla naudsynleg: þvi 1. Minnum vier GUd hier a sitt Loford, og a sitt Konunglegt Embætte: þvi brukum vier þetta so sem fyrer Orsok, hvar fyrer vier eigum ad bænheyrast, nær vier rettelega bidium; og honum tilheyre, ad sia fyrer Rade voru og forsvara oss, so sem Konungur sina Þegna.

**Þviad þitt er Riikid:** þar med er meint GUds Radar-Riike, þad er, Christi riike, og þad vier bidium um i þessare Bæn, eru þeir Velgiorningar, sem hañ utdeiler, og med hverium hann stiornar þessu sinu Riike a mote Andskotanum, Holldenu og Heimenum, vegna vors Vanmættes, sem þessum so skiædum Ovinum faum eingannveigenn i mote staded, af vorum Kroptum; nema vier medtokum þad af vors Konungs hende, hvers Embætte þad er, ad vernda og frelsa sina Undersata, sem adur er sagt, og ad fa þeim þar til Vopn og Veriur, fyrst hann af Nad sinne hefur

 ut-

utvaled sier eitt Rijke i Mannanna Hiortum, og virdest ad kallast, og vera, vor Konungur, og þar fyrer hefur hann skipad, ad bidia hier um, og lofad, ad hann vilie oss bænheyra. **Pinn er Matturenn:** þesse Ord minna a GUds Almætte: ad hann alla hlute kunne miklu framar ad giora, enn vier kunnum ad hugsa edur bidia, og hann sie ollum vorum Ovinum meire. **Og Dyrden:** Med þessum Ordum minner: 1. Truen vor GUD a þad; ad þad sie honum vegsamlegt, og þad heyre til ad prísa og auglysa hanns Dyrd, hanns Giæsku, hanns Myskunseme, ad hann bænheyre oss, Pionna sina, um þa hlute, er hann hefur skipad oss um ad bidia, og gagna til ad efla hanns Dyrd. 2. Styrkest Truen vor i Bænenne vid þesse Ord, fyrst, þar vier jatum ad hanns sie Rijked, hvar inne vier lifum; þvi kunnum vier ecke ad efast um, ad so Giæskurikur Herra, sem hefur afrekad þetta Rijke med GUds Sonar Dauda, hann mune unna oss þeirra Astgiafa, an hverra sama hanns Rijke ei getur stadest, þar eingenn kann ad leida sier i hug, ad hann hafe viliad lata Sonenn forgefens a sig taka vort Holld og Blod, og lijda i þvi Kvøl og Krossens Dauda; þvi kann Truen alldrei ad ef

ast

aſt um hanns Vilia, til ad veita oſſ Bæner vorar, nær vier ſegium ad hanns ſie Rijked. 3. þar vier jatum ad hanns ſie Matturenn, þa treyſtum vier þvi, ad hann gete veitt oſſ þad hann lofad hefur, og fyrſt hann bæde vill og kann, þa meigum vier med þeſſ meira Trauſte bidia. 4. þar vier ſegium: **Og Dyrden**, þa er Truen þeſſ fullørugg, ad hann mune veita oſſ þad hann lofad hefur, til ad auglyſa þar med ſinn Guddomlegann Sannleika, ſina Magt og Godgirne, ſo ad eige ſege hiner Gudlauſu, **hvar er nu þeirra GUd?** (i) **þvi hann er Jehova, og vill eingum geſa ſina Dyrd** (k) 5. Minnum vier oſſ ſialfa a, hvernenn vier eigum ad bruka þeſſa Velgiørninga, ſem vier med Bænenne ødlunſt, og hvar til og hvernenn vier lofum ad bruka þa, ſem er: til Dyrdar honum, og hanns Rijke til Eflingar, hvar um David ſo talar (l): **þeir munu frammſegia Dyrd þins Rijkis, og tala um þina Magt, ſo ad þeir kunngiøre Mannanna Sonum þina Magt, og Mikilleik Dyrdar þins Rijkis.**



(i) Pſ. 115. 2. (k) Eſ. 42. 8.
(l) Pſ. 145. v. 11. 12.

Hvad merker þetta Ord Amen.

Þad er Hebræskt Ord, og merker i þessum stad vissulega, sannarlega, hvert brukad er i Nya Testamentenu til ad stadfesta einn Hlut, ad hann skule obrygdull vera, so sem þegar Drottenn sagde (m) vid Næningiann a Krossenum: Amen sege eg þier, i Dag skalltu vera med mier i Paradis; og er þvi Bænen alyktud og innsiglud med þessu Orde: 1. Til þess, ad minna þann sem bidur, under þad Bænenne er loked, a þad, ad athuga, med hvilikre Gudrækni og Athugaseme hann hafe lesed Bæner sinar, hveriar menn epter Christelegri Sidveniu, eru vaner ad enda med þessare Bæn; og til ad uppvekia i oss eina heita og alvarlega Andvarpan til GUDS, ad hann vilie þær vorar Bæner heyra, sem vier i Christi Nafne høfum uthellt i hanns Skaut, og innsiglad med þeirre Bæn, sem hanns Sonur hefur skipad oss framm ad bera fyrer þa Haleitu Guddomsens Þrenningu. 2. Auglyser Truen, med þessu Orde, ad nær madurenn bidur i Anda og Sannleika, þa efest hun ecki um Bænheyrsluna; helldur treyste þvi, ad allt þad sem hann umbeded hefur, i JEsu Nafne, epter

(m) Luc. 23. v. 43.

er hans eigenn Forlage, þad mune sier veitast; þvi hun tekur þetta Ord, Amen, af Fyrerheite Lausnarans, er hann sagde (n): **Amen Amen sege eg ydur, hvers þier bidied Fodurenn i minu Nafne, þad mun hann veita ydur;** Og þar til leggur hun sitt Amen so sem nockurskonar Innsigle, uppa þad, ad GUD sie sannordur, epter þvi sem stendur hia Joh. (o): **Sa sem medtekur hanns (Sonarens) Vitnisburd, hann innsiglar þad, ad GUd sie sannordur;** þvi kallar og Hieronymus þetta Ord, Amen, Innsigle Bænarennar.

Þar nu þesse Bæn innebindur so miked i sier, sem nu hefur þu sagt, hvernenn er mier þad mogulegt, ad lata mier alla þa hlute i hug koma, nær eg hana les, hversu vel sem eg villde?

Þar fyrer skalltu fyrst lata allar þinar Bæner vera bygdar a henne, so þær til þess heimfærest, sem hun i sier folged hefur; epter þvi, sem þu, ad nockruleite, hier ad framan heyrt hefur. J ødru lage skalltu ydduglega þeinkia um þessa Bæn, og þa hlute sem hun visar þier til, og sierdeilis under þad þu fer til ad bidia; enn Mannsens Hugur

(n) Joh. 16. v. 23. (o) Cap. 3. v. 33.

Hugur er fliotur ad renna a þa hlute, sem hønum tamer eru, og hann elskar, so og er Heilagur Ande med þier i Bænenne, til ad hialpa Mattleyse þinu, og ad minna þig a þad sem bidia þarf: Ef þu nu giører so, þa munu annarleger Þankar siidur glepia fyrer þier. J Þridia mata, þa liggur þier eckert a ad flyta þier med þessa Bæn; les hana seint, stødugt, og med Athygle, þa mun þier margt gott i Hug koma; og hugleid hversu stor Synd þad sie, ad fleipta hana ut af Munnenum alleina, enn hufa eckert um, hvers madur bidur: þessvegna meina eg, ad so sie tilgiørt i Heilagre Þionustugiørd, ad þesse Bæn, og adrar veniulegar, verde sungnar, so ad Folked sem asamt Prestinum a ad bidia til GUds, þad hafe Tom til ad hufa epter hvers þad bidur.

Hvad Rad skal eg hafa vid þvi, ad mier flinge eige annarleger Þankar i hug, medan eg er ad bidia?

Fyrst skalltu, adur enn þu fer ad bidia, hugleida med þier, hversu stor og skelfeleg Hatign þad er, sem þu ætlar ad frammflytia þinar Bæner fyrer. J annann mata, hvad stora þørf þu hefur a, ad verda bænheyrdur, hvad þier best ma takast, ef þu yfervegar Synd þina og Vanmatt, enn Afl og Offstæke ovina þinna, og Hættu þa, sem

sem hier er hverndag buenn af Daudanum, sem verdur hier annadhvert Inngangur til Lifsens, edur Upphaf eylifra Kvala. Ad þessu undanfornu, skalltu fyrst bidia Gud um, ad forlata hier Syndernar; og kosta Kapps um, ad vera i Nad hia honum, nær þu bidur, og so frammveges ad stiorna Hiarta þinu, og vekia i þvi Gudrækilegar Hræringar. Og ef þu ert hier medvitande þess Veikleika, ad hugur þinn hvarfle vida i Bænenne, þa bid med fam Ordum, enn þo kreptugum og alvarlegum, enn bid helldur optar: Vilie annarleger Þankar enn þa stelast inn hia þier, þa hugga þig vid Guds Myskunseme, sem tekur Viliann fyrer Verked, og bid Forlats a þessum Veikleika, ad Endingu Bænarennar.

Nu þott ad eg meige fullvissvera um Bænheyrsluna; sem nu hefur þu sagt, eige ad siidur veikest Tru min opt og tidum, og sierdeilis i Motlætenu, allrahellst þegar Gud dregur Hialpena undan, jafnvel i Andlegum efnum, astundum.

Hvad þvi vidvikur, ad Gud undandregur Hialpena, þa gierer hann þad alldrei, nema þeim til goda sem hann elska, og af Hiartabidia; þvi seger hann (p): A þægelegum tima skal eg bænheyra þig, og

a dege

(p) Es. 49. 8.

a dege Hialprædesins, skal eg hialpa þier; hver Spamannsens Ord ad Paulus heimfærer (q) til Andlegra Hluta; enn þess er ad giæta, ad þu legger þad til, sem i þinu Vallde er, og GUD hefur gefed þier Krapta til ad frammkvæma, sem er: ad krossfesta þitt Holld daglega, þad er: ad dempa Holldsens Girnder; og ad i klædast nyum Manne, þad er: ad leggia allt Kapp a, ad giera þad GUD hefur boded. Þvi hvad er þad ad bidia Gud ad taka fra sier holldlega Lyst, og syndsamlegar Girnder, enn ala þær þo og elska, og striida ecke a mote þeim? er GUD þa skylldugur ad bænheyra þig? edur hefur hann forgefens Endurfædt þig og Endurnyad? Enn ef þu leggur þad til, sem i þinu Vallde er, þa mattu vera so viss um Bænheyrsluna, so sem Gud er sannordur; enn a medan hann undandregur Hialpena, þa lat þier med Paulo, nægiast hanns Naad, þvi hanns Kraptur fullkomnast i Breiskleikanum (r). Enn hvad Truarveikinne vidvikur, þa er þad, ad sonnu, vist, ad Fyrerheit Nadareñar i Evangelio, heyra, ad sonnu, ollum til; enn uppa þad, ad Truenn, sem kemur af Heyrn Ord-

(q) 2 Cor. 6. v. 2. (r) 2 Cor. 12. 9.

Ordsens (s), mege þess styrkare verda, þa hefur Gude þocknast af sinne oumrædelegri Mystkunseme, ad lata Ordenu, sem heyrt verdur, fylgia syneleg Merke, sem eru Sacramentenn, so ad sierhverium einum verde þad meddeilt i þeirra Krapte, sem ellum er frammboded i Ordenu.

Seg mier nockud af Sacramentunum, hvad er Sacrament?

**Sacramentum** er einn Giørningur, af Gude innstiptadur, i hverium ad Himnesker Hluter, med Krapte vissra Orda, verda samteingder þeim synilegu Jardnesku Hlutunum, og af GUds Þienara meddeilder þeim, er Sacramentenn bruka, so ad med þessum hætte, verde Nad Evangelii, sem i Ordenu heiten er, so sem med ødru Innsigle og Panti, tileinkud og innsiglud þeim sem trua.

Hvad mørg eru Sacramentenn?

J Gamla Testamentenu voru Tvø Sacrament, sem var: **Umskurnen** (a), med hveriu Manneskian var innvigd og inntekenn i GUds Sattmala; annad var **Paskalambed** (b), sem var innsett i Minningu Utleidslunnar af Egypta-Lands Þrældome

(s) Rom. 10. 17. (a) Gen. 17. 10.
(b) Exod. 12.

dome. Þesse Sacramente eru nu afmad, og ønnur i þeirra stad innsett af Christo: Skijrnen istaden Umskurnarennar; enn Drottens Kvolldmaltid i stadenn Paskalambsens. Þo er edruvise hattad Gamla Testamentesins Sacramentum enn þess Nya: þvi Gamla Testamentesins Sacramente, voru Fyrermyndan og Skugge epterkomande giæda (c); Enn i þvi Nya er allt þad uppfyllt, sem i hinu Gamla var fyrermyndad, og þvi høfum vier i þeim sialfann Likamann, og sialfa Hlutena sem Paulus vottar (d) er hann seger: Ad hvilikt hafe vered Skugge þess epterkomande, enn Christi sie Likamenn; þad er: ad allt sie i Christo uppfyllt.

Seg mier nockud af Skijrnenne.

Skijrnen er hid fyrra Sacrament Nya Testamentesins, i hveriu ad Manneskian, lifande, og boren i þenna Heim, epter GUds Bode samteingdu med Fyrerheite Nadarennar, verdur ausen Vatnenu, hvert ed samteingt er med H. Anda, sem i Ordenu byr: i Nafne Fodur, og Son-

(c) Hebr. 10 v. 1. (d) Col. 2. v. 17.

Sonar og Heilags Anda; so ad Truenn, og fyrer Truna Arfleidslan og Endurfædingenn verde henne veitt og innsiglud.

Hvad merker þetta Ord, ad innsigla?

Þad merker hier ad stadfesta, og giora einn vissann um þad, sem lofad er: so sem þegar menn giora einn Giorning, þa setia þeir Innsigle þar ad nedan, so hann skule obrygdull, og stadfastur vera; so hefur og GUD giort i þessu, til ad hialpa Vantru Mannsens; þessvegna seger i Fyrsta Johannis Pistle(e); Þrir eru þeir sem Vitnes burdinn bera a Jordu, Andenn Vatned og Bloded; hvar Andenn merker Orded, þvi Guds Ande byr þar i; Vatned Skiirnena; enn Bloded þad Heilaga Alltaresins Sacramentum; og so sem Innsiglenn duga ecke fyrer utan Giorningenn, enn Gorningurenn verdur stadfestur med Innsiglunum, so megna og ecke Sacramentenn neitt fyrer utan Orded, hia þeim, sem til aara eru komner, og heilvita eru, Enn Orded og GUds Fyrerheit i Ordenu verda med Sacramentunum, so sem med nockurskonar Innsigle stadfest; þar fyrer seger Paulus(f): Ad Abraham



(e) Cap. 5. v. 8. (f) Rom. 4. v. 11.

ham hafi medteked teikn Umskurnar-
ennar, so sem Innsigle Rettlættes
Truarennar, þad er: þeirrar Truar, er
hann feinged hafde af þvi Orde, er hann
adur af sialfs GUDs Munne heyrt hafde,
ad i hanns Sæde (þad er i Christo)
skylldu blessast allar Pioder (g), og
ad hann villde vera hanns Gud, og hanns
Sædis epter hann.

Pu seger ad H. Ande samteingest med Vatnenu i
Skijrnenne: enn i Frædunum stendur ad Guds
Ord siei, og med, Vatnenu?

Pad er hid sama; þvi GUds Ande byr
i Ordenu, enn Orded er þad Medal, med
hveriu ad Guds Ande og Vatned samteingiast
Annars er þetta riett, ad Heilagur Ande sam-
teingist Vatnenu i Skijrnenne; þvi hann er sa
Himneske Hluturenn, er asamt þeim
Jardneska, sem er Vatned, giorer Skijrnena.
Þetta vottar sialfur Drottenn (h):
Nema hver fædest af Vatne og Anda,
kann hann eige inn ad ganga i Guds
Rijke, og strax þar epter seger hann: þad
sem af Andanum er fædt, þad er
Ande, og GUd utheller sinum Anda yfer
oss i Endurgetningarlaugenne; Og so sem
Paulus

(g) Gen. 22. v. 18. (h) Joh. 3. v. 5.

Paulus (i) seger Guds Son ad vera giordann af Kvinnunne, so er H. Ande og Vatned, efne vors Andlegs Getnadar, ad vier giørunst Andleger; þvi so sem ad i Alltarisins Sacramento eru Innsetningar Ordenn þad Medal, er samteinger Christi Likama og Blod vid Brauded og Vined, eins samteinger Orded hier Andañ og Vatned. Hver eru þau Guds Ord sem Vatned og Andann samteingia?

Þau eru med tvennu mote: 1. Er þad Bodorded, þad er sama og Innsetningar Ordenn, hver ritud standa hia Matthæum (k) Fared ut um allann Heimenn og kenned øllum Þiodum, og skijred þær i Nafne Fodur, og Sonar, og Heilags Anda. Annad Ord Fyrerheitesins er so hliodande hia Marc. (l) Sa sem truer og verdur skijrdur, hann skal holpenn verda, enn sa sem ecke truer, hann skal verda fordæmdur. Hverutveggiu þesse Ord samteingia med sinum Krapte (sem innefalenn er i GUDs bode og i hans Fyrerheite) þad Hinneska, og þad Jardneska; þvi seger Paulus ad Christur hafe helgad Sofnudenn,



(i) Gal. 4. v. 4. (k) Cap. 28. v. 19. (l) Cap. 16. v. 16.

hreinſadann af ſier med Vatnslaug- enne fyrer Orded (m).

Syn mier af Ritningunne ad Bornenn eigi ad ſkijraſt?

Hvad kemur hier til ad efaſt þar um?

Þetta ſem Chriſtur ſeger: hver ſem truer og verdur ſkijrdur, ſkal holp- enn verda. Enn hvernenn meiga Born- enn trua; þar þau bera eige vitsmune til, ad þeckia þann, þau ſkulu trua a?

Þu munt og fleſtu þvi trua um GUD og Guddomlega Hlute, ſem þu eige aldeilis ſkilur; annars være Truen eige Tru; þvi hun er Viſſa þeirra hluta, er vier ſia- um eige (n), i hverium vier eigum ad gefa vora Skilningu fangna under Hlydni Truar- ennar; Enn hvernenn ſem þvi er vared, þa er þad viſt, ad Bornenn trua; þad vottar hann ſialfur, ſem ollum truudum hefur Truna gefed og afrekad, JEſus Chriſtus, þa hann kallar þau þa Smælingia, ſem a ſig trua (o). Lucas (p) nefner þau ſomu Omalga-Born, og ſeger þau hafe vered borenn til JEſum, hvad ei verdur ſkiled um varenn Born; og (hvad meira er) ad Frelſarenn

(m) Eph. 5. v. 26. (n) Ebr. 11. 1.
(o) Matth. 18. v. 2. 6. (p) Cap. 18. v. 15. 16.

Frelsarenn seger (q) ad hvilikra sie Guds Rijke; enn an Truarennar er omøgulegt GUde ad þocknast, sem Postulenn vottar (r); og þeir sem Gude ei þocknast, kunna eige ad eignast Guds Rijke, og enn framar seger hann (s): ad sa sem eige medtake Guds Rijke so sem annad Ung-Barn, edur Omalga-Barn, hann gange þar eige inn. Enn þykie nockrum þetta olijklegt, þa lijte hann a Dæme Johannis Baptistæ, um hvern Eingillenn sagde (t): ad hann Munde uppfyllast af Heilogum Anda i fra Modur-Life: þvi mun þa GUd eige eins fa Verkad Truna i Smabørnunum? edur var hann Johanni meira skylldugur, enn ødru Barne, þar hia hønum er eckert Manngreinaralit? þvi ødlast Børnenn ad visu Truna i Skijrnenne, og eiga þar fyrer ad skijrast: 1. Hviad þeim tilheyrer Fyrerheit Saluhialparennar: so sagde Petur (u). Ydur og Børnum ydar eru Fyrerheitenn giørd. 2. Leifed Børnunum til min ad koma, seger Frelsaren (x); enn Skijrnen er þad

P 3 Medal,

(q) Matth. 19. 14. (r) Hebr. 11. 6.
(s) Luc. 18. v. 17. (t) Luc. 1. 15.
(u) Act. 2. v. 39. (x) Luc. 18. 16.

Medal, fyrer hvert Bornenn verda færd til Christum. 3. Hvad sem af holldenu er fædt, þad er Holld (y), enn Holld og Blod erfa eige GUDS-Rijke, seger Postulenn (z). Þvi skylldu Bornenn þa ecke skijrast? 4. Þviad Bornen voru umskorenn a Attunda degi; enn Skijrnen er komen i stadenn Umskurnarennar; hvar fyrer hun og nefnest Christi Umskurn, af Postulanum (a).

Getur eingenn Saluholpenn orded, nema hann skijrdur sie?

Su er Guds almenneleg Radstøfun i sinne Kyrkiu, ad þeir alleina holpner verde, sem skijrast; þvi sagde hann vid Nicodemum (b): Nema Madurenn Endurfædest af Vatne og Anda, kann hann eige inn ad ganga i GUDS-Rijke, þo er Gud eige vid þetta Medal bundenn; þar fyrer nær hann seger (c): Hver sem truer og verdur Skijrdur, hann skal holpenn verda, enn hver hann ecke truer, hann skal verda fordæmdur, þa seger hann eige: ad hver sem eige skijrdur verdur, hann skule fordæmast; enn þeim ei

(y) Joh. 3. 6. (z) 1 Cor. 15. 50.
(a) Col. 2. v. 11. (b) Joh. 3. v. 5.
(c) Marc. 16. v. 16.

ei kunna Skijrn ad hreppa; þeim kann Skijrnarleysed ecke ad bægia fra Saluhialpenne; þvi GUD vill ecke ad nockur af þessum minnstu tapest (d): so sem eru Børn þau er ei hliota Skijrn; so og varnermenn, sem eige kunna Skijrnenne ad na; Hvad audsied er af þeim Israels Sonum, sem bæde Unger og Gamler dou oumskorner i Eydemørkenne (e), sem og Ræningianum er do oskijrdur (f); So er og dæme þar til Sonar Davids, sem hann ol med Bersabe, hver ed deyde oumskorenn, og þo sagde Fader hanns (g): Eg mun koma til hanns, og hann eige til min. Kunnugt er, hvad GUD sagde um Børn þeirra Ogudlegu Ninive Borgar manna vid Jonam (h); Skyllda eg ecke þyrma Ninive, þeim stora Stad, i hverium ad eru meir enn tolf sinnum Tiu þusund Manns, þeirra sem ei vita til hægre nie vinstre handar. Og hia Ezech. (i) kallar GUD þau Børn sino Syne, sem ogudleger Skurgodadyrkarar fornfærdu Moloch. Hvar fyrer eingenn Efe er um

 hvilikra

(d) Matth. 18. v. 14. (e) Jos. 5. v. 5.
(f) Luc. 23. 42. (g) 2 Sam. 12. v. 23.
(h) Jon. 4. 11. (i) Cap. 16. v. 21.

hvilikra Saluhiálp; Enn hinum er einsætt, og aldeilis omissande ad skijrast, sem Skijrnenne na kunna; Enn Börnenn hafa einga Sök i Forsomun Skijrnarennar, og eru þvi under somu Nad, so sem Börn þau er Moloch voru offrud; enn su Skulld lender hia þeim sem þau skijra, edur til Skijrnarennar færa eiga, hia hverium sem Forsomunen finst ; Og er þad ein hropande Synd; þvi þeir banna Börnunum i Himnarijke, ad so miklu leite, sem i þeirra Vallde stendur; so ad Forogtun Skijrnarennar fordæmer, enn ecke Skijrnarleysed: þvi seger um Pharisæos(k): Pharisæi og Skriftlærder, sem ei skijrdust, hofnudu GUDS Rade a moti sialfum sier. Um Barnanna Saluhialp talar Irenæus Lære-Fader(l) agiætis vel: hann (Christur) kom til ad giøra alla holpna fyrer sialfann sig, þvi er hann vegna allra Alldurs komenn (hann meinar, vegna ungra og gamallra) og hann er Börnunum Barn ordenn, so hann Börnenn helgade. Hier ad auke eru Guds Heilagra Manna Vitnisburder: David eger um sig(m): allt fra Modurs-Life ertu minn Gud; enn GUd er eige nema

tru-

(k) Luc. 7. v. 30. (l) Lib. 2. Cap. 39.
(m) Ps. 22. v. 10.

truadra Gud, epter Nadenne, so sem hann sagde(n) vid Abraham, Fodur truadra: Eg skal vera þinn Gud, og þins Sædis Gud. Og Job seger um sig(o), ad hefde hann daed i Modur-Life, þa hefde hann sofnadur þagnad og hvijlt i Svefne sinum. Enn med lijk-um Ordum plagar Ritningen ad utmala Sæluutvalldra: vier mijnum inngan-ga i Hvijldena, vier sem truad høfum, seger Paulus (p) þad er i GUDS Barna Sælu. Og (q): Sæler eru þeir sem i Drottne deya, Andenn seger vissu-lega, ad þeir hvijlest af Erfide sinu; Drottenn seger sialfur vid Jeremiam (r): Adur enn þu komst ut af Modur-Life, helgade eg þig; enn eingenn verd-ur helgadur, nema fyrer Truna. Eg vil hier ei margt tala um Born þau er Pharao liet lijflata i Egyptalande (s): og Antio-chus a Maccabæanna døgum(t), adur enn þau voru umskorenn, edur Herodes(u), þegar Christur var nyfæddur. Villde nockur

 fordæma

(n) Gen. 17. v. 7. (o) Job. 3. v. 12. 13.
(p) Hebr. 4. v. 3. (q) Apoc. 14. v. 13.
(r) Cap. 1. v. 5. (s) Exod. 1. v. 22.
(t) 1 Mac. 1. 51. (u) Matth. 2. 16.

fordæma þau, þa være hann grimmare enn Herodes, sem være hin mesta Ohæfa ad þeinkia um GUD, sem er Brunnur Giæskunnar.

Ma eingenn skijra nema GUds Ords Þienare?

Eige almennelega; þvi þeir einer eru Radsmenn GUds Leyndardoma(x) Enn i Bidlogum og i Naudsyn ma hver madur skijra, so Karlmadur sem Kona, er hefur vitsmune þar til; þar fyrer umskar Ziphora Kvinna Moisis sinn Son(y), Og i Maccabæanna Bokum (z) lesum vier ad Konur hafe umskored: þvi nær Kyrkiu Þienara vantar, þa hverfur Þionustunnar Rettur aptur til Safnadarens; þar fyrer kende Apollos, Aqvilas, Priscilla, og er audvitad ad þau og skijrt hafa (a).

Hvad gagnar Mannenum Skijrnen?

Þad seger Lutherus med þessum samOrdum: Hun frelsar oss fra Daudanum, og Dioflenum, og gefur þeim øllum eylift Lif og Saluhialp, sem trua þvi sem OrdennGUds og Fyrerheitenn lofa; Hvad hañ utleggur i hinum Stæne Catechismo a þenna hatt: ad Skijrnarennar Kraptur,

Verk,

(x) 1 Cor. 4. v. 1. (y) Exod. 4. v. 25

(z) 1 Maccab. 1. v. 63. & 2. Maccab. 6. v. 10.

(a) Act. 18.

Verk, Avoxtur, og Tilgangur sie, ad giøra Mennena holpna; þvi eingenn verde til þess skijrdur, ad hann verde Høfdinge, helldur til þess ad hann holpenn verde, so sem Ordenn hlioda; Enn vier vitum, ad þad er eckert annad, holpenn ad verda, enn ad verda frelsadur fra Syndareñar, Daudans og Diøfulsens Ofrijke, og i Rijki Guds Sonar settur ad verda.

Hverneñ verda meñ fra Daudanum frelsader þar þeir aller hliota þo einusinne ad deya?

Þad skedur þañeñ: ad vier verdum fyrst Jardader fyrer Skijrnena til Daudans (b), þad er, til ad deya Syndeñe, og til ad deyda hinn gamla Adam; þvi ad i Skijrneñe hliotum vier Krapta til þess, so ad lika sem Christur er uppvakenn fra Daudum, fyrer Dyrd Fødursens, so getum vier geinged i Endurnyungu Lifdaganna; Eñ þeim ed so ganga, og trua a GUds Son, kann Daudeñ ecke ad granda, þvi þott þeir deye, skulu þeir samt Lifa, so sem Frelsareñ lofar (c).

Med Hveriu mote skedur þetta?

Þu hefur heyrt ad madureñ fædest i þeña heim

(b) Rom. 6. v. 4. (c) Joh. 11. v. 25.

HeimReidennar Barn(d), þvi hvad sem af Holldenu er fædt, þad er Holld (e), Enn Holld og Blod kann eige GUds Riike ad erfa (f). J einu Orde ad segia: Þad er under Satans og Syndarennar Vallde; Enn i Skijrnenne verdum vier Endurfædder, og GUds-Børn af Satans Børnum.

Hvad er þad Holld og Blod, sem þu talar um? aller menn hafa Holld og Blod.

Þad er eige þad synelega Holld og Blod sem vier apreifum og Augum lijtum; helldur er þad su Spilling er vier køllum Upprunа Synd, og i Ritningunne nefnest hinn gamle Madurenn, þad er, su Jllska er vier, madur epter mann, høfum i Arf tekid epter vorn fyrsta Fødur Adam: þvi kallast hun og hinn gamle Adam; Hun er hin næsta Orsøk til alls ills, er vier adhøfunst, þad er: ad vier erum Reidegiarner, Heiptræker, Omillder, Dramblater, Agiarner Øfundsiuker, Lygner, Later, Lauslater, Ohoffsamer, Hirdulauser, Vantruader, og i einu Orde: til allra Lasta og Klækia hneigder af Natturunne, sumer meir, enn sumer minna; og eige einasta hurum

(d) Eph. 2. 3. (e) Joh. 3. v. 6.
(f) 1 Cor. 15. 50. (g) Eph. 4. 22. & Col. 3. 9.

hurum vier þessar Odader, helldur frem-
ium þær, epter því sem hver er lyndur til,
og þorer ad giøra; nema Drottens Ande,
sem oss i Skirnenne gefenn er, hefde oss apt-
ur af slijku; og þar vier erum so giarner a
hid illa, þa høfum vier leida a øllu godu,
og því sem GUD hefur boded. Nu fyrst vier
erum i Christi Rijke setter, þa getum vier fyrer
Krapt Endurgetningarennar drepéd vondar
Girnder, og þad heiter ad deyda hiñ Gam-
la Mannenn, hvad ad er hin retta Bruk-
un Skijrnarennar.

Hvad er Endurgetningen?

Endurgetningen er GUds Nadargiørn-
ingur, med hverium ad Madurenn, holld-
legur af Holldlegum fæddur, endurfædest
med Ordenu og Skijrnenne, og verdur and-
legur af Andanum fæddur, fyrer Forþien-
ustu Christi Dauda og Upprisu, og ødlast
fyrer Truna Fyrergefning Syndanna,
Arfleidslu GUds Barna og Arf eylifs Lifs.
Þetta er liost af epterfylgiande Ritningar-
ennar Ordum: Paulus seger (h): ad
Christur hreinse Sofnudenn med
Vatnslaugenne fyrer Orded, og til
Titum (i) seger hann: Ecke af Rettlæt-
essins.

(h) Eph. 5. v. 26. (i) Cap. 3. v. 5.

esins Verkum, sem vier giordum, helldur af sinne Myskunseme, hefur hann oss holpna giørt, fyrer Endurgetningar-Laugena, og Endurnyungar Heilags Anda; hvar af sia mä ad Endurgetningen er Orsøk til Saluhialparennar, og Petur seger (k). Blessadur sie GUD og Fader Drottens vors JEsu Christi, sem hefur Endurgeted oss til lifande Vonar.

Hvad er þad, ad verda Andlegur af Andanum fæddur?

Þad er ad fa nya Krapta, sem H. Ande i Skijrnenne innplantar i Mannsens Salu, til ad deyda Hollded, þad er, holldlegar Girnder, og til ad hata Syndena, enn ad elska GUD, og þad sem hann boded hefur.

Verdur Madurenn þa aldeilis Andlegur, þegar hann er Endurfæddur?

Nei: eigi er þess von, a medan vier bu-um i Holldenu: vier ødlunst alleina Frumvøxt Andans, so sem Paulus ad orde kemst (l), Enn Leifar hinnar gomlu Spillingar loda þo vid oss, so leinge vier lifum; yfer hverium Paulus kvartar (m). Segiande: ad hann finne eitt annad Log-



(k) 1.Ep.1.v.3. (l) Rom.8.v.23.(m) Rom.7.v.23.

mal i sinum Timum, sem motstriide sins Hugskots Logmale, og take sig fangenn under Syndarennar Logmal; Og hier af kemur su Baratta sem er a millum Holldsens og Andans, so leinge sem vier lifum i Holldenu.

Hvilijk er Truen, su er rettlæter Mannenn?

Su Tru, fyrer hveria Madurenn rettlættur verdur, hun er eige einasta ein fullkomen Pecking a alls Mannkynsens Endurlausnara, JEsu Christo, og ad GUds Reide sie fyrer hann blidkud, og stillt, enn Naden øllum heiten; helldur og er hun eitt efalaust Hiartans-traust her um, med hveriu ad Syndarenn, angradur og sundurkamenn i Hiartanu vegna Synda sinna, fulltreyster þvi, ad GUd mune sier, þott hann være allra manna syndugastur, Syndernar fyrergefa, fyrer sins Sonar skulld, og tilreikna sier hanns Rettlæti.

Verdur þesse Rettlætande Tru veitt Mannenum i Endurfædingunne?

Ad sonnu veitest hun Bornunum i Skijrnenne, under eins og þau Endurfædast, so sem adur er, ad nockruleite, sagt, og eige þarf Skijrnen Truarennar med til ad verka Truna i þeim; Enn þeir ed gamler skijrast, verda fyrst i Trunne, þad er Truarbrogdunum,

ad

ad uppfrædast, so þeir, fyrer Nad GUds, samsinne því, sem af Gude og Christo sagt verdur, þeim til Saluhialpar, og ad idrast undanfarenna Synda, so þær verde þeim fyrergefnar: Þetta er liost af Dæme Gelldingsens er sagde vid Philippum (n): Sia Vatned, hvad er i mote því eg Skijrest? enn Philippus svarade: Ef þu truer af øllu Hiarta, þa leifest þad. Hann sagde: Eg true ad JEsus Christus sie Sonur GUds; og um Corinthios seger (o): þa þeir heyrdu þad, trudu þeir, og voru skijrder. Enn þessa Jatning giora Gudfedgin vegna Barnanna, i því trauste, ad þeim mune Truarennar Ástgiof strax meddeilast, vid hveria ad sa er bundenn sem skijrdur er, nær hann til Vits og Ara kemur;

Enn um Jordanena, er auglios Adferd Johannis Baptistæ, og Postulanna, i hinu Fyrra Christni Bode: Hia Matthæum (p) stendur: Þeir urdu skijrder i Jordan af honum, medkennande Synder sinar. Og er þeir skarust i sinum hiortum, er hlyddu a Rædu Peturs, og

(n) Act. 8. 36. 37. (o) Act. 18. v. 8. (p) Cap. 3. v. 6.

og sögdu: Hvad skulum vier giöra; þa svarade hann: Giöred Jdran, og hver ydar sem einn late skijrast i Nafne JEsu Christi, til Fyrergefningar Syndanna (q). Sver þa Verk-unEndurgetningarennar su hia Vornunum, ad þeim veitest Truen; enn hia þeim, sem til aara komner eru, stadfestest hun og innsiglast med Skijrnenne.

Er þar nockud meira sem Skijrnen verkar fyrer Endurgetninguna med Mannenum?

Truarennar Nafn hefur þad ad sönnu allt i sier fölged; Enn til þess ad Skijrnarennar Kraptur og Verkan betur skiliest, þa kenner Christeleg Kyrkia so: 1. J Endurgetningunne verdur Skilningurenn upplystur, so ad vier getum lært ad þeckia JEsum Christum oss til Saluhialpar, og ad skynia hvad Guds Anda er, hvad holdlegum Manne er omögulegt (r), þvi hanns Þankar eru Reide og Fiandskapur i gegn GUDe (s) sem Postulenn vottar, og her um talar hann so (t). Gud sa ed baud Liosenu, ad



(q) Act. 2. v. 38. (r) 1 Cor. 2. v. 14.
(s) Röm. 8. 7. (t) 2 Cor. 4. v. 6.

Skijna ur Myrkrunum, hann hefur, skiined i Hiortum vorum, til Upplysingar dyrdarlegrar þeckingar Guds, i Persónu JEsu Christi; hvar Postulenn, an efa, meinar Skiirnena, sem nefnest upplysing hia Grickium, enn Skiirn hia oss, hvert Ord ad er semu Meiningar, þvi upplyster hluter eru skiærer, af hveriu Orde Skiirnarennar Nafn er dreiged. J ødru lage lagfærest Viliinn (sem af Natturunni er giarn a hid illa) og hneigest til Hlydnis Truarennar; þar um talar so Paulus (u): Þacker sieu Gude, ad þier vorud Prælar Syndarennar, enn þier hafed af Hiarta hlydnast þvi Lærdoms forme, er þier vorud sellder til. J Pridia máta ødlunst vier i Endurfædingunne Fyrergefning Syndanna, og verdum rettlætter fyrer Gude fyrer Truna; þviad i Endurgetningar-laugenne uthellet Gud yfer oss yfersliotanlega Heilogum Anda, so vier rettlætter fyrer hanns Naad verdum Erfingiar eylifs

(u) Rom. 6. v. 17.

lifs Lifs (x); og fyrer sama Anda ødlunst vier Arfleidslu Guds Barna; þar um talar so Paulus (y): Þier hafed medteked, eige Prældoms Anda, aptur til Otta, helldur hafed þier medteked Arfleidslunnar Anda fyrer hvern vier køllum Abba, Fader, og um sider ødlunst vier eyliff Lif, aller þeir ed færa sier i Nyt þessa giæskufullu Radstøfun hins lifanda Guds; þvi seger Paulus (z): Enn ef vier Børn erum, þa erum vier og Erfingiar GUds, enn Samarfar Christi. Og Petur seger (a): hann hefur Endursædt oss til lifandi Vonar, til þess Arfs, sem er a Himnum geimdur.

Hvernen er vared Rettlætingunne, er þu umtalader?

Hun er i tvennu innefalen: fyrst i þvi, ad Gud eigi tilreiknar oss vort Ranglæti; þader, Synder vorar, þad vottar Paulus (b). Gud hefur i Christo forlikad Heimenn vid sialfann sig, tilreiknande þeim eige Synder þeirra;



(x) Tit. 3. v. 6. 7. (y) Rom. 8. v. 15.
(z) Rom. 8. v. 17. (a) 1 Pet. 1. v. 3. 4.
(b) 2 Cor. 5. v. 19.

og i annann mata ad hann tilreiknar ossins Sonar Rettlæti, þvi kallast hann og **Jehova vort rettlæte** (c), þetta styrker Paulus (d): **Þann sem ecke visse af Synd, hann hefur GUD giort ad Synd, so ad vier Yrdum GUDS Rettlæte i hønum**, þad er, rettlætter fyrer Gude.

Verdur Madurenn Rettlaatur fyrer Gude þadan i fra, ad hann er i Skijrnenne einusinne rettlaatur?

Missa kann hann þad Rettlæte, sem hann i Skijrnenne ødlast, og þvi verr, ad margur misser þad aldeilis. Þu hefur allareidu heyrt, hverier ad sieu hiner sierlegustu Avexter Endurgetningarennar, a medal hverra er Fyrergefning Syndanna, af hverre Rettlætingenn framkemur; enn þesse Rettlæting er ei þess hattar, ad Uppruna-Spillingen takest i burtu, so Madurenn kunne ei framveigis ad syndga, helldur verdur Sekt hennar burttekenn, og Rettlæte Christi oss tilreiknad; enn þessare GUDs Naad kann Madurenn ad tapa, jafnvel þott hønum sieu Syndernar einusinne tilgefnar, og hann hafe i Endurgetningunne so mikla Krapta ødlast, ad hann gete, ef hann vill, GUde hlydnast,

(c) Jer. 23. 6. (d) 2 Cor. 5. v. 21.

hlydnäst, so ei misse hann þa Naad, og Rettlætingu, er hann i Skijrnenne ødlast hefur, þvi þær Synder, sem oviliande og öforhurad verda Mannenum, reiknar Gud eige til Ranglætis, þeim sem Endurfæddер eru; ja, einn eigenn kunna Guds Born og hanns Utvallder ad missa þessa Naad, og falla i Guds Oblydu, sem sia ma af dæme Aarons (e), Davids (f), Peturs (g) og annarra sem i Storsynder ratad hafa; samt eiga þeir aller apturkvæmt til Naadar Guds, sem einusinne i Skijrnenne rettlætter eru, idrast Syndanna, og trua þvi, ad þær verde tilgefnar fyrer JESU GUDS Sonar Forþienustu, fyrer hveria þeir i fyrstunne Endurfædder og Rettlætter eru; so þott ad Endurgetningen verde i einu, þa varer þo hennar Kraptur um alla æfe þess, sem leggur Kapp a ad ganga i Endurnyungu Lifdaganna: Pär fyrer a Guds Barna Lijferne ad vera, so sem ein sifelld Skijrn; og fyrer þvi seger Lutherus, ad Vatns-Skijrnen merke þad, **ad hinn Gamle Adam eige i oss daglega ad dreckiast og deydast**; og eige einasta merker hun þad, helldur veitist oss i Skijrnenne

 enne

(e) Exod. 32. 4. (f) 2 Sam. 11. 5. 15.
(g) Matth. 26. v. 74.

enne Heilagur Ande, ſa ed verkar med oſſ bæde ad idraſt og af ad lata Syndunum, enn ad fara vaxande i Gudrækelegu Frammferde, þott alldrei verde þad fullkomed i þeſſu Lijfe, ſokum Breiſkleikans; þvi þurfum vier og daglegrar Idranar vid, ecke einaſta fyrer ſtorSyndernar, er menn drygia a mote Samvitſkunne, og med Umþeinkingu, helldur og fyrer hinar, er vier ſmaar kollum, og verda ad Ovilia, edur af Bradræde.

Hvad er Endurnyungen?

Endurnyungenn er GUds Naadarverk i oſſ, med hveriu ad fyrer Heilagann Anda, vegna JEſu Chriſti Forþienuſtu, temiaſt i þeim Manne, ſem i Skijrnenne er endurfædd-ur, og rettlættur, Leifar Uppruna ſpillingarennar, dag epter dag; Enn hann verdur ætid i Hugſkotenu, og i Tilhneigingunum meir og meir lagfærdur, og epter Gude myndadur, epter þvi ſem þad ſke kann i þeſſa Holldz Vekleika, ſo hann fyrer Truna vardveitſtur verde til eylifs Lijfs.

Hvernenn verkar GUd þetta i Mannenum?

Hvernen GUd þad verke, getur eige nockur madur ſagt, enn þad kenner oſſ Ritningen, ad allt þvilijkt verkar H. Ande med oſſ; þvi nefneſt þad Helgan Andans (h), hveria hann utretter med Ordenu og Sacra-

(h) 2 Theſſ. 2. v. 13.

Sacramentunum, ſo ſeger Chriſtur (i): Fader helga þa i þinum Sannleika, þin Ord eru Sannleikur; Enn um Skijrnena ſeger Paulus (k): ad hun ſie Endurgetningarlaug Heilags Anda, og þad þeſſvegna, ad i Skijrnenne verda oſſ meddeilder Kraptar til ad Endurnyaſt daglega, ef vier ſløckvum ekke Andann, ſem Paulus ad Orde kemſt (l), Enn i Alltareſins Sacramento verda aller rettruader eitt med Chriſto (m), i hverium menn bera mikenn avoxt (n). Fyrer þeſſa alvitra Radſtøfun GUDS, verdur hann, ſem daudur er i Syndunum, fyrſt Lifgadur (o) og hinn ogudlege rettlættur (p), So hann gete ſidan offrad ſialfann ſig eina Lifande Forn, heilaga og þocknanlega Gude, i hveriu ad Endurnyungenn er følgenn.

Hver er mismunur Endurgetningarennar og Endurnyungarennar?

1. Endurfædingen, ſem og hefur Rettlætinguna i ſier folgna, hun geingur undan



(i) Joh. 17. v. 17. (k) Tit. 3. v. 5.
(l) 1 Theſſ. 5. 19. (m) Joh. 6. 56. og Cap. 15. 4. (n) Joh. 15. v. 5.
(o) Eph. 2. v. 5. (p) Rom. 4. 5.

Endurnyungenne; þvi Endurnyungen er hennar Avoxtur. 2. Madurenn hialpar eckert til sinnar Endurfædingar edur Rettlætingar, helldur er hann þar i, so sem Steinn, fyrer þeim, sem hønum velltev; þvi vier fædunst dauder i Syndenne; Enn i Endurnyungenne er Madurenn GUde samverkande, fyrer þa Krapta, sem hønum i Endurfædingunne veitter eru; þvi bydur Paulus(q): **Ad vier skulum ummynd-ast i Endurnyungu vors Hugskots;** hvad hann munde eige bioda, nema nockud stæde i þess manns Vallde, sem Endurfæddur er; jafnvel þott GUds Anda Kraptur verke pad mesta; þvi seger hann aptur(r): **Ad Andenn hialpe Maattleyse, edur veikum mætte vorum.** 3. J Endurfædingunne rettlætunst vier af Christi Rettlæte, sem oss er afrekad, og med Trunne medteked verdur; Enn vier Endurnyunst med voru eigenn Rettlæte, hvert þo alldrei verdur fullkomed, sokum Veikleika Holldsens, og þarf þvi alltid med hins fullkomna Rettlætis Christi. 4. Rettlætingen verdur i einu Augnablike: so fliott sem vier med Trunne medtøkum Christi Forþienustu, so fliott rættlætunst vier, þad er: oss verda under

(q) Rom. 12. v. 2. (r) Rom. 8. v. 26.

er eins Syndernár fyrergefnar, og allur vor Ofullkomlegleike bættur; Enn Endurnyungen frammkemur smamsaman, þvi sa innre Madurenn Endurnyast dag epter dag seger Paulus (s).

5. J Rettlætingunne hialpa God-Verkenn aldeilis eckert, þvi vier rettlætunst, an Verdskulldunar, af Guds Nad, fyrer þa Endurlausn, sem sked er i JEsu Christo (t); Enn ef þad er af Nadenne, þa er þad ecke af Verkunum (u); Enn i Endurnyungenne eru þau innefalenn, og Endurnyungenn i þeim: Þvi erum vier Skapader i JEsu Christo til Godra Verka, hver GUD hefur tilbued, ad vier gaungum i þeim (x).

Verdur Madurenn so opt Rettlættur, sem hann idrast Syndanna, og truer þær verde sier tilgefnar?

Ad visu verdur hann þad. Jfyrstu verdur hann i Skirnenne rettlættur; enn fyrer þvi, ad vier daglega syndgunst, og fremium Ranglæted, þa þurfum vier so opt Rettlætingarennar vid, sem vier syndgunst,

 hveria

(s) 2 Cor. 4. v. 16. (t) Rom. 3. v. 24. (u) Rom. 11. v. 6. (x) Eph. 2. v. 10.

hveria vier ødlunst fyrer sanna Jdran; þvi alltid varer Kraptur Endurgetningarennar til ad rettlæta þa fyrer Truna, sem idrast af Hiarta, þott eige sieum vier nema eitt sinn Vatni ausner, og hann sem daglega idrast, hann (so ad segia) skijrest daglega; þviad i Skijrnenne er oss Naden gefenn, og Andenn og Krapturenn til ad temia hiñ Gamla Mannenn; Enn þeir sem eige vilia leidast af Andanum, eñ ganga epter Holldenu, þad eru þeir, sem idrunarlaust frammfara i Syndum og Glæpum, mote Samvitskunne, þeir hafa skijrnareñar eingeñ not, medan þeir eru þvijliker, helldur eru þeir Andlega daudder, og kunna eige Gude ad þiona (y), og missa so Truna, og GUds Nad, so sem þeir ed utreka goda Samvitsku, og lijda Skipbrot a Trunne (z) hvar af þu sier, hversu omissande ad er dagleg Endurnyung; þo gagnar Skijrnen, og Endurgetningen þeim, sem so frafalla, og jafnvel leinge hafa villt fared, til þess, ad þeir eiga apturkvæmt til Guds Nadar, so þeir geta þvijngad Hollded under Ok sannrar Jdranar, aptur a ny; þvi a hverium tima sem hinn ogudlege snyr

(y) Rom. 8. v. 8. (z) 1 Tim. 1. 19.

snor ser til GuDS, þa skal hann lifa, allra hanns Synda skal ecke ad eylifu minst verda seger Drottenn (a).

Fyrst menn briota þann Saattmala er Gud giordi vid ossi Skirnenne, þurfa menn þa eige ad giora hann ad nyu?

Eingann nyann Saattmala þarf Gud ad giora vid oss uppa sina sijdu, þvi hanns Gafur eru ei þannen, ad hann kunne ad ydrast þeirra (b), enn søkum vorra Afbrota þurfum vier hann ad endur nya.

Hvernenn skedur þad?

Þad skedur fierdeilis i Alltaresins Sacramente.

Hvad er Sacramentum Alltaresins?

Sacramentum Alltaresins er hid Annad Nya Testamentesins Sacrament, innsett af sialfum JEsu Christo, i hveriu, epter hanns Bode og Fyrerheite, hanns Sannarlegt Holld verdur meddeilt, i og med helgudu Braude, øllum þeim er þad eta; og hanns sannarlegt Blod, i og med helgudu Vine, øllum þeim er þad drecka; enn hia þeim alleina, sem trua, verdur med þessare GUDs Giof, so sem med

(a) Ezech. 18. v. 21. (b) Rom. 11. 29.

med ødrû Jnnsigle, Endûrnyungarennar Kraptar, og Syndanna Fyrergefning styrkt og stadfest, til þess, ad þeir, ed þad verduglega bruka, ødlest eylift lif.

Hvernenn ma eg þad skilia, ad Holld og Blod Drottens, sem er til Himna uppstijged, þad veitest mier i og med Braudenu og Vijnenu?

Þu fær þad eige skiled, helldurenn hvern annann þvilikann Leyndar dom Guds; enn fyrer þvi ad Gud, þad er: JEsus Christur, Gud og Madur i einne Personu, i hvers Munne alldrei vorl Svik fundenn, (a) hann hefur þad talad, og skipad þier og allre Christnenne so ad hallda, sem hann innsett hefur, þa att þu, og matt þvi stadfastlega trua; enn undrast ecke, þott hanns Holld sie til Himna upphafed, og þo nalægti Sacramentenu; þvi Postulenn seger (b): ad i honum bue øll Fylling Guddomsens likamleaa, þad er, i hanns Likama; so ad hvar sem Christi Guddomur er, þar er og hanns Manndomur: enn þad er vist, ad Gud er allstadar; þvi skylldi þa eige Christi Likame kunna i Sacramente Alltaresins nalægur ad vera, med þeim hætte, sem Gude einum er kunnugur.

Hvert

(a) Es. 53. v. 2. (b) Col. 9. v. 9.

Hvert er þad Bodord, er þu talader um?

Þad er þad sem stendur hia Matthæum (c) Marcum (d) og Lucam (e); hvert þu les i Innsetningar ordunum, sem eru þesse Ord:
Giored þad i mina Minning.
Dreeked þad i mina Minning.

Hvert er Fyrerheitesins Ord?

Þad stendur i Innsetningar Ordunum med þessum Hætti: Þad er Caleikur hins Nya Testamentis i minu Blode, sem fyrer ydur uthellest til Fyrergefningar Syndanna; J hverium sidurstu Ordum, þeim er lofud og heiten Fyrergefning Syndanna, sem eta GUds Sonar Holld, og drecka hanns Blod, verduglega.

Kannske ad þesse Ord: Þad er minn Likame, þad er mitt Blod, hafe annarlega Þijdingu, og þijdi eigi þad verulega og sannarlega Holld og Blod Drottens, helldur sien Teikn þeirra alleina?

Þad være Ogudlegt ad þeinkia um Christum: þvi þetta er Testamentum, edur hin sidarsta Radstøfun, er hann giorde, under sinn Dauda, vid Christilega Kyrkiu, fyrer sitt Blod; Enn eitt Testament giorest med

(c) Cap. 26. v. 26. 27. (d) Cap. 14. v. 22. 23. (e) Cap. 22. v. 19.

med fullum og skijrum Ordum, med hverium, ad sa sem þad giorer, ecke skrifar annad, enn hann meinar; Og eru þad Ofgar ad ætla GUds Syni, ad hann sem þa var buenn til, ad utgefa sitt Lijf i Daudann fyrer Mannkyned, ad hann munde vilia draga Christnena a talar med tviræduum Ordum, fyrer hveria hann bored hefur GUds Reide, og þolad hinar bitru Helvitis Pijsler, og miklu helldur laata þau skiliast, so sem þau tolud eru. Og alldrei hefur hann edur hanns Postular þesse Ord odruvise utlagt; þad er vitanlegt þegar hanns Lærespeinar eige skildu þad sem hann kiende, þa spurdu þeir hann um Skilning Kemingarennar, so sem hia Matth. stendur (f), er þeir beiddu hann, ad leggia sier ut Epterlikinguna um Illgresed, og vidar annarstadar; edur og ad þeir ræddust a þar um sin a millum, so sem (g) er þeir sogdu: Hvad er þad hann seger: innan litels tijma? vier vitum eige hvad hann seger: Og þa hann taladi i Epterlikingum, lagde hann sinum Læresveinum ut alla hlute Heimuglega, seger Marcus (h); Enn þad skal alldrei finnast, ad þeir hafe annad-hvert

(f) Cap. 13. v. 36. (g) Joh. 16. v. 18.
(h) Cap. 4. 34.

hvert efast um Skilning þessara Orda, edur spurt hann þar ad, edur hann utlagt þau ødruvise. Og þott einhver villde segia: ad þeir hafe ei giœtt þess, vegna Fæfrædes sins, þa hygge hann ad þeim Ordum er JEsus sagde(i): Eg hefe enn nu margt ad segia ydur, enn þier geted þad nu eige griped, enn þegar hann kemur sa Sannleiksins Andenn, hann mun leida Ydur i allann Sannleika. Hver vill nu vera so ogudlegur ad ætla, ad Mannkynsens Frelsare munde hafa leynt Skilninge þessara Orda (a hverium ad so miked riidur) fyrer sinum Lærésveinum, er hann utsende til ad kenna øllum Þiodum? edur ad H. Ande hafe forsomad ad giora sitt Embætte; edur i Þridia lage, ad Christi Tolf Postular, sem lietu flester liif sitt fyrer þessa Kienningu, þeir mundu hafa Orded samrada i þvi, ad draga Mannkyned a talar med þvi, ad lata þad ei vita rettann Skilning ordanna, ef þau ættu ødruvise ad skiliast enn þau hlioda? þar þo Paulus vitnar fyrer Biskupunum i Epheso (k): ad hann hafe eingu undanskoted, ad ei hafe hann opennberad þeim allt Guds Rad. Verd-

(i) Joh. 16. v. 12. (k) Act. 20. 26. 27.

Verdur þa Brauded umbreitt i Holld, og Vijned i Blod?

Eingannveigenn: þvi þu ſier og finnur Brauded, ſem þu etur, og Vined, er þu dreckur; helldur er GUds Likami, og hanns Blod þar i, og med, þad er: ad Hollded er ſamteingt Braudenu, og Bloded Vijnenu, þo eige ſiaer þu þad; eins og þu ſier eige Heilagann Anda i Skirnarlaugenne, og þo er hann Vatnenu ſamteingdur; Og ſo ſem ad GUd var i Chriſto (l) og med Chriſto (m) fyrer Einingu Perſonunnar, þo oſynelegur, ſo er og Chriſti Holld og Blod i, og med Braudenu og Vinenu, fyrer Eningu Sacramenteſins, þo ei verde þau ſied: þvi ſagde Chriſtur, þa er hann feck þeim Brauded og Caleikenn; þetta er mitt Holld og Blod, enn Braudſens og Vinſens getur hann ecke, þvi ad þeir ſau þau, og medtoku þau, ſynelega og þreiſanlega, enn hanns Holld og Blod ſau þeir eige; fyrer þvi greinde hann hier þa n hellſta Part Sacramenteſins, ſem var i og med Braudenu og Vinenu. Madur kann ad ſkilia þetta betur af almennlegu male, þott oliku ſie ſaman ad jafna; þegar eg ſæ einum Handſkrift uppa nockra Peninga, þa ſege eg: þetta

(l) 2 Cor. 5. v. 19. (m) Act. 10. v. 38.

þetta er Handſkrift uppa ſo marga Peninga, enn ecke ſege eg: þetta er Pappir og min Handſkrift. Nær eg af hende einum eitt Jlat fullt af viine, þa ſege eg: þetta er Viin, og ecke: þetta er Trie og Viin, þvi hann ſier, ad þad er Pappir og Tre, ſem hitt innehelldur. Þvi merkia þeſſe Ord Chriſti, i Innſetningar-Ordunum, ſo miked ſem hann ſagt hefde: i og med þeſſu Braude og Viine er mitt Holld og Blod; og þvi brukar Chriſteleg Kyrkia þeſſe Ord: i og med, epter Chryſoſtomo og Auguſtino, til ad utmala þenna Leyndardom, eige til þeſſ ad utſkiira þar med Haatt og mata, hvernenn Hollded og Bloded ſie nalægt (þad fær eingenn madur griped) helldur til ad auglyſa, ad vier truum, ad þau ſieu þar ſannarlega og verulega nalæg, og i þeſſare Tru ſtyrker oſſ Paulus er hann ſeger(n): Bleſſunarennar Kaleikur ſem vier bleſſum, er þad eige Meddeiling Chriſti Blods; Brauded ſem vier briotum, er þad eige Meddeiling Chriſti Likama; enn i allre Meddeilingu, er bæde þad ſem meddeilt er, og ſa, ſem meddeilt verdur, ſo er og hier:

R Ann-

(n) 1 Cor. 10, v. 16.

Annarsvegar er Brauded og Hollded, Viined og Bloded; enn annarsvegar erum vier, sem þau medtokum; enn hverutveggiu Hlutena, bæde þa Himnesku og þa Jardnesku nefner Postulenn til þessarrar Meddeilingar, þvi medtokum vier og hverttveggia. Og dugar þetta Postulans vitni, bæde til þess, ad syna, ad oss sie JEsu Christi sannur Likame og Blod meddeilt i Alltaresins Sacramento, sem og hitt, ad ei umbreitest Brauded og Vined i Holld og Blod, helldur samteingest hvert med ødru, eins og Andenn og Vatned i Skijrnarennar-Sacramento; þvi nefner hann hier **Meddeiling.**

Munu þesse Ord: taked og eted, drecked aller Þer af, munu þau, sege eg, tilheyra nema Læresveinunum, sem Drottenn talade vid i þad sinn?

Ad visu tilheyra þau allre Christnenne, allt til Veralldarennar enda; enn Postularner voru so sem hennar Umbodsmenn, til ad taka vid þessare Gudsgief; þar fyrer seger og Paulus, sem þo var eige nalægur þegar Frelsarenn innsette þetta Sacramentum, hann seger (o), er hann talar hier um: **Eg hefe medteked af Drottne, þad eg ydur afhendt hefe.** Og aptur seger hann

(o) 1 Cor. 11. v. 23.

hann i sama Capitula (p): Ad menn skule hier med kunngiora Dauda Drottens, þar til hann kemur, þad er: allt til Enda Veralldar, nær hann koma mun Heimenn ad dæma; og Kraptur þessarra Orda: þetta er minn Likame, þetta er Kaleikur hins Nya Testamentis i minu Blode, (med hverium þeir Himnesku og Jardnesku Hluterner verda samteingder) hann varer avallt, so leinge Heimurenn stendur; eins og þeirra Almættis Orda, er Gud tálade i Upphafe (q): vared og margfalldest og uppfylled Jordena.

Hvad er þad, ad kunngiora Dauda Drottens?

Pad er hid sama og ad giora þetta i hanns Minning (r). Pad skedur: nær vier hann lofum og prijsum, elskum og þockum honum þa ovmrædelegu Giædsku, ad hann gaf sitt Lif i Daudann fyrer oss; og i ødrulage minnunst vier þess, ad aller þeir Velgiorningar sem hann oss afrekad hefur, med sinum Dauda, þeir heyra oss til, og þar fyrer tileinkum vier oss þa. J



(p) v. 26. (q) Gen. 1, 28.
(r) Luc. 22. v. 19.

Pridia mata, þar hann hefur oss so heitt elskad, þa eigum vier þess ad minnast, ad elska hver annann, epter hanns Bode hia Joh. (s): Þar af skulu aller þeckia ydur, ad þier sieud miner Lærescveinar, ad þier elskest innbyrdis; annars erum vier ecke rettsinnader Bordgestir Christi.

Hvert er Gagn og Nytseme þessa Sacramentis?

Fyrsta Nytseme þess, er **Truarstyrkingen.**

Hvernenn styrkest Truen þar vid?

Þad skedur med þvi mote: ad sierhver einn idrande Syndare tekur til sin þesse Ord: **taked og eted, þad er minn Likame, sem fyrer ydur verdur gefenn: item, þad er mitt Blod sem fyrer ydur uthelliſt til Fyrergefningar Syndanna:** þvi fyrst Guds Sonur hefur talad þad til allra, þa veit eg ad þad heyrer og mier til, hversu sem eg er syndugur; enn Trua min styrkest hvad mest vid þad, nær eg medtek med Munnenum þad sama Holld og Blod, i hveriu GUD hefur lided fyrer minar Synder, so eg kann þa ecke ad efast um, ad þær sieu mier aldeilis fyrergefnar; Og þvi er **Syndanna** Fyrer-

(s) Cap. 13. v. 35.

Fyrergefning hinn Annar Avortur þessa Sacramentis. Hinn Þridie Avortur þessa Sacramentis er Efling og Styrking Krapta Endurnyungarennar: þvi ef ad Skurdgoda dyrkararner, sem verda hluttakendur Bords og Kaleiks Diøflanna(t), Ef þeir verda Dioflanna Lags menn; hvad miklu helldur munu þeir verda einn Ande med Gude, (u) sem eru hluttakendur Gudlegrar Natturu, til ad umflya þa Spillingu, sem i Heimenum er af Girndenne? so sem Petur ad orde kemst (x). Frelsarenn seger sialfur (y): Sa sem etur mitt Holld og dreckur mitt Blod, hann blijfur i mier og eg i honum; hvar hann talar um hina Andlegu Nautn, an hverrar hin likamlega er ei, nema til Fordæmingar, sem sidar mun sagt verda; enn hver ed blifur i mier og eg i honum, hann ber mikinn Avoxt, seger hann (z). So styrkiast nu aller þeir ed þessa Guds Giof rettelega bruka, æ meir og meir i Trunne, og ollu godu Verke og Gude þægelegu, sem

 af

(t) 1 Cor. 10. v. 20. 21. (u) 1 Cor. 6. v. 17.
(x) 2 Pet. 1. v. 4. (y) Joh. 6. v. 56. (z) Joh. 15. v. 5.

af Trunne frammkemur, fyrer Krapta Endurfædingarennar, er hvad mest endur nyast med þessare Heilögu Nautn.

Verda þa aller þeir, ed brúka þetta Sacramentum, hluttakande þessara Avarta?

Langt er frá þvi, þess vert, hvad GUD nade og betri! þvi hefe eg adur talad um þa, sem þetta Sacramentum rettelega brúka; enn þeir alleina brúka þad rettelega, sem reina og **profa sialfa sig** (a): 1. **Hvert þeir true**, þad er: hvert þeir sain sinne i Hiarta sinu þvi, sem um GUD og hanns Vilia er opennberad, og her ad framan hefur vered umtalad; enn þo allra hellst um þa Forlikun og Endurlausn, sem ad sked er fyrer JEsum Christum, hvers Likama og Blod vier medtøkum i þessu Sacramento, til Stadfestingar þar um: So og i Ödrulage **hvertnenn þeir true**; þvi eige er þad nog, ad trua þad satt ad vera, sem GUD hefur i sinu Orde opennberad oss til Saluhialpar, þat **Dioflarner vita þad einnenn og trua þvi** (b), helldur og hvert su Tru sie avartarsøm hia sierhveriumm sem þetta Sacramentum medtekur, hvert hann elskar GUD, og vill þolennmodlega lijda nockud hanns vegna, hvert hann elskar sinn

(a) 1 Cor. 11, 28. (b) Jac. 2, 19.

sinn Naunga, og er liufur a ad forlata honum sinar Misgiørder, og hvert hann hefur Medaumkun med honum, nær henum a moti blæs, eige einasta med Orde og Tungu, helldur med Verke og Sannleika (c), og gete hann ei med Verke, þa samt med innelegre Medaumkan i Hiartanu. I þridia mata, ef þu finnur brest hia þier i Þvi, ad eige hafer þu slikt giort, sem vera a og þar vante miked til, þa attu ad idrast þess af Hiarta, og hafa Leida a undanfornum Syndum, og a setia þier ad lifa betur frammvegis, og bidia Gud um Styrk sins H. Anda: þetta heiter ad reina og profa sialfann sig (d); og seger Postulenn þad enn þa giør (e.) med þessum Ordum: Reined sialfa ydur, hvert þier sieud i Trunne; profed sialfa ydur, hvert þier þeked sialfa ydur, ad JEsus Christus sie i ydur, nema þier sieud ræker.

Hvernenn kemur þad til ad hin sanna Tru er alldrei Avaxtarlaus?

Þad kemur so til: ad hun er kveikt i oss af Heilogum Anda i Skirnenne, og efleft af hinum sama Anda, epter þvi sem menn



(c) 1. Joh. 3. 18. (d) 1 Cor. 11. 28. (e) 2 Cor. 13. v. 5.

þroast ad Alldre og Vitsmunum, hia øll-
um þeim, sem ei motstanda hønum, og
hanns Verkun, med visvitande Pverud;
hvad Paulus kallar (f) ad hryggia H.
Anda GUds; Enn hvar sem H. Ande
byr i Mannsins Hiarta, þa giører hann
Truna so friossama, ad hun færer Averte,
þad er ad af henne uppspretta godar
Huxaner, Ord og Giørder, sem GUD
hefur boded i sinu Løgmale, epter þvi sem
þad kann ad verkast i þessü daudlega Hollde,
hia sumum meir, enn sumum minna, so
sem GUd utskifter hverium einum Gafum
Nadar sinnar; Enn þesse Verkan H. Anda
skedur med þeim Hætte, þad nærsta Mann-
legur Skilningur fær þeckt og griped: Ad
sa sem truer a Gud, og øllu þvi sem um hann
er sagt, og hier ad framan er umtalad, bæ-
de i Utskijringu Bodordanna, og Truarjatn-
ingunne, hann eige einasta ottast hann
framm yfer alla hlute; hann hrædest ad fa-
ra ovarlega med hanns Nafn, og vanbruka
þad; og ad vanhelga hanns Hvijldardaga,
edur forsma hanns Ord; so og ad giøra
nockurt þad, sem bannad er i hinne Sidare
Bodorda Toblunne, og adur er, ad nockru-
leite, talad um i Utleggingu Bodordanna:
Og

(f) Eph. 4. v. 30.

Og eige einasta ottast hann ad fremia þetta, af því ad GUD er so Mattugur, og so Rettlatur, helldur og nær hann hugleider Guds oumrædelega Giæsku i Skopunar, i Endurlausnarennar, og i Helgunar Verkenu, i Þolennmædenne yfer sinum Syndum, er hann daglega fremur, og ollum ødrum oþriotande Velgiorningum, sem vid hann frammkoma a hveriu Augnablike; þa vaknar i hanns Hiarta Elskan til GUds, so hañ fær lyst til ad giora þad hann boded hefur, og ad fordast þad, sem hann hefur bannad; Og fyrer því hann veit ad GUd er Heilagur, og hatar þad illa, þa leggur hann allt Kapp a, ad iklædast einum Nyum Manne, þad er, ad fara dagbatnande, so hann verde epter Gude skapadur: Enn bæde þenna Otta (sem er einn Sonarlegur Otte, so sem þa nockur hrædist goda Forelldra, enn eige Þræls otte) so og Elskuna til GUds, vekur Heilagur Ande i Mannenum, so ad Truen verdur avaxtarsom, og fæder Godverkenn af sier; og þar i er Endurnyungen folgenn, sem eg hefe adur umtalad, hver þott ad sie ofullkomenn i þessit Life, þa tekur GUd þau Verk fyrer fullkomenn, sem af Trunne frammkoma, sokum Forþienustu JEsu Christi.

Hver er Mismunur a millum Prælsottans, og Sonarlegs Otta?

Hann er sa: ad Prællenn ottast eige nema Straffed, enn giorer eckert af Elsku edur Rækt vid sinn Herra; þvi kallar Paulus þad Ambattar-Syne (g), þad er Præla, sem af Logmalenu villdu rettlætast, enn eige af Trunne; Enn Sonurenn bæde ottast og elskar, og hanns Otte er alltid med Elsku blandadur; þetta Tvennt adskilur Paulus (h) Segiande: Pier hafed eige medtekeð Prælkunar Anda aptur til Hrædslu, helldur hafed þier medtekeð Anda Arfleidslunnar, fyrer hvern vier køllum, Abba, Fader. Prællenn verdur reidur og oþolennmodur nær hann straffadur er; Sonurenn idrast þess ad hann hafe Fodurenn styggdann; þvi hann veit hann giorer eckert af Reide, helldur af Elsku, til ad lagfæra þad sem abotavant er.

Er þetta Sacramentum aldeilis omissande til ad verda Saluholpenn?

Ad visu er þad omissande, øllum þeim sem þvi og þessrettre Handteranna kunna; þvi sa sem þad forsmaer hann forsmaer Christi Bodord, et

(g) Gal. 4. v. 25. 36. (h) Rom. 8. v. 15.

er ſagde i Innſetningar-Ordunum: taked og eted; item, Drecked hier af aller; enn ſa ſem forſmaer hanns Bodörd, hann forſmaer Gud; enn þa ſem hann forſma, þa vill hann forſma (i); enn þeir ſem hann forſmaer, eiga Hlutſkipte med þeim til hverra hann ſegia vill a ſijdarſta dege: eige þeckta eg ydur, fared fra mier aller Illgiørda menn (k). Enn hver ſem þeſſu Sacramento eige na kann, honum dugar hin Andlega Nautn ſem Frelſarenn umtalar (l) ſegiande: ſannlega, ſannlega ſege eg ydur, nema þier eted Holld Mannſens-Sonar, og drecked hanns Blod, þa munud þier eige hafa Lifed i ydur.

Hvilik er þeſſe Andlega Nautn?

Pad er eckert annad, enn ad finna i Hiartanu, og tileinka ſier, med fullre Tru og Trauſte, Averte JEſu Pinu og Dauda, ſem er Fyrergefning Syndanna og eylift Lif; Og er Mismunur hinnar Likamlegu og Andlegu Nautnar þar i folgenn: 1. Ad ſu Andlega Nautn verkar alltid Fyrergefningu Syndanna; enn hin Likamlega eige alltid

(i) 1 Sam. 2. 30. (k) Matth. 7. 23.
(l) Joh. 6. v. 53.

alltid, og ei nema hin Andlega fylge med; þvi sumer eta og drecka o-verduger. 2. Þvi su Likamlega er onyt fyrer utan hina; enn su Andlega verkar med fullum Krapte, an þessarar, þar sem þa likamlegu brestur. 3. Þeirre Andlegu Nautn fylgia aungver syneleger hluter; enn an þeirra kann su likamlega eige ad stand-ast.

Hvar fyrer er su Likamlega Berging innsett, fyrst hin næger?

Eg hefe eige sagt þad, ad hun næge, ef Madurenn kann hinnar niotande ad verda; miklu helldur ad sa sem forsmaer, edur forsom-ar hina Likamlegu Nautn, hann verdur eige hinnar Andlegu hluttakande, þvi hann er eige Guds Vinur; enn þar fyrer er hin Likam-lega Nautn boden, ad Truen kann optlega ad veikiast; ja, eingenn er so sterkur, ad hann kunne ad treysta so uppa sig, ad hann eige einhvern-tijma bile i Trunne, hverju sem hann er vel uppfræddur, og saunfrod-ur um Guds Giædsku og Mysteriume; þvi er þad eitt hid mesta Elsku-merke Frelsar-ans, ad hann hefur gefed oss sitt Holld og Blod til ad eta og drecka, bæde med Likam-ans og Truarennar Munne; so ad þegar eg medtek þessa Guds Giøf, sem a Kross-

enum

enum er fornfærd fyrer Synder minar, med Lijkamans munne, þa styrkist min Tru þar vid, sem adur er sagt, ad eg kunngiore Dauda Drottens, sem daenn er fyrer Synder minar, so eg þar fyrer rettlatur vrde: og þad er ad eta Holld og Blod Drottens i Andlegann-mata, edur med Munne Truarennar; an hvers hin likamlega Nautn er eige alleina onyt, helldur og so snyst þeim til Fordæmingar, sem Hlutena overdugur medtekur; þvi hann verdur sekur vid Holld og Blod Drottens (m), sem jafnvel hinum Vantruudu verdur i þessu Sacramente meddeilt.

Enn þott þessu sie so vared, þa er samt hin Likamlega Nautn omissande, eige einasta vegna Christi Bodords, helldur og hins, ad hun innsiglar og stadfester hia ollum þeim, er hana verduglega bruka, Syndanna Fyrergefning, epter þessum Ordum Drottenns: Þad er minn Likame, sem fyrer ydur verdur gefenn; þad er mitt Blod sem forer ydur uthelleft, til Fyrergefningar Syndanna; þvi Christur hefur gefed sitt Holld ut fyrer Lijf-Heimsins; eige einasta til Endurlausnar, med

(m) 1 Cor. 11, 29.

med hverre ad Eylift Lif er ollum afrekad, helldur og til Fædslu i Drottennlegri Kvølldmaltid, ad hun sie þad Medal Saluhialpärennar, fyrer hvert ad sierhver einn Retttruadur, tileinkar sier Fyrergefning Syndanna, og medtekur hana, so sem eina Stadfestingu og Innsigle þar uppa. Og þo þetta Orda tiltæke þykie undarlegt: Ad eta og drecka Hollld og Blod Drottens i Andlegann Mata, þa er þad eige oveniulegt i Heilagre Ritningu, so seger David (n): Þu munt eta Erfide þinna handa, þad er: Avext þins Erfides; eins etum vier med Truarennar Munne Avext JEsu Pijsla, er hann þolde i voru Hollde, og vor innre madur nærest þar af, eins og Likamenn af Erfide Handa vorra.

J þridia mata er þetta Sacramentum so sem Lutherus seger i sinum Stærra Catechismo, gefed oss, so sem fyrer daglega Fædu, so ad Truarennar Kraptar endurnærest; hann hefur an efa meint: Ad so sem Madurenn, þott hann ete sig eitt sinn mettann, þa verdur hann aptur matlystugur, og þarf Fædunnar vid, til ad vidhallda sinu likamlegu Lijfe; J vidlikann mata, þott ad ein rettruud Sal hafe i þessu Sacramento

(n) Ps. 128. v. 2.

cramento eitt sinn feinged Andlega Sadningu, bad er: fulla Vissu um Kvittun Synda sinna, þa samt, ( af þvi vier getum ecke an Synda lifad ) þa hungrar oss og þyrster aptur epter Rettlætenu (o), hvert vier ødlunst i þessu Sacramento, og verdum ad nyu metter af Nægtum Guds Huss, til Vidurhallds og Næringar voru Andlegu Life, hvers vier hluttakande verdum i Endurfædingunne.

Hversu opt skal Madur bruka þad Heilaga Alltaresins Sacrament?

Þad er hverge akveded i GUds Orde; þo ma sia af þessum Ordum Christi: So opt sem þier giored þetta, ad þad a optar enn skialldnar ad bruka; enn þad er hinn vissaste Mate her til, ad so sem menn eta so opt sem þa hungrar, so skal madur bruka þessa Salar-Fædu, so opt sem hann finnur til Andlegs Hungurs, þad er: so opt sem hann vantar Andans Hugsvelun, epter hverre hann mun optlega langa, sem verkar Saluhialp sina med Ugg og Otta, og hugleider, ad hann daglega rysur sinn Skyrnar Sattmala, sem Endurnyadur verdur i þessu Sacramento.

Enn

(o) Matth. 5. v. 6.

Enn ef einhverium er so hattad, ad hann skialldan,
edur alldrei, finnur þetta Andlega Hungur, a
hann þa ad hallda sig fra þessu Sacramente,
a medan hann er so a sig komenn?

Ad visu skal eingenn medtaka þetta H. Sacramentum, utan alleina hungrud Ønd; enn þad verdur þem til eingrar Assokunar, helldur til þess meire og hrædelegri Fordæmingar, sem eige langar epter þessu Gestabode, ad hann forsomar þau Medol er GUD hefur skipad til ad sundurmeria Hiartad, og ad vekia i mannenum Þorsta Rettlætteisins, sem er: 1. Kostgiæfeleg og athugasem Heyrn GUDs Orda; þvi fyrer Ordsens Heyrn kemur bæde Idranen og Truen: þeir skarust i sinu Hiarta (p), er Petur heyrdu tala a Hvitasunnudøgum, og GUDs Ord er lifande og krøptugt, og hveriut vieggiudu Sverde hvassara, þreingiande sier i gegnum Bein og Merg (q). 2. Bænen, an hverrar eingenn kann adheimta af Gude, ad hann skape i homum hreint Hiarta, og gefe honum nyann vissann Anda, þad er, sanna Idran og leida a Syndenne, þvi eingenn girnest þad sem hann ei umbidur, þvi beidde og David um þetta (r). 3. Er þad

(p) Act. 2. 37. (q) Heb. 4. 12. (r) Ps. 51. v. 12.

þad Profan og Reynsla sialfs sins, hveria margann vantar, og fæster leggia Kapp þar a, svo vel sem þarf, þad er: ad þeir ecke gefa sier Stunder til ad rannsaka sitt Frammferde, Hugrenningar, Ord og Giorder; annadhvert af Hirduleyse; edur fyrer þvi, ad þeir eru komner i einhvern syndsamlegann Vana, sem þeir annadhvert eigi þeckia fyrer Synd, edur þyker so vænt um, ad þeir ei vilia af honum lata. Sa sem þetta þrennt forsomar, hann er eige hæfur til ad finna til nockurs Andlegs Hungurs, og þott hann hende ei nema smaar Synder, er menn so kalla, þa er honum miklu verr fared, enn hinum allra hrøpiegasta Syndara, sem idrast, og þecker sin Afbrot: Enn ef nockur, ut af sannre Audmykt og Ofbode sinna Synda, þykest overdugur vera, og þorer eige þar fyrer ad koma nærre þessum Helgum Domum, þa vite hann, ad honum er þess meire þorf a, ad koma til þessa Bords; þvi her skal hann finna Hugsvolun Salu sinne; enn hann sem þad hefur tilreidt Mønunum til Syndalausnar og Saluhialpar, hann hefur til han boded øllum þeim sem Erfide drygia, og Þunga eru þiader, og



lofad

sosad ad hann vilie þa endur næra (s) þvi skal eingenn hallda sig hier fra, hversu storsyndugur sem hann er, nær hann idrast af Hiarta, helldur true þvi statfastlega, ad Guds Þienare hefur hanns Umbod til þess, ad fyrergefa honum Syndernar i JESU Nafne, hver ed sagt hefur (t): **Hverium hellst þier fyrergefed Syndernar, þær skulu þeim fyrergefnar verda;** Item (u): **hvad þier leysed a Jördu, skal a Himnum leyst verda.**

Hvernenn skal Madur rettelega bua sig under Medtekningu þessa Sacramentis?

Þad er Þrennt sem þier byriar i þessu ad athuga. 1. Hvad þu giora skallt, adur enn þu geingur til þessa Sacramentis. 2. Hvad þu skallt giora i Aflausnenne, og a medan þu ert staddur fyrer Alltarenu. 3. Hvad þu att frammvegis ad giora.

Hvad skal eg giora adur enn eg geing til Sacramentis?

Þad hefur þu optlega heyrt, ad eingenn skal þetta Sacramentum medtaka, utan hann hafe angurfullt Hiarta fyrer Syndernar; enn fyrer þvi, ad vier ei getum þvi til vegar komed af vorum Kreptum alleina,

þvi

(s) Matth. 11. 28. (t) Joh. 20. v. 23.
(u) Matth. 18. 18.

þvi Gud er sa ed verkar i oss, bæde Viliann og Verked (x), þa attu fyrst ad bidia Gud um, ad sundurkremia Hiarta þitt med alvarlegri Idran, og giora þig hæfelegann til þessa Gudrææknennar Eyrend-es; enn fyrer þvi, ad GUd hefur gefed þier i Endurgetningunne Krapta til ad samverka sier i þinu Saluhialparverke; þvi seger Gud hia Esaiam (y): **Hreinsid ydur, þvoed ydur.** Og enn: **Sundur ryfsed eige ydar klæde, helldur ydar Hiörtu:** þa attu alla þa Atburde ad bruka, sem Gud hefur adur gefed þier Krapta til. Hvernenn fæ eg best vaked i mier þessa Krapta Endurgethingarennar, til ad sundurkremia mitt Hiarta?

1. Þu hefur adur heyrt, hvad eg sagt hefe um Bodordenn, og þeirra Skilning, og hvad i þeim sie boded og bannad. Hugleid þad nu med þier gaumgiæfilega, og rannsaka hin innstu Fylsne þins Hiarta, hvad margt þu hefur ogiort lated, af þvi sem þar er boded; og i annann stad, hverssu margt þu giort hefur af þvi, sem þar i er bannad, eige einasta oviliande og af Bradræde, helldur og med Umþeinkingu, og af asettu Rade. Hugleid nu under eins hvad ∫∫∫ HErra



(x) Phil. 2. 13. (y) Es. 1. 16.
(z) Joel. 2. v. 13.

Eld er; hverſu Mattugur; ad hann getur ſtrax kaſtad þier med Liiſe og Salu i eylifann Eld (a); hverſu Vis, ad hann veit jafnvel þina heimugleguſtu Panka; hverſu Rettlatur, ad hann vill dæma Mannenn til eylifra Kvala fyrer Syndernar; ja, hinar minſtu Synder, og Leyneleguſtu (b) jafnvel, nema Madurenn idreſt þeirra og true a Sonenn; enn þu veitſt eige nær Daudenn kallar þig fyrer Guds-dom. Nær þu hugleider þetta, gaumgiæfelega, mun þier eige koma þa til Hugar ad idraſt þeſſ, ad þu hafer ſtygt ſo Volldugann, ſo Viſann og Rettlatann HErra, enn leidt yfer þig eylifa Fyrerdæmingu? og i Sannleika: vier idrunſt þeſſ næſta mieg, ef vier høfum ſialfum oſſ Skada giort af Bradræde, Forſomun, edur Galeyſe, annadhvert a Formegun vorre, edur Heilbrygde; og þvi ſkylldu menn þa ecke idraſt þeſſ, ad vier høfum med Syndunum leidt yfer oſſ Guds-Reide, ſem brennur allt til nedſta Helvitis (c), og eylifar Helvitis-Piſler, ſem eru obærelegar? Hugleid og þad i ødrulage, med eingu minni Gaumgiæfni helldur enn hid fyrra, hverſu

(a) Matth. 10, 28. (b) Pſ. 90, 8. (c) Deut. 32, v. 22.

hverſu Nadugur, Giæſkufullur, og Þolenn-
modur, ad ſie þeſſe ſtore HErra: les þad,
ſem ſagt er um hann, i Utſkijringunne yfer
Truargreinernar, ad hann hefur ſkapad
þig, vidhelldur og forſorgar þig daglega,
med ollu þvi, ſem i Fyrſtu Greinenne er
upptaled; ad hann hefur Endurleyſt þig
med herfelegum Dauda og Pinu ſins Ein-
getens Sonar, hver honum er ſo kiær, ſem
ſialfur hann; hefur Helgad þig og Endur-
geted i Skijrnenne, ſem varſt dauđur i Synd-
enne, og giort þig, ſem varſt Reidennar-
Barn(d), ad ſinu Barne og Sam-
arfa JEſu Chriſti(e), ad hann hefur
ſkipad þier ad bidia ſig um alla þa hlute er
þier aliggur; og lofad ad hann villde þig
bænheyra, og bænheyrer daglega; ja, þott
þu hann eige beded hafer, ſo ſem byriar, þa
hefur hann eige lated þig vanta ſinar Aſt-
giafer, helldur er hann Þolennmodur, hef-
ur ſparad þig midt i Syndunum, til ad
draga þig til Jdrunar; Og ad ſidurſtu hef-
ur hann gefed þier ſins Sonar Holld og
Blod, til ad eta og drecka, til Stadfeſting-
ar um allra þinna Synda Fyrergefning, og
ſialfur gefed þier þetta dyra Medal til ad
forlijkaſt vid ſig: Enn þenna ſo Nadugann

 Giæ-

(d) Eph. 2. 3. (e) Róm. 8. v. 16. 17.

Giæskuriskann og Þolennmodann GUD hefur þu daglega stygt med vitanlegum Syndum, ja, margfalldlega, sidan þu lofader Bot og Betran sidarst i Skriftastolnum; seg mier: nær þu þetta hugleider, mun þier ei koma til hugar ad lata þig þad angra af Hiarta? þvi ef god Børn edur Þienarar idrast þess, ad styggia goda Forelldra edur Husbændur; þvi skylldu menn þa ei lata sig þad angra, ad þeir styggia so godann GUD, hvers Nad og Giæska ad yfergnæfer allann Skilning. Af þessare Rannsokn sialfs sins, og þvi Angre sem þar af verdur, spretta og framkoma þeir Hluter, er Gud krefur af idrande manne, under Fyrergefning Syndanna, sem er: Sannarleg Audmykt fyrer hønum, nær þu ber saman hanns Giæsku og þina Illsku, hanns Heilagleik og þinn Saurugleik, hans Þolennmædi og þina Þvermodsku, hans Trufeste og þina Brygdmæige, hanns Dyrd og þina Vesølld, og allann þinn Overdugleika, vid hanns Guddomlega Hatign. I Ødrulage, nær þu saman ber þetta, og sier þar af, hversu mørg Tiu Þusund Punda, ad þu siert GUde skylldugur, og att einkis Urkoste, nema ad þier kastad verde i hin ytstu Myrkur, hvar vera mun Op og Tanna-Gnystran, utan hann

uppgefe

uppgefe þier alla Skulldena; enn þier kem-
ur til hugar, ad þinn Naunge hafe giert þier
a moti, þa muntu sia hvad lijted þad er,
hia þvi, sem þu ert GUde skylldugur: og
ef þu villt fa þinna Synda Kvittan, þa mun
tu fyrergefa honum, ut af Hiarta, sinar
Motgierder vid þig, og ecke þeinkia til ad
hefna þess a honum framveigis, hversu stort
og mikid sem þad er; þvi, nema þu so gior-
er, þa er þad forgefens, ad þu idrest, og
þu hefur eckert ad festa þina Tru a, um Kvitt-
un Syndanna, nema þu forlater þinum
Brodur sinar Misgierder. Þetta er þad
hellsta, sem þu att ad giora under Aflausn-
ena, enn þad er eige einnrar Stundar
verk, þvi er þier einsett, ad taka til ad hyxa
her um nockru adur enn þu fer til ad forlijka
þig vid GUd, i Skriftastolnum; og þar
med adgreiner þu hvad best Drottens
Likama fra annarre Fædu, so sem Postul-
enn ad orde kemst (f). Þegar þu nu
hefur sundurkramed þitt Hiarta med Minn-
ingu Synda þinna, og GUDS reide, og
hanns Giæsku, ad samverkanda H. Anda;
þa gack inn ad Skriftarstolnum, epter Chri-
stilegri Sidvenu; og jata þinar Synder
fyrer GUds Pienara; og heyr, med Athyg-



(f) 1 Cor. 11. v. 29.

li, hvad hann þier af GUds Alfu seger; og bodar; og tru þvi stadfastlega, ad ef þu ert sannidrande, þa hefur hann Valld til ad fyrergefa þier Syndernar, epter Christi eigenn Ordum; eige af sialfum sier, þvi hann er Madur, syndugur eins og þu, helldur i Umbode Drottenns, og epter hanns Fyrerheite; og þegar hann so giort hefur, þa mattu vera fullviss þar um, ad þinar Synder eru kvittar i Himnenum, hversu sem þær eru fular og andstyggelegar; og til eins Innsigles og Stadfestu her uppa, þa medtekur þu skømmu þar epter, þad sama JEsu Christi Holld og Blod, sem fyrer þinar Synder do a Krossenum; Enn þu att stoduglega ad trua, eige einasta, ad þad sie i Sacramentenu verulega og sannarlega nalægt, helldur ad þad sie fyrer þinar Synder gefed og uthellt, þvi seger Lutherus i Frædunum: Sa er sannarlega maklegur og velskickadur, sem Truna hefur a þessum Ordum: fyrer ydur giefst og uthelest til Fyrergefningar Syndanna, þviad þetta Ord, fyrer ydur, krefur fullkomlegrar Truar i Hiartanu. A þessum sidurstu Ordum vardar miked um, ad

hafa

hafa greinelegann Skilning; enn su er Mein-
ing þeirra: ad sa sem vill ganga verdugle-
ga til GUds Bords, hann skule þvi stød-
uglega trua, ad Christi Lijkame og Blod
sieu utgefenn til sinna Synda Fyrergefning-
ar, og þad sama attu ad hyra, þegar þu
heyrer þesse Ord lesenn i Innsetningar Ord-
unum, fyrer Alltarenu; og nema þu truer
þvi; þa ertu overdugur, og verdur sekur
vid Holld og Blod Drottens (g)
hier til Fordæmingar; þvi byriar þier vel
ad profa sialfann þig, eptir Postulans
Bodi (h); hvert þu siert i Trunne, þad
er: hvert þu truer þessum Ordum; so eru
nu þesse Ord: taked og eted, þad er
minn Likame, sem fyrer ydur verd-
ur gefinn; Drecked aller hier af, þad
er Kaleikur hins Nya Testamentis i
minu Blode, sem fyrer ydur uthell-
ist til Fyrergefningar Syndanna,
þau eru, sege eg, so sem Hond GUds, med
hverre hann retter oss Fyrergefningu Synd-
anna i Sacramentenu; enn Truen er, so
sem Hend syndugs Manns, er vid henni
tekur: Enn þott Truen sie veik, þad giører
ei þann overdugann, sem er Bordgestur

S 5 Drottens;

(g) 1 Cor. 11. v. 27. (h) 1 Cor. 11. v. 28.

Drottens; þvi ein veik Tru, er þo samt tru; og ein veik Hond tekur eins vel vid Olmusu, og su sem fullhrausst er; og sa sem giarnan vilde vera truarsterkare, hann berst vid Truna; og af þvi hinu sama, ad hann berst vid hana, þa ma hann vita, ad hann er i Trunne; hann seger med Fodur hins Tunglsiuka: eg true ad sonnu HErra, enn hialpa þu Vantru minne (i): sa sem Vantruadur er, hann truer aldeilis ecke; enn hinn Veiktruade hann truer, eins og einn halltur geingur, þo ei gange hann so fliott sem hinn heilfætte: þvi skal hann hvad hellst bruka þetta Sacramentum, hvar hann mun finna Andlegann Styrk; þvi GUD er Trur, og hann, sem þad hefur innstiptad, vill ei lyttlogandi Hörkveik utsloeckva (k); enn a medan late hann sier nægia Drottens Nad, þvi hanns Kraptur fullkomnast i Breisklei̊kanum (l). Þad Þridia er þad, sem þu giora att, epter þad, ad þu hefur þannenn medteked HErrans Likama og Blod, sem er: ad þu skallt betra þinn Lifnad daglega, þad mesta þier mogulegt er,



(i) Marc. 9. v. 24. (k) Es. 42. 3.
(l) 2 Cor. 12. 9.

og veria þar til allri Arfvekni og Aſtundan, ollum Salar og Lifs-Kroptum, ad Kroſſ-feſta þitt Holld med þeſſ Girndum og Til-hneigingum, enn iklædaſt einum Nyum Manne, ſem epter Gude er ſkapadur; og nema þu ſo giorer, og ef þu lætur þier þykia vænt um þinar formu Synder, þa ſpiller þu þeirre Kvittun, er þu hefur adur feinged; þvi ſagde Drottenn (m) vid Horkonuna, er hann afleyſte i Muſterenu: **gack burt og ſyndga ei framar;** og vid hinn kar-læga, er hann læknade vid Dyked Bethezda, ſagde hann (n): **ſyndga nu eige fram-ar, ad ei hende þig annad verra;** Og hvad er þad? vier bidium GUD ad taka fra oſſ Syndena, enn vier elſkum hana þo, og vilium ei ſtrida i mote heinne, þar GUD hefur þo gefed oſſ Krapta þar til. Vert þvi ei ſialfum þier ſo illur og oþarfur, ad þu onyter þeſſa GUDs Giof, med viſvitande Ydkun ſomu Synda, edur ſpiller þeirre Jdran med hverre þu afrekader þeirra Kvitt-un; fierdeilis þar þu ei veitſt, hvert þu att hennar Koſt optar; þvi hun er ecke i þinu Vallde, nær þu einuſinne hefur utreked og utſlockt Andann med Overmodſkunni og Ohlydnenne vid GUD, hverium þu hefur lofad

(m) Joh. 8. 11. (n) Joh. 5. 14.

lofad Bot og Betran. Hugleid hvad ometanlegann Velgiorning þu þeged hefur i þessu Gestabode, sem er Kvittun Synda þinna, sem fyrer Guds Sonar Blod er afrekud, hvers minste Drope ad er Þusundsinnum dyrmætare enn Himenn og Jord. Vert þvi ecki so ópacklatur, ad þu ecke vidur kenner þenna yfermata stora Velgiorning med Christelegu Liferne, og ydkun þeirra Hluta, er GUD boded hefur, enn Leida og Hatre a þvi sem hann hefur bannad. Lat þier til hugar koma, hvad heitt hann hefur þig elskad, og hvad mikla Elsku þu ert honum aptur a mot skylldugur um. Enn ef þu elskar hann, **þa verda þier eige hanns Bodord þung** (o), helldur sprettur allt Gudrækilegt Framferde sialfkrafa af Elskunne til hanns, þvi hun er Rot allra Christilegra Dygda. Þu hefur i þessu Sacramente endurnyad ann Sattmala, er GUD giorde vid þig i Skijrnenne, og þad Heit, er þu honum giorder, ad afneita Dioflenum, og ollu hanns Athæfe; Sia til, ad þu eige riufer þad aptur a ny med visvitande Syndum og Glæpum. I þessu Gestabode hefur GUD endurnyad þa Krapta, er hann gaf þier i Endurfædingunne

(o) 1 Joh. 5. 3.

unne, vara þig ad eige niðurbrioter þu GUds Verk, og hanns Rijke i þier, med Satans Verkum og hans Þionustu. Þu medtokst Holld og Blod Drottenns til ad styrkia þina Tru med, um Fyrergefning Synda þinna, og þu truder þvi ad þær væru þier fyrergefnar; enn ef su Tru varer ei leingur enn i þad sinn, og verdur sidan avartarlaus, þa er hun eige betre enn þeirra, sem trua um stundarsaker, og falla fra a Freistingar-timanum (p), og vill þad þa lited gagna þier ad þu hefur truad; helldur mattu vita, ad þu hefur mist Truna, nema hun bere Avext, þvi Truen er dauð an Verkanna, seger Jacob (q); Enn þu ert ad nyu fallenn i GUds Oblydu; Heyr þvi Peturs Ord (r), þar hann seger: Ef þeir, epter þad þeir umflued hafa Saurgan Heimsins, fyrer Þeckingu Drottens og Frelsara vors, JEsu Christi, verda aptur af þeim fangner og sigrader, þa eru þeirra sidare Kiør lakare ordenn enn hin fyrre; þvi betra være þeim eige ad hafa

(p) Luc. 8. 13. (q) Cap. 2. v. 17, 20.
(r) 2 Pet. 2. v. 20. 21. 22.

hafa þeckt Veg Rettlætesins, helld-
ur enn ad þeckium honum, ad vijk-
ia fra þvi Heilaga Bodorde, sem
þeim er afhendt; enn þa hender þad
sem plagar ad segiast i hinum sanna
Malshætte; Hundurenn er aptur
horfenn, til sinnar eigen Spyu, og
hid þvegna Svijn til Leirvelltunnar.
Enn med þessu meinar eige Postulenn dagleg-
ar Avirdingar Gllds Barna, sem eingenn
sær vidgiort, og eige þott þeir rata meige i
stærre Synder, þvi þeir eiga jafnan aptur-
kvæmt til Gllds, fyrer Idranena, sem Glld
ottast: um hveria David talar (s) med
þessum Ordum: Po ad hann hrase, þa
verdur hann eige burtkastadur,
þvi Drottenn helldur i hond med
honum. Og Paulus huggar oss med þvi
(t), ad eingen Fordæming sie hia
þeim, sem eru i Christo JEsu, hverier
eige ganga epter Holldenu helldur
epter Andanum; þad eru þeir sem eige
lata Syndena rijkia i sinum daud-

daud-

legum Likama, ad þeir þione henne i hennar Girndum (u). Og hefe eg so sagt hier nockud af Christenndomenum; hvers Ender og Avoxtur er þad, sem fyrer skommu var umtalad, sem er Fyrergefning Syndanna, hverre ad fylger Eylift Lijf.

(u) Rom. 6. v. 12.

# Þri-einum Gude sie Lof og Dyrd!



# Errata.

Pag. 7. lin. 23. einn les enn. p. 12. lin. 20. in, les i. p. 21. lin. 24. elfest les effest. p. 29. lin. 23. folkinge les fiolkinge. p. 30. lin. 21. Þo les Þa. ibid. lin. 23. naungangs les naungans. p. 35. lin. 13. hetgunar les helgunar. ibid. lin. 14. vredur les verdur. p. 42. lin. 24. utvortis les utvortis. p. 46. lin. 4. vinuu les vinnu. p. 50. lin. 4. forrlldranna les forelldranna p. 60. lin. 6. framsemur les framkemur. p. 121. lin. 8. fullega les fullkomega p. 124. lin. 21. Himsens. les Heimsens. p. 128. lin. 14. Riettlætter les riettlæter. p. 135. lin. 12. Hinenum les Heimenunn. p. 136. lin 20. uppise les upprise. p. 155. lin. 18. væra les vera. p. 164. lin. 2. lærfedrum les lærefedrum. p. 177. lin. 26. baud les braud. p. 197. lin. 23. Bodur les Brodur. p. 200. lin. 24. uppesed les uppgefed. p. 232. lin. 25. eger les seger.

Og hvad fleira hefur maatt yfersiast i Pryckingu þessarar Bokar, er Lesarenn vinsamlega bedenn ad lagfæra og lesa i Maled.

